# Aðvörunar og sannleiksraust



um

höfuðatriði trúar

"Jesú Kristi kirkju af síðustu daga heilögum."

Samin af

ÞÓRÐI DIDRIKSSYNI.



Kaupmannahöfn.

Utgefin af N. Vilhelmsen.

Prentuð hjá F. E. Bording.

1879.

# Formàli.

Sumir menn skrifa til skemmtunar, sumir fyrir peninga, sumir til uppbyggingar og blessunar, bæði í andlegan og likamlegan máta; hvað mitt augnamið er, verður lesarinn að dæma, eptir að hafa lesið þær fylgjandí blaðsíður.

Um guðsríkislög og náðarboðskapinn, og hvernig maður getur orðið lukkulegur eptir þetta lìf, hef eg valið að skrifa; það er það, sem hefur upphvatt flesta gòða og gaðhrædda menn, að þenkja og tala mikið þar um, frà upphafi veraldar, Guðs orð, Jesú orð, hans heilögu spámanna og postula orð, vilja sanna og sýna hvað það er.

Eg vonast eptir, ad geta með Guðs hjálp gefið þeim upplýsingu, sem af einlægu hjarta óska að þekkja Guðs vilja, sèr til sáluhjálpar, og sem trúa hans orði, og ef eg skyldi sýna og sanna lærdóma og mannasetningar að vera falskt, við að bera það saman við Guðs orð og sannleikann, þá viti allir, að eg er ekki í stríði við mann eða menn, heldur við það, sem er mótstríðandi þeirri heilögu ritningu; því hún er grundvöllur, regla og mælisnúra, sem eg byggi á og eptir.

Ef eg mætti verða verkfæri í Guðs hendi gegnum þessar fáu línur, til að sýna guðsríkislög og endurlausnar verkið, þá skyldi það gleðja mig, bæði um tíma og eilífð; og að margir mættu sjá og trúa sannleikanum, sem Guð hefur opinberað við Jesúm Krist, er mín bæn í Jesù nafni. Amen.

# Tíl lesarans.

---

Það er mitt augnamið, með að útgefa þessa aðvörunarraust, að láta alla vita, hvað Jesú Kristí náðarboðskapur er, og að hann er aptur gefinn til jarðarinnar i sinni fyllingu, samkvæmt spádómunum og fyrirheitunum, og að sýna hvar vèr byggjum vora trú og lærdóma á, og hvort að það, sem þeir skriptlærðu, og sum af dagblöðunum, segja um þá síðustu daga heilögu sè sannleikur, og að sýna, að þeirra hleypidómar eru ekki byggðir á þeim rétta grundvelli. Einginn skynsamur maður, eða kvinna, vill fordæma nokkurn hlut, sem þau ekki geta mótsagt með skynsamlegum àstæðum, eða sönnunum af Guðs orði og ritningunni; annars er það heimska, sèrvizka og illgirni. Þar fyrir er lesarinn góðfúslega umbeðinn, að reyna og prófa alla hluti, og halda fast við það góða og sannleikann, og gleyma ekki að biðja Guð um vísdóm, sem gefur öllum eptirtölulaust og án brigzlyrða. Jakob 1 k. 5 v.

---

## FYRSTI KAPITULI.

### Um trú og umvendun.

---

Leitið fyrst Guðsríkis og þess rèttlætis. Matth. 6, 33. Hvað gagnar það manninum, þó hann eignaðist allan heiminn, ef hann liði tjón á sálu sinni? Matth. 16, 26. Hvað er Guðsríkis náðarboðskapur? Það eru hans lagaboð og tilskipanir, himneskar fororðníngar og lögmál, sem öll Guðs börn verða að hlýða, eins og það er talað og skrifað í þeirri heilögu ritningu, til að öðlast frelsi og upphefð í Guðsríki. Strax þegar Adam var settur í Paradís, gaf Guð honum boðorð, sem var, að hann mátti ekki eta af skilníngstrènu góðs og ills, því þá skyldi hann vissulega deyja; sorg, sjúkdómur, erviði og dauðinn — með mörgu öðru fleira — var straffið fyrir að brjóta Guðs boðorð. En höggormurinn kom og sagði við konuna: Eingan veginn munuð þið deyja, heldur munuð þið verða eins og Guð í að þekkja gott og íllt (nefnilega að Guð meinti ekki það, sem hann sagði). Það sama gjöra þeir, sem hafa umbreytt þeim lögum, sem hann gaf, þeir segja, að það eigi ekki að skiljast eins og það

stendur skrifað, og að Guð meini ekki það sem hann segir, eins og höggormurinn sagði við Evu, að ekki mundu þau deyja, en Guð meinti það sem hann sagði. Þegar Guð skipaði Nóa að byggja örkina, því hann vildi láta vatnsflóð koma yfir jörðina, þà meinti hann það sem hann sagði. Guðs-orð er sá sáluhjálplegi lærdómur, það er fullkomið frelsis-lögmál. Jak. 1, 25. Það er frelsis-lögmál, já fullkomið að frelsa syndarann, ef hann hlýðir því uppá þann sama máta, sem það var kennt af Jesú og hans postulum. Það er eilífur fagnaðarboðskapur. Opinb. 14, 6. Það er kraptur Guðs til sáluhjálpar sèrhverjum er trúir. Róm. 1, 17. Það er fyrst, að trúa Guðs orði og Jesú Kristi lædómi, og hlýða því uppá sama máta sem postularnir kenndu það. Annað, að umvenda sèr frá öllu illu; þriðja, að láta sig skíra með niðurdýfingar-skírn til syndanna fyrirgefningar. Fjórða, handayfirlegging til móttöku heilags anda. Allir urðu að hlýða þessum tilskipunum, sem vildu öðlast frelsi í Guðs ríki. Þetta eru nàðarboðskaparins fyrstu höfuðatriði, sem Jesús innsetti í sína kirkju. Þetta er sannleikans eilífi fagnaðarboðskapur. Þetta er nýja testamentisins lögmál. Þetta er kraptur Guðs til sáluhjálpar, og fullkomið frelsislögmál, segir Jakob. Það fyrsta og stærsta höfuðatriði nàðarboðskaparins er trú; hún er fullvissa um ósèða hluti, hún er drífandi afl þeirra hluta, sem menn gjöra.

Trúin er örugg eptirvænting þeirra hluta, sem maður vonar, og sannfæring um það, sem hann

ekki sèr. Fyrir trúna fullvissumst vèr um, að heimurinn sè skapaður fyrir Guðs orð, á þann hátt, að hið sýnilega sè til orðið af hinu ósýnilega. Vegna Abels trúar, mat Guð fórn þá, er hann færði honum, fram yfir Kains. Vegna trúar sinnar var Enok burt numinn, að hann ekki skyldi dauðann sjà. Án trúar er ómögulegt Guði að þóknast, því sà, sem vill koma til Guðs, verður að trúa því, að hann sè til, og að hann umbuni þeim, sem hans leita.

Trúin gjörði það að verkum, að þà Nói var af Guði aðvaraður um það, sem enn þá ekki sást, óttaðist hann Guð og smíðaði örkina til frelsis sínu húsi; með trúnni fordæmdi hann heiminn og varð hluttakandi þeirrar rèttlætingar, sem fæst fyrir trúna. Fyrir trú sina hlýðnaðist Abraham, þá honum var boðið að fara til þess staðar, er verða átti hans óðal; og hann fór, þó hann ekki vissi, hvert hann fara skyldi. Fyrir trúna öðlaðist Sara krapt til barngetnaðar, þótt hùn væri úr barneign. Vegna trúar fórnfærði Abraham syni sínum Isaak. Vegna trúar um hið ókomna, lagði Isaak blessun sina yfir Jakob og Esaú. Vegna trúar blessaði Jakob á deyjanda degi yfir báða syni Jóseps. Vegna trúar talaði Jósep á sinni dauðastundu, um útgöngu Israels barna af Egyptalandi. Vegna trúar földu foreldrar Móses hann þrjá mánuði, eptir hans fæðingu. Vegna trúar yfirgaf Móses Egyptaland. Vegna trúar hèlt hann páska, og rjóðaði blóði páskalambsins á dyragættir sínar. Vegna trúar gengu

Israelítarnir yfir hið rauða haf. Vegna trúar hrundu Jerikós múrar, þá búið var að ganga í kringum þá í 7 daga. Vegna trúar fyrirfórst ekki skækjan Rahab ásamt hinum vantrúuðu. Hvað þarf eg að orðlengja framar um þetta? Mig mundi skorta tíma, ef eg færi að segja frá Gideon, Barak Samssyni og Jafet, Davið, Samúeli og spámönnunum, er vegna trúar sinnar yfirunna konúngaríkin, frömdu rèttvísina, öðluðust fyrirheitin, byrgðu kjapt ljónanna, slökktu eldsins afl, umflúðu sverðseggjar, urðu styrkir eptir veikindi, öflugir i stríði, og komu her óvinanna á flótta. Það er augljóst að skilja, að trúin kemur í hjartað við vitna vitnisburð, sem Guð uppreisir og sendir út, til að prèdika hans orð og vitna um sannleikann. Öll trú grundvallast á sannfæringu, annaðhvort rèttri eða rangri, hvort sem það viðvíkur jarðneskum eða himneskum hlutum. Jesús líkir ríkisins fagnaðarboðskap við gott sæði, sem maður einn sàði í akur sinn. Látum oss þar fyrir taka dæmi af einu sæðiskorni, til að útþýða höfuðatriði trúarinnar. Þegar Indíanarnir i Ameríku sáu púðursins miklu verkun meðal Evrópumanna, sem búsettu sig á milli þeirra, sóttust þeir mikið eptir að fà nokkuð þar af handa sjálfum sèr. Nokkrir illgjarnir Evrópumenn sögðu þeim, að þetta væri sæði, sem sáð væri i jörðina, og gæfi ríkulega uppskeru. Sumir af þessum fávísu mönnum trúðu þessu, og keyptu mikið þar af, og sáðu með mestu umhyggju, en ávöxturinn var — sem af allri falskri trú — að það varð til ónýtis. Trúin er að miklu

leiti — sem áður er sagt — byggð á sönnunum og vitnisburði, sem koma af sjón, heyrn og eigin reynslu, venju og siðvana, hjátrú og fleiru. Til dæmis: Allir innbúar jarðarinnar voru mörg hundruð ár tældir til að trúa, að sólin, tunglið, plánetur og stjörnur, gengju um kring jörðina, þangað til Kópernikus sagði, að það væri jörðin, sem snerist. Þetta var ekki villutrú, sem hindraði mannanna sáluhjálp. Allir innbúar jarðarinnar eyðilögðust fyrir falstrú og vantrú á dögum Nóa, þegar átta sálir höfðu þá rèttu og frelsandi trú. Sömuleiðis eyðilögðust Sódóma og Gómorra fyrir falstrú og vantrú, en Lot og tvær dætur hans frelsuðust fyrir þá rèttu trú. Nínive frelsaðist ogsvo fyrir þá rèttu trú. Ein fölsk trú, í tilliti til margra tímanlegra hluta, er ekki svo skaðleg og fordæmandi, sem það er, að trúa ekki þeim boðskap, sem Guð hefur sent til mannanna frelsunar og sáluhjálpar. Það hefur ætíð haft dauða og eyðilegging í för með sèr; það ofanskrifaða staðfestir það. Þegar fölsk eða sönn trú er nógu kröptug, þá leiðir hún til gjörninga. Páls trú, að Jesús af Nazaret væri svikari, leiddi hann til að ofsækja hans eptirfylgjendur; þar eptir leiddi hans trú hann til að líða fjötur, fangelsi og dauða fyrir hans nafn. Margra trú leiddi þá til að lífláta postulana, og meintu sig þar með að gjöra Guði þægt verk. Annara trú leiddi þá til að gefa upp allan sinn eigindóm, og líða fangelsi og dauða. Þessir hvorutveggju höfðu trú og gjörninga, þeir fyrnefndu ranga trú og vonda gjörninga, þeir

síðarnefndu rètta trú og góða gjörninga. Sá vitnisburður, sem Guð gefur til að staðfesta guðómlegleika hans opinberana, er nógu kröptugur, til að uppvekja trúna í allra þeirra hjörtum, sem leita þess uppà þann rètta máta, eins og Guð hefur boðið. Þar fyrir, allir þeir, sem eru komnir til vits og ára, en gjöra það þó ekki, verða straffaðir. Sumir vilja segja: Ef vitnisburðurinn væri nógu kröptugur, þá værum vèr neyddir til að trúa, en þetta er ekki sannleikur; flestir meðkenna, að sá vitnisburður og þær sannanir sem Jesus gaf, hafi verið nógu kröptugt, til að sannfæra alla um, að hann væri sendur af Guði; þó trúðu þeir honum ekki, jafnvel þó hann gjörði teikn og kraptaverk. Vitnisburðurinn getur verið nógu sterkur, eða kröptugur, en ef menn skirrast við að rannsaka Guðs orð, og eru hræddir um, að það sè ekki sannleikur, vegna þess að það stríði á móti þessa tíma venju og siðvana, eða þeir hræðast, að þeir missi sitt mannorð, og vinskap veraldarinnar, og verði fyrirlitnir og spottaðir, og útskúfaðir úr mannlegu fèlagi, þà eru þetta þær hindranir, sem aptra þeim frá, að rannsaka Guðs orð og sannleikann, með mörgu fleiru. Sumir hafa rannsakað það, í því augnamiði, að fordæma það, þó þeir sæju að það væri sannleikur. Aðrir hafa rannsakað það, og fundið, að það var sannleikur, og þò samvizkan hafi fordæmt þà, ef þeir ekki meðtækju það, hefur òtti fyrir að vera haldinn afhrak og hreinsun veraldar, þvingað þà til að forkasta því. Sú fyrsta verkun af sannri trú er umvendun

frà öllum syndum. Þar næst niðurdýfingar-skírn til syndanna fyrirgefningar, og handayfirlegging til móttöku heilágs anda gáfu. Einginn hefur þà frelsandi trù, eða getur innkomið í Guðsríki, utan að hlýða þessu. Það er til ónýtis, að biðja Guð um fyrirgefning syndanna uppà annan máta. Ef maðurinn ekki trúir þessu, er hann grátlega svikinn og mun missa sína sáluhjálp, eptir að hafa haft tækifæri til að þekkja sannleikann og hlýða honum. Hvað stoðar það, bræður mínir, þótt einhver segist hafa trú, en hefur ekki verkin? Mun trúin geta frelsað hann? Ef trúin hefur ekki verkin, er hún dauð útaf fyrir sig. En nú segir einhver: Þú hefur trú en eg hef verk, sýn mèr þà trú þína án verka þinna; eg skal sýna þèr mína af mínum verkum. Þú trúir, að Guð sé einn; þú gjörir vel; en djöflarnir trúa því líka, og skelfast. En, fàvísi maður, þù skalt vita, að trúin er dauð án verkanna. Rèttlættist ekki Abraham, faðir vor, vegna verkanna, eptir það hann hafði lagt son sinn Isaak uppà altarið? Sèr þú ekki, að trúin var samtaka verkum hans, og að trúin fullkomnaðist með verkum hans? Og rættist ekki ritningin, sem segir: "Abraham trúði Guði, og það reiknaðist honum til rèttlætis," og hann var kallaður Guðs vinur. Þèr sjáið þá, að maðurinn rèttlætist af verkunum, og ekki trúnni einungis. Því eins og líkaminn er dauður án andans, eins er og trúin dauð án verkanna. Þegar manneskjan trúir Guðs opinberaða orði, — eða nýja testamentisins lögmàli —, sem postulinn

Jakob kallar fullkomið frelsislögmál, þá er umvendun frá öllu illu, í orði og verki, það næsta höfuðatriði náðarboðskaparins, sem manneskjunni byrjar að hlýða. Þá, og ekki fyrr, hefur manneskjan rèttilega yðrazt synda sinna, og hefur auðmjúkt og sundurknosað hjarta fyrir Guði. Þó er umvendun ekki einhlít, til að Guð fyrirgefi drýgðar syndir, ekki heldur trú alleina. En þetta er að gjöra manneskjuna hæfilega til að hlýða því þriðja höfuðatriði, sem er skírnin til syndanna fyrirgefningar, af þeim, sem hefur myndugleika frá Guði, til að framkvæma þessa dýrðlegu athöfn.

Það var ekki frelsarans meining, þegar hann friðþægði fyrir syndir veraldarinnar, að fyrirgefa manneskjunum illverk og glæpi, án trúar og umvendunar. Það er uppá þennan máta, að syndirnar eru fyrirgefnar í skírninni. Þegar postulinn Pètur, á hvítasunnudaginn, prèdikaði um þann upprisna Jesúm, og útlagði fyrir þeim spádómana, sem bókstaflega voru uppfylltir, viðvíkjandi frelsaranum, trúðu margir að hann hefði verið sá sanni Messias, sem um var talað í ritningunni. Þá sagði Pètur við þá: Takið sinnaskipti, og hver yðar láti skíra sig til nafns Jesú Krists, og þá skuluð þèr öðlast gjöf heilags anda. Postulanna gjörn. 2, 38. Einginn gat orðið meðlimur Jesú Kristi kirkju í þá daga, utan að hlýða þessu nýja testamentisins frelsandi lögmáli. Saklaus vera, — eða ómálga barn —, sem ekki hefur gjört nokkra synd, getur ekki umvent sèr; það getur einginn, sem ekki þekkir synd

sína. Synd á móti Guði, er að brjóta hans boð, sem óvitar ekki geta gjört; en synd tilreiknast ekki, nema lögmál sè til, segir Páll postuli, Róm. 5, 13. En þeim verða eingin lög gefin, sem ekki eru komnir til vits og ára. Þetta eru náðarboðskaparins tvö fyrstu höfuðatriði og lagaboð, (nefuilega:) trú á Guð og hans orð, umvendun frá öllu illu, og þetta munu allir kristnir meðkenna, að er gott og heilagt i sjálfu sèr, og eingir geta hlýðnast því, nema þeir sèu komnir til vits og ára.

---

## ANNAR KAPITULI.

### Um kristnina, skírn, handayfirlegging og fleira.

---

Katólski trùarbragðaflokkurinn er stærstur allra í heimi. Eru hinir katólsu hèr um bil 200 milljónir að tölu, eða nálægt þriðjungur af öllum innbúum jarðarinnar, en kristnir menn à jörðunni teljast að vera hèr um bil 400 milljónir. Eptirfylgjandi lönd og ríki eru katólskrar trúar, rómverskkatólskrar eda grísk-katólskrar: Rússland, Frakkland, Spánn, Belgía, Ítalía, Portúgal, Austurríki. það rómverska ríki var það fjórða, sem skyldi drottna yfir jörðunni, eða fæturnir á Nebúkaðnesars líkneskju. Augustus var rómverskur keisari, og frá honum útgekk það boð, að allur heimur skyldi láta sig skattskrifa. Hershöfðinginn þorði ekki að húðstrýkja Pál postula, því hann var rómverskur fæddur, en hann sjálfur hafði keypt þann borgaralega rètt fyrir mikið fé. Postulanna gjörn. 22, 25—29. Gyðingar hræddust Rómverja. Ef vèr sleppum honum, þá koma Rómverjar, og taka land vort og þjóð (Joh. 11, 48.), sem þeir og svo gjörðu 40 árum siðar, yfir unnu Guðs fólk; Postularnir

voru hálshöggnir, krossfestir, grýttir, brenndir og aflífaðir á alla vegu, og margir urðu að gefa upp trú sína, til að halda lífinu. Prestdómurinn og fullmaktin til að leysa og binda, sem Jesús gaf sínum postulum, var burttekið. Jesú Kristí kirkja var konan, sem hafði um sig sólar baug, sannleikans ljós Guðs heilögu orða. Kórónan á höfði hennar með 12 stjörnum, voru þeir 12 postular, öldungar og höfuðprýði kristninnar. Hún hljóðaði af jóðsótt, það er, hún leið ofsóknir, og var í dauða stríði; hún fæddi sveinbarn, sem ríkja skyldi yfir öllum þjóðum með járnsprota; sveinninn er prestdómurinn og fullmaktin. Sprotinn er sannleikurinn, lærdómurinn og höfuðatriði trúarinnar, sem allar þjóðir áttu að stjórnast með, af sveininum eða prestunum. Barnið var skyndilega flutt burt fram fyrir Guð og hans hásæti, kirkjan var eyðilögð, fullmaktin og prestdómurinn með sálum þeirra heilögu, var tekið til Guðs og hans hásætis. Konan flúði à eyðimörk, drekinn, eða djöfullinn, sem þýðir þà rómversku makt, og páfinn, það er dýrið. Því var lofað að herja à heilaga og sigra þá; því var gefið vald yfir alls kyns kynkvísl, fólki, tungumáli og þjóð. Opinb. 12 kap. 13, 7. Postularnir tala um fráfallið, sömuleiðis spámennirnir; postulinn talar um glötunarinnar son, er setur sig mót og rís gegn öllu því, sem Guð og heilagt kallast, svo að hann sezt í Guðs musteri, og lætur eins og hann væri Guð. 2 Thessalon. 2, 3—4. Á öðrum stað: En andinn

segir fortakslaust, að á síðustu dögum muni margir ganga af trúnni, festa trú við villuanda og djöflalærdóma, sem af fláræði kenna lygar, og eru brennimerktir á samvizkum sínum, banna að giptast og neyta þeirrar fæðu, sem Guð hefur boðið. 1. Timót. 4, 1—4. Páfinn lét selja fyrirgefning syndanna, bannaði prestum að gipta sig, og eta kjöt um föstuna, og held eg þetta sé hans klára mark. Þó þykist hann vera fulltrúi Guðs, og höfðingi kristninnar, í postulans Péturs stað hèr á jörðinni. Ef hann væri það, þá mundi hann kenna þá sömu lærdóma sem Jesús og hans postular, en hann er sú stóra hóra, sem situr à þeim mörgu vötnum, sem þýðir þjóðir, tungumál og fólk, eða þau lönd og ríki sem áður voru upptalin. Sú katólska kirkja hefur um langan tíma ífært sig fölskum messuklæðum, rauðum af saklausra blóði, af þúsundum sem hún hefur drepið, haldandi í sínum höndum valdi og virðingu mannlegs heiðurs, meinandi sig að hafa lykla himnaríkis og helvítis. Hún hefur troðið undir fætur sèr margan rètt mannlegra fríheita, bæði andlegra og líkamlegra, og sem mun finna í sínu hjartalausa brjósti, að hún hefur þann dauðlega slátrunarkníf, sem allir prótestantar eða mótmælendur bergmála út um allan heim. Þó eru þeir afkomendur af þeirri miklu hóru, sem situr á þeim mörgu vötnum, og sem konungar jarðarinnar hafa drýgt saurlifnað með, og innbúar jarðarinnar eru drukknir af víni hennar hórunar. Opinb. 17, 2. Eg sá, að konan

var drukkin af blóði heilagra og blóði Jesú votta, sjá 6. vers. Hann sagði við mig: Vötnin, sem þú sást, hvar skækjan situr, eru fólk og lýðir, þjóðir og tungur. 15. vers. Þ. e. allir falskir trúarflokkar sem ekki hafa Jesú lærdóma. Kom hingað upp, og mun eg sýna þér það, sem hér eptir á að koma fram. 4, 1. Jóhannes var í fangelsi á eyjunni Paþmos; sumir segja, að hann hafi dáið þar. En vèr trúum eins og lærisveinarnir; Jesús sagði: Ef eg vil, að hann bíði, þangað til eg kem, hvað kemur það við þig? Jóh. 21, 22. Og þetta tal kom út meðal lærisveinanna, að þessi lærisveinn mundi ekki deyja. Þeir hafa skilið hvað Jesús meinti. Engillinn sagði við Jóhannes: þér ber aptur að spá í gegn þjóðum, lýðum, tungumálum og mörgum konungum. Opinb. 10, 11.

En látum oss skoða kristnina lítið meira, það eru 5 milljónir af svoköllluðum kristnum hermönnum, sem árlega er kennd stríðs aðferð, til að drepa sína meðkristnu bræður. Þjóðirnar andvarpa og stynja undir þessu ánauðar oki, að borga skatt, til að uppihalda þessum óþarfa. Veröldin er full af víggirtum borgum, skönsum, og köstulum; hafnir eru fullar af stríðsskipum og kanónubátum, til að eyðileggja sem fljótast þá þarflegustu og beztu menn, sem þjóðirnar hafa. Margar miljónir eru árlega brúkaðar þar til; betlarinn má borga skatt, til að forsorga kristninnar stríðsútbúnað. Er þetta Jesú Kristi kirkja? Eg segi nei. Er þá enginn vegur til að reformera kristnina? Er þetta að

elska Guð af öllu hjarta, og náunganu sem sjálfan sig? Það stendur skrifað: Þú skalt ekki mann vega. Þar af skulu allir þekkja, að þèr eruð mínir lærisveinar, að þèr elskið hver annan; utan þèr sèuð eitt, eruð þèr ekki mínir. Hver sem segist elska Guð, en hatar bróður sinn, hann er lygari. Skrautleg þorp og prýðilegar borgir, — sem hefur tekið mannsaldra og margar aldir að uppbyggja, og sem hefur kostað miljónir og hundruð af miljónum, — eru á fáum dögum lagðar í ösku. Óttalegur grúi af handa- og fótalausum og allavega særðum mönnum liggur á sjúkra-húsunum, og fjöldi lifir við örkumsl og þjáningar alla sína æfi; og margir eiga konur og börn. Dauði, grátur, harmahljóð, heyrzt hefur frá hverri þjóð, ekkjur kveina, ekkert lið, alteins veina börn um frið; hjálp og blessan hvergi fæst, helvíti það sýnist næst. Eru þetta kristninnar fögru blóm og prýðilegu ávextir? Jesús segir: Gott trè getur ekki borið vondan ávöxt. En þessir eru vondir. Af þeirra ávöxtum skuluð þèr þekkja þá. Þannig er því varið með kristni þessa tíma, ef hún væri góð, þá væru hennar ávextir góðir. Eg segi ekki, að sú katólska eða þær prótestantisku kirkjur hafi ekki gjört neitt gott; þær hafa stundum fætt líkamann, en sálina aldrei. Þær hafa marga píslarvotta, en að hinu leitinu manndrápara; þær eru kærleiksfullur ræningi, góðgjörðasamur betlari, gjöfum lofandi herkonungur, hafandi marga falska kennendur; þær hafa byggt mörg tukthús, en fá

ölmusu-hús. Þær hafa gjört þúsundir að ekkjum, og miljónir að föðurlausum, þar sem þær hafa forsorgað einn. Þær hafa ölmususkálina í annari hendi, en sverðið í hinni. Flest kirkjulög eru innsett af valdstjórninni, og seld eins og önnur vara, en ef ekki er borgað, þá eru sektir og fjárnám.

Vel hefur postulinn Pètur sagt, þar sem hann segir: Af ágirnd munu þeir með tælandi kenningum hafa yður fyrir fè. 2. Pèt. 2, 3, talandi um fals-kennendur, sem skyldu koma. Kristnin sendir presta og trúarboðendur til Kína, og annara heiðinna þjóða, hún sendir biblíur og testamenti í austur og vestur, en sverð og kanónur í allar áttir. Lesið trúarbragða-stríðin og veraldar söguna, og mun þá kristnin verða hræðileg í yðar augum. Því meir sem vèr skoðum þetta óttalega skrýmsli, því meira hryllir oss við henni.

Látum oss nú skoða þá lútersku trú og kirkju lítillega, því vorir forfeður hafa lifað og dáið í henni; svo hafa allir heiðingjar og afguða-dýrkendur gjört, að lifa uppá trú sína; svo það er eingin sönnun fyrir, að trúin sè rètt. Lúter byrjar 1500 árum eptir Kristi fæðing að stríða á móti pàfanum, og sýna þá stóru villu, sem hann hafði innsett; hann fær tilheyrendur, og stofnar trúar-flokk, sem síðan hefur viðhaldizt, og er það víst að hann gjörði mikið gott, og það bezta sem hann þekkti. Barna-skírn var fyrst innleidd á þriðju öld af fáum. Sjá Thómas Vestlek, blaðsíðu 52.

Sömuleiðis Salmasius, sem vitnar til merkilegustu sagnameistara og historíuskrifara. Vér og þér trúum biblíunni, og hún er grundvöllur, regla, og mælisnúra, sem öll kristnin þykist byggja á og fara eptir.

Guð þekkist ljósast af sínu orði, sem lesa má í þeirri heilögu ritningu. Og á öðrum stað: Það er víst, að allan þann Guðs vilja, sem mennina áhrærir, er að finna í biblíunni. Þetta er ungdóminum kennt, sem er gott. Að Jesús hafi innsett lög og reglur, — eða höfuðatriði trúarinnar — trúum bæði vèr og þèr. En hafið þèr ekkert í þeirri lútersku kirkju, sem Jesús ekki kenndi? Það var siður í gamla testamentinu, að blessa börn; gamli Símon tók Jesúm uppá sína arma og blessaði hann. Jesús tók smábörn sèr í fang, og blessaði þau. Þetta var ekki að skíra þau. Barbelius segir, að barnaskírn var ekki þekkt, fyr en á þriðju öld, og var innleidd án Jesú Kristi skipunar. Barnaskírn, með niðurdýfingu, var fyrst innleidd í Afríku af illa upplýstu og óguðlegu fólki, sem blótaði á laun Satúrnus, og var svertingja börnum offrað fyrir það mesta. Einu sinni, þegar útleit fyrir stríð, sögðu þeir, að guðinn væri reiður, því offrið væri ekki gott — eða svertingja börnin; — þá drápu þeir 200 af hvítum börnum hinna beztu manna, sem þeir höfðu. Goðið var úr járni — eða kopar — og stórt bál fyrir framan; presturinn var klæddur í rauð, en börnin í blá klæði. Börnin voru lögð á goðsins hendur, sem

voru látnar vera útréttar til að móttaka offrin; og þar eptir var þeim hrundið niður í eldinn. Miklum hljóðfæraslætti var uppi haldið, til að deyfa hróp og kvein þeirra, sem brenndir voru. Og þá byrjuðu sumir að láta skíra börn sín með niðurdýfingar skírn, áður en þeim var offrað, því engin önnur skírn var þekkt, og þessir kölluðu sig kristna. Þèr viljið máskè segja, að þessir hafi verið heiðingjar. En vèr mættum eins vel segja, að Israel hafi verið heiðinn, því Aron steypti gullkálfinn med samþykki Israels, meðan Móses var uppá fjallinu. 2 Mos. b. 32 kap. Árið 251 er það fyrsta, sem finnst skrifað um að yfir ausa með vatni. Novatian fèkk hættulegan sjúkdóm, og var yfir ausinn í rúmi sínu, og það kölluð skírn. Tómas Vestlek, blaðsíðu 43. Uppá þennan máta byrjuðu þessar mannasetningar; á fjórðu og fimmtu öld tóku fleiri upp þennan hègóma, nefnilega katólskir menn í Afríku. Sú rómversk-katólska kirkja, páfinn og ýmsir konungar útgáfu lög, að hlýða þessum villu-lærdómi; en ef ekki var hlýtt, var þeim kvalafullur dauði búinn, sem er hræðilegt um að lesa. Sjá Thómás Vestlek, blaðsiðu 87. Uppá þennan máta var alþýðunni þrengt til, með sverði og dauða, að meðtaka þennan hègóma.

Orðið skírn er griskt orð, og er það víst, að það þýðir niðurdýfingu ef Grikkur skilja sitt eigið tungumál; og frá því fyrsta, sem þeir tóku kristni og til þessa dags, hafa þeir skírzt með niðurdýfingarskírn. Það þýzka nýja testamenti segir í Matt. 3, 1:

Í þessa daga kom Jóhannes Taufer (það er niðurdýfari); á ensku stendur: John the dipper, eða með öðrum orðum, John the baptizt, og sá baptizki trúarflokkur hefur niðurdýfingar-skírn, — eða þann rètta máta.

Jósephus sagnameistari talar í öðrum árgangi, blaðsíðu 905 um ferð sína til Róms, og skipbrot sitt, og hvernig hann komst af með 80 öðrum. Vort skip segir hann var skírt, látið undir, eða sökkt niður í vatnið. Hómer, það griska skáld segir: Þegar smiðurinn herðir járnið, þá skírir hann það, dýfir því niður í vatnið. Þegar Jósephus talar um Jónas spámann, þegar hann flúði frá augsýn drottins, þá segir hann: Skipið var skírt, baptizt, difið niður í vatnið, þangað til þeir köstuðu honum út. Doktor Kompell segir: Orðið skírn, þýðir niðurdýfingu. Tertúllian, sá elzti af þeim latínsku feðrum, segir, að orðið „tingere“ var brúkað til að tala um lit, eða litað klæði, sem varð við að dýfa því niður í löginn. Thómas Vestlek (blaðsíðu 17): Þessi svo kallaða ungbarnaskírn verður ekki staðfest af Guðs orði, eða ritningunni. Lúterskir hafa í langa tíð haft votta, þegar þeir skíra börn sín; prestar skíra eða dýfa hönd sinni í vatnið, í staðinn fyrir barnið; og svoleiðis er þeirra hönd skírð, en ekki barnið. Þeir spyrja barnið: Trúir þú á Guð föður, son og heilagan anda; afneitar þú djöflinum, öllum hans verkum og athæfi? Barnið þegir, utan það skyldi gráta; það hefur ekki hæfilegleika til að trúa, það þekkir ekki sitt móðurmál, því er ekkert lögmál

sett; það er hjálparlaust, og getur ekki gjört illt eða gott. Vottarnir — eða ljósmóðirin — segja já! þó ljúgandi. þèr haldið, að barnið komist ekki í Guðsríki, utan svo margir segi ósannindi; Guð veit, að barnið getur ekki trúað, fyr en það kemur til vits og ára, og heimtar þar fyrir ekki trú eða hlýðni við sín boðorð af óvitum. Hver, sem trúir og verður skírður, skal hólpinn verða, en sá sem ekki trúir, mun fordæmast. það er fyrst að trúa, ef þú trúir af öllu hjarta, þá hæfir það, sagði Filippus við geldinginn, en hann svaraði: Eg trúi, að Jesús sè sonur Guðs. Postula gjörn. 8. 37. En, kæri lesari, þeir hafa tekið þetta vers í burtu, í þeim seinustu útgáfum bibliunnar, en það finnst í öllum gömlum testamentum, bæði íslenzkum, þýzkum, dönskum og enskum. þeim hefur þótt það heldur mikil sönnun á móti barnaskírninni, og hafa því skipt næsta versi í tvö, til að hafa 40 í kapitulanum. Af þessu er auðséð, að allir urðu að trúa fyrst. Og hann bauð að stöðva vagninn, og þeir stigu báðir niður í vatnið, og Filippus skírði hann, 38. vers. þetta var ekki að gefa nafn, eða þvo hans höfuð, heldur niðurdýfingarskírn til syndanna fyrirgefningar, eins og Jesús innsetti í sína kirkju. Hann sjálfur lèt sig skíra í ánni Jórdan, og sagði að sèr byrjaði þannig að fullkomna allt rèttlæti; hann gaf oss eptirdæmi, að vèr skyldum feta í hans fótspor, eða með öðrum orðum, hlýða þeim lærdómum, lögum og reglum, sem hann innsetti í sína kirkju. þessi niðurdýfingar skírn, er það sem

Jesús kallar endurfæðingu. Þetta var það, sem Nikódemus ekki skyldi, þegar hann kom til Jesú um nótt, og sagði við hann: Hvernig getur maðurinn fæðzt, þá hann er gamall? Hann var þó lærður maður og lærimeistari Gyðinga, og vissi ekki þetta. Jesús svaraði: Utan þèr verðið fæddir af vatni og anda, kunnið þèr ekki að innganga í Guðs ríki. Jóh. 3, 5. Að fæðast af vatni, var að dýfast niður í það, að fæðast af andanum, var handa-yfirlegging, til móttöku Guðs anda, sem allir fengu eptir að hafa látið sig skíra. Þegar postulinn Pétur á hvítasunnudaginn, fullur af heilögum anda, prèdikaði þann upprisna Jesúm, og lýðurinn trúði, sögðu þeir við Pètur og hina postulana: Góðir menn og bræður, hvað eigum vèr að gjöra? Pètur sagði við þá: Takið sinnaskipti, og hver yðar láti skíra sig til nafns Jesú Krists, til syndanna fyrirgefningar; þá skuluð þèr öðlast gjöf heilags anda; því yður tilheyrir fyrirheitið, og börnum yðar, og öllum sem í fjærlægð eru, hverja helzt Guð vor drottinn vill kalla hèr til. Postula gjörn. 2, 37—40. Þetta voru þau fyrstu höfuðatriði náðarboðskaparins, sem var fyrst trú og umvendun, niðurdýfíngarskírn til syndanna fyrirgefningar og handa-yfirlegging til móttöku heilags anda.

Þegar postularnir í Jerúsalem heyrðu, að Samaría hafði meðtekið Guðs orð, sendu þeir Pètur og Jóhannes þangað. Þessir komu og báðu fyrir Samverjum, að þeir mættu öðlast heilagan anda; því hann var ekki kominn yfir neinn þeirra; einungis

voru þeir skírðir til nafns drottins Jesú. Þeir lögðu þá hendur yfir þá, og meðtóku þeir heilagan anda. En er Símon sá, að heilagur andi veittist fyrir handa-yfirleggingu postulanna, færði hann þeim fè og sagði: Gefið mèr einnig þetta vald, að yfir hvern eg legg hendur, hann öðlist heilagan anda. Postulanna gjörn. 8, 14—20. Af þessu er ljóst að skilja, að heilagur andi var gefinn við handa-yfirleggingu, og postulinn segir: Yður tilheyrir fyrirheitið, og börnum yðar. Hvaða fyrir-heit? Fyrirgefning syndanna við þá rèttu skírn, og heilagur andi við handa-yfirleggingu. Við að hlýða þessum lögum, sem Jesús innsetti í sína kirkju, fengust þessar gáfur og blessanir; og þær heyra öllum til, sem í fjarlægð eru. Það er að segja: til veraldar enda, öllum sem hlýða Jesú lærdómi. En það getur enginn trúað, fyr en hann heyrir. Þar fyrir eru allir afsakaðir, þangað til þeir heyra þann sanna fagnaðarboðskap.

Þegar postulinn Páll ferðaðist um upplönd Asíu, kom hann til Efesus, og hitti nokkra lærisveina, sem hann sagði við: Hafið þèr meðtekið heilagan anda, þegar þèr tókuð trú? Þeir svöruðu: Nei, vèr höfum ekki svo mikið sem heyrt, að heilagur andi sè til. Hann spurði þá: Uppá hvað eruð þèr þá skírðir? Þeir svöruðu: Uppá Jóhannesar skírn. Páll svaraði: Að vísu skírði Jóhannes með iðrunar skírn, því hann sagði fólkinu að trúa á þann, sem eptir sig kæmi, það er á Jesúm Krist.

þegar þeir heyrðu það, lètu þeir sig skíra í nafni drottins Jesú. Og sem Páll hafði lagt hendur yfir þá, kom yfir þá heilagur andi, svo þeir töluðu tungum og spáðu. Alls hèr um bil tólf karlmenn að tölu. Postulanna gjörn. 19, 1—8. Þetta sýnir, að skírnin var ófullkomin, nema heilagur andi væri gefinn við handa-yfirleggingu, og þar fyrir voru þeir skírðir að nýju, uppá þann rètta máta. Jóhannes skírði til umvendunar med iðrunar skírn; ungbörn geta ekki iðrast, óvitar geta ekki umvent sèr. Hann sagði fólkinu að trúa á þann sem eptir sig kæmi; hvaða fólki? Þeim sem hann skírði. Ungbörn gátu það ekki. Jóhannes skírði í ánni Jórdan þá sem játuðu sínar syndir; ungbörn gátu það heldur ekki. Matt. 3, 6. Eg skíri yður til lífernis-betrunar, 11. vers; að skíra í vatni, þýðir að niðurdýfa, að skíra með vatni, að yfirausa. Svo erum vèr greptraðir með honum fyrir skírnina til dauðans, svo að eins og Kristur uppreis frá dauðum fyrir dýrð föðursins, svo eigum vèr einnig að ganga í endurnýjungu lífsins. Róm. 6, 4. Að greptrast í skírninni til dauðans; hvaða dauða? Syndanna dauða, því þær voru deyddar, fyrirgefnar og afmáðar, við að greptrast í vatninu með niðurdýfingarskírn; og eptir að hafa fengið handa-yfirleggingu til móttöku Guðs anda, voru þeir í standi til að ganga í endurnýjungu lífsins; en ungbörn geta það ekki fremur þó þau sèu skírð, eða höfuð þeirra sè vætt og þeim gefið nafn. Og nú gjörir skírnin, sem ekki er burttekt líkamans saurugleika, heldur

sáttmáli góðrar samvizku við Guð, eins og eptirmynd (ennar fyrri frelsunar) oss hólpna vegna upprisu Jesú Krists. 1. Pèt. 3, 21. Það er að segja, þó að líkamanum sè dyfið niður í vatnið í skírninni, þá er það ekki til að afþvo hans saurindi, heldur er það sáttmáli góðrar samvizku við Guð, sem óvita börn ekki geta gjört. Hvað er sáttmáli góðrar samvizku? Það er friðarsamningur við Guð, fyrirgefning syndanna, og von eilífs lífs, með því að trúa og hlýða þeim höfuðatriðum trúarinnar, eða þeim nýja og eilífa sáttmála, sem Jesús innsetti í sína kirkju. Jesús segir: Ef maðurinn fæðist ekki af vatni og anda, getur hann ekki fengið inngöngu í Guðs ríki. Jóh. 3, 5. Postulinn Páll kallar það endurgetningarlaug. Það er ekkert boð, eða eptirdæmi í þeirri heilögu ritningu, að skíra ungbörn, svo þessar mannasetningar verða ekki staðfestar af Guðs orði og ritningunni.

---

## ÞRIÐJI KAPITULI.

### Um friðþægingunna og Guðs veru, Guðs kirkju embættismenn, þær andlegu gáfur og fleira.

---

Látum oss nú segja fá orð um endurlausnarverkið, sem Jesús útvegaði öllum með sínum dauða, og tala fyrst um friðþægjinguna fyrir] þá upprunalegu synd.

Vèr trúum á Guð, hinn eilífa föður og hans son, Jesúm Krist, og þann heilaga anda, sem ber vitnisburð um föðurinn og soninn, frá eilífð til eilífðar. Það er víst, að dauðinn kom yfir allar manneskjur, vegna uppruna-syndarinnar, en ekki fyrir vorar eigin syndir, og svoleiðis voru allir menn útskúfaðir frá Guðs augliti, andlega og líkamlega; líkaminn til eilífs svefns í gröfinni, til þess aldrei meir að upprísa, en sálin til eilífs fangelsis undir Satans makt. Og í þessum óttalegu kringumstæðum voru allir tapaðir, og gátu ekki sjálfir frelsað sig þar frá. Það er og víst, að við Jesú dauða og friðþægingu, eru allar manneskjur — undantekningarlaust — fullkomlega og að öllu leiti, endurleystar frá Adams falli, bæði sál og líkami, svo uppruna-

syndarinnar óttalegu afleiðingar, skyldu ekki eilíflega aðskilja Guð og hans börn. Og þetta er öllum veitt og gefið, án sáttmála og skilyrðis. Það er að segja, hvort vèr trúum eða ekki, hvort vèr erum kristnir eða heiðnir, vondir eða góðir, það gjörir eingan mismun, í tilliti til uppruna-syndarinnar, því hennar bölvan og straff kom jafnt yfir alla, þann bezta Guðs mann, sem þann vesta illræðis mann, án þeirra vilja og samþykkis þar til. Og þeir verða jafnt endurleystir frá hennar bölvan, eða dauðanum, hvort þeir vita eða trúa að Guð sè til, hvort þeir gjöra hans vilja eða ekki. Því eins og allir dóu í Adam, eins munu og allir lífgast í Kristi. 1. Kor. 15, 22. Og þetta skeður í upprisunni, þá sumir upprísa til ævarandi lífs, en sumir til ævarandi skammar og smánar. Daniel 12, 2. Eins og því vegna eins falls, (dómur er fallinn) á alla menn til fordæmingar, eins er og vegna eins réttlætis náðargjöfin veitt öllum mönnum til réttlætingar lífsins. Róm. 5, 18. Þetta merkir uppruna-syndina, og upprisu alls holds, þetta er orsökin til, að allra manna sálir verða samtengdar líkömunum í upprisunni, og eru frelsaðar frá þeim líkamlega dauða. Þetta er orsökin, að Jesús sagði: Þegar eg verð hafinn frá jörðu, mun eg draga alla til mín. Jóh. 12, 32. Þannig hefur Jesús borgað fyrir alla Adams afkomendur, eða uppruna-syndina. Hann hefur að eingu gjört dauðans makt, og unnið sigur yfir gröfinni, og frelsað alla fangana sem dauðinn hafði hertekið, og fært þá fram fyrir Guðs

auglit, til að lifa með honum eilíflega, ef þeir hafa eingar syndir gjört. það verður einginn krafinn til reikningskapar fyrir Adams synd, því einginn gat gjört við henni. þú vilt máske segja, lesari góður: Vèr megum þó líða mikið fyrir Adams synd, sem er sorg, erfiði og dauðinn, og er það sannleikur. En manneskjurnar hefðu eilíflega verið dauðar, og sál og líkami aðskilin, hefði ekki Jesús borgað þá skuld. þar fyrir sagði Jesús: Látið börnin koma til mín, því slíkum heyrir guðsríki til. Mark. 10, 14. þau höfðu sjálf einga synd gjört, þar fyrir var guðsríki þeirra, því Jesús hafði borgað upprunasyndina. Allar manneskjur, sem eru komnar til vits og ára, og hafa þekkt Jesú Kristi fagnaðarboðskap og Guðs boð, eru andsvarlegar fyrir sín orð og verk; og ef þeirra athafnir þá eru vondar, verða þær útskúfaðar frá Guðs augliti í annað sinn, og deyja þeim öðrum dauða. því sá þjónn, sem veit vilja síns herra, og breytir ekki eptir honum, hann mun straffast hart. Farið frá mér allir illgjörðamenn. Matt. 7, 23. Guð getur ekki frelsað sitt fólk í þess syndum. þá munu þessir fara til ævarandi kvala, en hinir rèttlátu til eilífrar sælu. Matt. 25, 46. En þessum vonda þjóni skuluð þèr varpa í hin yztu myrkur, þar sem vera mun grátur og gnístran tanna. Matt. 25, 30. Farið frá mèr bölvaðir i þann eilífa eld. Matt. 25, 41. Vegurinn til lífsins er þröngur, og þeir fáir sem finna hann. Margir eru kallaðir, en fáir útvaldir. þetta sýnir að margir verða tapaðir. Hvað eigum vèr þá að

gjöra, lesari góður, til að öðlast eilíft líf, þar eð vèr höfum allir brotið Guðs boð, meira eða minna, og misbrúkað vorn frjálsa vilja í orði og verki, og samvizkan áklagar oss, að vèr höfum illa brúkað það ljós og þekkingu, sem vèr höfum öðlazt? Er það nóg að kalla herra, herra, og lesa „Faðir vor“, langa húslestra og bænir? Nei. Er það nóg, að halda þau 10 boðorð? Nei. Er það nóg, að fasta tvisvar í viku, og gefa tíund af öllu því, sem vèr eigum? Nei. Er það nóg, að brytja allar vorar eigur niður fyrir fátæka, enda þó vèr hefðum kærleikann? Nei. Er það nóg, að gjöra svo gott á móti öðrum, sem vèr vildum að aðrir gjörðu á móti oss? Nei. Er það nóg, að bænir vorar og ölmusugjörðir væru uppstignar fyrir Guð í himninum? Nei. Þó er þetta allt gott, og guði þóknanlegt, þegar það fram kemur af kærleikanum og trúnni á Guðs orð. Er það nóg, að fara til altaris, og fá fyrirgefning syndanna af prestinum? Nei. Höfum vèr þá ekkert tækifæri, til að verða frelsaðir frá vorum syndum? Jú, vissulega; sá sami Jesús, sem hefur frelsað oss frá uppruna-syndinni, án sáttmála, hann hefur líka frelsað oss frá vorum eigin syndum, med vissu skilyrði, eða uppá vissan máta, það er, með því að hlýða vissum boðum og tilskipunum, sem eru þessar: Fyrst trú á Guð, þann eilífa föður, og hans son Jesúm Krist, hans kvöl og dauða fyrir mannkynið, og þann heilaga anda, sem gefst öllum sem hlýða þeim sanna fagnaðarboðskap. Annað, að iðrast og umvenda oss frá

öllum syndum, og ef vèr höfum gjört vorum meðmanneskjum órètt, þá að bæta það svo mikið sem mögulegt er. Þriðja, að skírast með niðurdýfingarskírn í vatni, til fyrirgefningar syndanna, af þeim sem hefur myndugleika þar til, eða hinn heilaga prestdóm; annars er það ógilt fyrir guði. Fjórða, handa-yfirlegging til móttöku heilags anda, sem leiðir í allan sannleika, og til að þekkja Guðs vilja. Allir sem hlýða þessum lærdómum og höfuðatriðum trúarinnar, fá fyrirgefning syndanna eins og í frumkirkjunni, þeirri fyrstu kristni. Þeir eru uppá þennan máta fæddir af vatni og anda, og kunna ekki uppá annan máta innganga í Guðs ríki, segir Jesús. Þeir eru þá innvígðir til Guðs ríkis, sem hans synir og dætur, löglegir erfingjar Guðs ríkis, og samarfar Kristi. Svo að, þar sem ekki eru þessir lærdómar og höfuðatriði trúarinnar, þar er ekki Jesú Kristi kirkja.

Lesari góður, er það skynsamlegt að þenkja, að vèr getum brúkað og hagnýtt oss Jesú Kristi forþènustu, pínu og dauða, til eilífrar sáluhjálpar í Guðs ríki, àn þess að hlýða þeim fyrstu höfuðatriðum, sem allir urðu að hlýða í þeirri fyrstu kristni? Er það skynsamlegt, að segjast trúa á Jesúm Krist, en þó ekki meðkenna, að þeir lærdómar, sem hann kenndi, sèu nauðsynlegir? Jesús segir: Himin og jörð forganga, en mín orð forganga ekki. Allt vald er mèr gefið á himni og jörðu. Á öðrum stað: Eg er vegurinn, sannleikurinn og lífið, einginn kemur til föðursins fyrir utan mig. Það er, við þá lær-

dóma, sem hann gaf, og innsetti í sína kirkju. Sumir munu spyrja: Getið þèr fyrirgefið syndirnar eins og Guð, með því að skíra fólk, eða dýfa því niður í vatnið? Gátu postularnir og þeirra eptirkomendur, sem höfðu þann heilaga prestdóm, friðþægt fyrir fólksins syndir, með því að skíra til syndanna fyrirgefningar, eptir þeirri reglu og máta, sem Jesús innsetti í sína kirkju? Já. Gátu Guðs prestar, — sem höfðu þann Aronska prestdóm, — friðþægt fyrir fólksins syndir með þeim syndafórnum, sem Guð hafði til sett, sem forlíkunarmeðal og fyrirmyndan uppá frelsarann? Fyrirgaf Guð ekki syndirnar uppá þennan máta? Vèr svörum jú, vissulega; sömuleiðis fyrirgefur guð syndirnar, við sinn heilaga prestdóm og fullmakt, sem hann hefur gefið til jarðarinnar á þessum síðustu dögum, ef vèr hlýðum þeim lögum og höfuðatriðum trúarinnar, sem Jesús innsetti í sína kirkju.

Þegar Arons synir tóku hver sitt glóðar ker, og lètu þar í annarlegan — eða óhelgaðan — eld, og þar ofaná reykelsi, og báru fram fyrir drottinn, þvert á móti drottins boði, þá fór eldur út frá drottni og eyddi þeim. 3 Mós. b. 10, 1. Þessi eldur sem hèr um talast, lítur til þess, að þeir tóku ekki eldinn af því heilaga altari, — sem helgaði eldinn, — til að brenna sín reykelsi, eins og drottinn hafði boðið. Og er þetta nóg, til að hræða og fordæma alla þá, sem hafa umbreytt nýja testamentisins lögum á líkan máta. Þeir hafa tekið annarlegan eld, til að brenna sín reykelsi;

þeir hafa haft mannaboð til að helga sig með; þeir hafa ekki tekið eldinn af því heilaga altari Jesú Krists, til að koma fram fyrir guð með, og ef þeir hefðu haft þann heilaga prestdóm, þá mundi hafa farið líkt fyrir þeim. Ef þessara tima kennendur skammast sín við, að meðkenna Jesú lærdóma fyrir mönnum, þá mun hann skammast sín við, að meðkenna þá fyrir sínum föður, þá hann kemur í krapti og dýrð.

En látum oss nú hverfa tilbaka, lesari góður. Eg sagði, að barnaskírn kom fyrst í Afríku, árið 251, eða hèr um bil 1257 árum fyr en Lúthers siðabót. Og á fjórðu og fimmtu öld skírðu margir ungbörn med niðurdýfingarskíru. Margar mannasetningar voru innleiddar af þeim katólsku, svo sem fyrirbænir fyrir dauðum mönnum, reykelsi í samkundu-húsum, krossar við embættisgjörðir; vaxljós brunnu í kirkjum um daga, lampar brunnu á leiðum píslarvotta, kvöldmáltiðar-sakramentið var gefið ungbörnum, og þeim, sem voru komnir í andlátið, og sumum dauðum. Sjá Thómás Vestlek, blaðsiðu 68. Og held eg, að sú Lutherska kirkja hafi tekið nokkuð til láns hjá móður sinni, svo sem barnaskíru, ljós í kirkjum og krossa, og að þjónusta deyjandi og gamalt fólk. Eptir að prestar, munkar, konungar og þeir voldugu í löndunum, höfðu undirskrifað og samþykkt þessar heimskulegu serimoníur, var almúganum þrengt með sverði og hótun dauða, og margar þúsundir voru drepnar.

Á sjöttu öld fundust 2100 í Englandi og Vels,

sem hèldu fast við Jesú Kristi lærdóm. Gregorius biskup í Róm sendi munk, Ágústín að nafni, þangað, sem að síðustu eyðilagði þá með sverði og eldi. Á meðal hverra var ein kona, sem ekki vildi gefa upp trú sína, og þessi kona var ólètt, og var í böndum þangað til hún fæddi barnið; hafði það merki bandanna á sínum líkama; síðan var hún sett í gapastokk, og þaðan tekin um nótt og drekkt niður um ís. Önnur kona sem var brennd, fæddi barnið í eldinum, áður en hún dó. Thómás Vestlek, blaðsíðu 72. Margir voru brenndir og kvaldir til dauða, sem töluðu og skrifuðu á móti barnaskírninni, og eptir Lúthers siðabót voru ekki allfáir drepnir fyrir það sama. Sjá Thómás Vestlek, þriðju útgáfu, blaðsíðu 88 til 105. Hann hefur útgefið eina bók í Lundúnaborg á Englandi, og átta hálærðir menn eru undirskrifaðir, til að staðfesta sannleika bókarinnar. Jón Arason fæddur 1484, var kosinn til biskups 1522, var vígður í Norvegi og kom aptur til Íslands 1525. Hann hèlt fast við þau pápisku trúarbrögð, og var ásamt sonum sínum, Ara lögmanni og sira Birni, hálshöggvinn í Skálholti 1550. Sjá J. Hoster, blaðsíðu 250. Var ekki þetta gjört 31 ári eptir siðabótina af Lúthers trúarmönnum? Þeir drápu hæstu yfirvöld landsins, bæði andlegrar og veraldlegrar stèttar. Hvar hefur sú mikla hóra, sú katólska kirkja, fengið fullmakt til að drepa þá, sem ekki vildu hlýða hennar lögum og lærdómi? Hvar hafa þær mörgu prótestantisku kirkjur — hennar dætur — fengið fullmakt, til að gjöra það

sama? Þeir geta ekki tekið dæmi frá Jesú, eða hans postulum, að þeir hafi gjört það, heldur þvert á móti, Jesús segir: Blessið þá sem yður bölva, gjörið þeim gott sem yður hata, biðjið fyrir þeim, sem yður gjöra skaða og ofsókn veita. Þeir neita allri guðlegri opinberun, svo þeir geta ekki haft það frá Guði, heldur frá Satan, sem var lygari og manndrápari frá upphafi. Jóh. 8, 44.

Sumir vilja segja: Guð skipaði Ísraels fólki að eyðileggja þjóðirnar í Kanaans landi. En hver getur gengið í rétt við Guð? Er það ekki það sama, hvort hann eyðileggur með vatnsflóði, hungursnauð, eldsbruna, drepsótt eða sverði? Hefur hann ekki rètt til að straffa uppá hvern máta sem honum líkar? Jú, vissulega.

Það eru þúsundir af sönnunum til að staðfesta, að barnaskírn var ekki þekkt fyr en á þriðju öld. Því að allir urðu að geta gjört grein fyrir trú sinni, fyr en þeir voru skírðir. Eins og börn nú á dögum eru ekki konfirmeruð, fyr en þau geta þekkt sinn svo kallaða kristindóm. Svo var heldur enginn inntekinn í Krists söfnuð, fyr en þeir þekktu og trúðu Kristi lærdómi. Eptir að þau svo kölluðu guðfeðgin, — eða ljósmóðirin, — eru búin að fullvissa prestinn um, að barnið muni trúa á þrenninguna, — eða guðdóminn, — og afneita djöflinum og öllu því illa, með því að jàta fyrir barnið, eru þau ekki meira andsvarleg fyrir barnsins uppfræðing og uppeldi en aðrir, ef foreldrarnir falla frá.

En hvað er börnunum kennt þegar þau koma til vits og ára? Að Guð sè andi, því eigi þeir sem tilbiðja hann, að gjöra það með rèttum anda, og er það rètt, guðs orð segir það sama. En þèr bætið við, og segið: Ósýnileg vera, og að hann hafi ekki líkama eða limu, og verði ekki séður með líkamlegum augum, og ekki útmálaður með neinni mynd. Hvar fyrir er þá beðið í kirkjum og heimahúsum í blessunar-orðunum, að hann vilji láta sína ásjónu lýsa yfir oss, eða upplypta sínu augliti yfir oss, ef hann hefur hvorki auglit eða ásjónu. Þá er það sú mesta heimska og villa, að biðja Guð um það, sem hann getur ekki gefið. Svo að þèr ónýtið og gjörið til einskis það, sem þèr sjálfir kennið á einum stað, að hann hafi einga mynd, með því að segja á öðrum stað, að hann hafi bæði ásjónu og auglit. Guð þekkist ljósast af sínu orði, sem lesa má í þeirri heilögu ritningu. En hvað segir hún um guð? Gnð sagði: Vèr viljum gjöra manninn eptir mynd og líkingu vorri, og Guð skapaði manninn eptir sinni mynd. 1. Mósb. 1, 26—27. Þetta er Adams ættartölu-saga, þegar guð skapaði manninn, svo gjörði hann manninn eptir guðs líkingu. 1. Mósb. 5, 1. Nafn þitt skal ekki lengur vera Jakob, heldur Ísrael; því þú hefur glímt við Guð og mann, og fengið sigur. Og Jakob nefndi þennan stað Pniel (guðs auglit) „því eg hef sèð guð bersýnilega, og líf mitt er frelsað“. 1. Mósb. 32, 28—30. Þeir sáu guð Ísraels; og var undir fótum hans, sem pallur væri

gjörður af gagnsærum saffirsteini, fagur sem heiður himinn; og hann lagði ekki hönd á höfðingja Ísraelslýðs, og þeir skoðuðu Guð, og átu og drukku. 2. Mósb. 24, 10—11. En þegar mín dýrð fer fram hjà, vil eg láta þig standa í bjargskorunni, og mun eg byrgja þig með hendi minni, uns eg er kominn fram hjá, en þegar eg tek mína hönd af, þá muntu sjá á bak mèr. 2. Mósb. 33, 22—23. En drottinn talaði við Móses augliti til auglitis, eins og maður talar við mann. 33, 11. Eg tala við hann munnlega, og læt hann skoða, og ekki í myndum, og hann sèr skapnað drottins. 4. Mósb. 12, 8. Þegar Guð sagði Móses að segja Aron, hvernig hann skyldi blessa Ísraels börn, segir hann: Drottinn blessi þig og varðveiti þig; drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þèr, og sè þèr nàðugur! Drottinn upplyfti sínu augliti yfir þig, og gefi þèr frið! 4. Mósb. 6, 22—27. Herrann segist hafa auglit og ásjónu, þó kennið þèr að hann hafi það ekki. Vitið þèr betur en herrann? Getið þèr fært fram betri sannanir en hans eigið orð, að hann hafi ekki líkama? Ef ekki, er yðar lærdómur falskur. Og drottinn birtist Abraham, þá hann sat í tjalddyrum sínum, um hádegis bilið, og Abraham þvoði fætur hans, og gaf honum mat að borða, og drottinn mælti: Því skyldi eg leyna Abraham því, sem eg ætla að gjöra? 1. Mósb. 18. kapitula. Og þar uppi á veldisstólnum, sem svo sýndist, var mynd nokkur í mannslíki. Og hönd var útrètt á móti mèr; í henni var samanvafið bókfell. Esek. 1, 26 v. 2, 9.

Stefán sá himnana opna, mannsins son standa til hægri handar Guði. Postulanna gjörn. 7, 56.

Postulinn segir, að Jesús sè uppfarinn, og sitji til föðursins hægri handar. I hægri hendi þess, sem í hàsætinu sat, sá eg bók, sem skrifuð var báðum megin og innsigluð með sjö innsiglum. Opinb. 5, 1. Jesús segist vera svo líkur sínum föður, að hann segir við Filippus: Hver sem sèr mig, sèr föðurinn. Jesús sagði: Faðir, í þínar hendur, fel og minn anda. Það er ekkert klàrara, og augljósara að skilja af ritningunni, en að guð hafi líkama, og er það fullkomlega sýnt og sannað af hans eigin orði. Er það mögulegt, að þeir hàlærðu guðfræðingar kristninnar kenni fólkinu það, sem er beinlínis á móti ritningunni? Hefur venja og siðvani umliðinna alda blindað þeirra skilnings augu svo, að þeir álíti getgátur og hugmyndir heimskra manna, — sem eingan grundvöll hafa, — áreiðanlegri en þà heilögu ritningu? Það sýnist svo vera, viðvíkjandi þeim sanna guði, sem skapaði manninn eptir sinni mynd.

En látum oss nù aðgæta fleiri lærdóma og lagaboð þeirrar lúthersku kirkju. Börn eru ekki kölluð kristin, fyr en þau eru konfirmeruð. Konfirmation er ekki Krists lærdómur, og ekki heldur Lúthers, heldur konungleg tilskipun, og er 142 ára gömul. Konungurinn Kristján sjötti innsetti hana 1736, 9. Janúar, og mun hafa verið lögtekin á Íslandi átta àrum seinna, 27. maj 1744. Sjá eptirmæli átjándu aldar, blaðsíðu 203: Hið merki-

legasta mèr til handa af hans ríkisstjórn, met eg eptirskrifaðar tilskipanir og konungsbréf: Um konfirmation barna. Sömuleiðis J. Hoster, blaðsíðu 293. Þar sem segir: Hann uppábauð og samþykkti barna konfirmation, eður staðfesting í þeirra skírnarsáttmála. Svoleiðis er ungdómurinn kristnaður við að hlýða konunglegri tilskipun. Kristnin tekur sitt nafn af Kristi, en ef hún ekki hefur Krists lærdóma, þà er það ekki nema að nafninu kristni. Þessar mannasetningar eru brúkaðar, í staðinn fyrir niðurdýfingar-skírn til fyrirgefningar syndanna, og handayfirlegging til móttöku heilags anda, eins og áður var í þeirri fyrstu kristni.

Hefur Jesús uppleyst og til baka kallað þessi höfuð-atriði sinnar heilögu kirkju? Nei. Hvernig eru þau þá úr gildi gengin? Krefur það aðra lærdóma, að frelsa menn í Guðs ríki nú á dögum, en það gjörði á Krists og hans postula dögum? Nei. Hafa ekki þeir katólsku trúarníðingar ruglað setningunum, brjàlað boðorðin, og til einskis gjört þann nýja og eilífa sáttmála? Jú, vissulega. Hafa Lúthers trúarmenn upptekið og hlýtt þeim fyrstu lagaboðum Krists kirkju? Nei. Jesús segir til sinna postula: Kennið þeim að halda allt hvað eg bauð yður; og sjá, eg er með yður alla daga, allt til veraldarinnar enda. Matt. 28, 20. Það er að skilja, ef þeir hefðu (nefnilega Gyðingar og heiðingjar) haldið fast við hans lærdóm, þá hefðu þær sömu blessanir og náðargáfur verið í kristninni nú á dögum, eins og í fyrri daga. En dýrinu var lofað

að herja á heilaga og sigra þá; því var gefið vald yfir alls kyns kynkvísl, fólki, tungumáli og þjóð. Opinb. 13, 7. Það er að skilja, að sú sanna Jesú Krists kirkja var eyðilögð.

Eptir að börn eru konfirmeruð, og þau hafa hlýtt þessari konunglegu skipan, þá eru þeim fyrirgefnar syndirnar, — sem öllum öðrum, — við kvöldmáltíðar-sakramentið, sem Jesús innsetti til endurminningar um sinn líkama og blóð. Þegar Jesús sagði: Þetta er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn, sagði hann líka: Gjörið þetta í mína minningu. Lúk. 22, 19. Hann hefur án efa meint sinn líkama, eða sjálfan sig. Því ef brauðið og vínið hefði verið til synda fyrirgefningar, þá hefði Jesús ekki þurft að líða dauðann. Og þetta er til fyrirmyndunar, því allir vita, að það er ekki Jesú hold og blóð, sem þeir meðtaka. Eins vel hefði Móses getað sagt, að offur og fórnir í þá daga, væru Jesú líkami og blóð, eða að eirormurinn væri Jesús Kristur, sem var fyrirmyndan uppá Jesúm Krist, — eða það stóra offur, — eins er kvöldmáltíðin til endurminningar, en ekki til fyrirgefningar syndanna, og er þetta herfilega afbakað og umsnúið. Jesús sagði: Mitt blóð úthellist fyrir marga, til fyrirgefningar syndanna. Matt. 26, 28. Svo það var ekki brauð og vín. Þèr segið, að það sè sannarlegt hold og blóð. Og á öðrum stað: Berging brauðs og víns verkar það í eingan máta (nefnilega fyrirgefning syndanna). Mörgum hefur án efa dottið í hug að spyrja sem Pílatus: Hvað er

sannleikurinn? Brauð og vín eru endurminningar-merki hans líkama og blóðs; endurminningar-merki þess nýja friðarsáttmàla, — eða nýja testamentis — sem eru þau lög og reglur, sem hann gaf sínum postulum. Það gamla testamenti er þau lög og friðarsamningar, sem Guð gaf Móses, og sem var margt fyrirmyndan uppá frelsarann. En Jesùs var ekki kominn að uppleysa lögmálið, heldur að fullkomna það; hann uppleysti ekki þau 10 boðorð, en fullkomnaði spádómana, sem um hann voru talaðir. Og þó að fórnir í Móses daga væru til syndakvíttunar, og fyrirmyndan uppá Krist, þá höfum vèr eingan rètt að brúka kvöldmáltíðarsakramentið þar til. Er ekki þetta að halda sáttmálans blóð almennilegt eða ónýtt? Er það ekki Jesú blóð, sem hreinsar oss af öllum syndum, þegar vèr hlýðum þeim fyrstu lagaboðum Guðs ríkis, sem er, trú, umvendun og niðurdýfingar-skírn, sem er það einasta syndakvíttunarmeðal, í sameining við Jesú Krists forþènustu, og þar eptir handayfirlegging til móttöku heilags anda? Þeir heilögu komu opt saman á postulanna dögum, til að neyta brauðs og víns, ekki til að fá fyrirgefning syndanna. Því postulinn segir: Svo opt sem þèr etið þetta brauð, og drekkið af þessum kaleik, þá boðið þèr dauða drottins, þangað til hann kemur. 1. Kor. 11, 26. Jesús segir: Gjörið það í mína minningu. Hann segir á öðrum stað: Hver sem trúir og verður skírður, skal verða hólpinn. Og, ef maðurinn fæðist ekki af vatni og anda, getur hann ekki fengið

inngöngu í Guðs ríki. Það er ekki: Hver sem meðtekur brauð og vín, til endurminningar Jesú líkama og blóðs, skal hólpinn verða, eða innganga í guðs ríki. Vel hefur Viðdalin sagt, þar sem hann segir: Svo reka menn þetta blinda fè, inn fyrir herrans altari, til að eta og drekka sjálfum sèr dóm. En fólkið veit ekki betur, því er kennt þetta, og þar fyrir hefur það afsökun fyrir Guði, þangað til það þekkir það rètta.

Pàll segir: Að sönnu hefur Guð sèð í gegnum fingur við vanvizkunnar tíðir, en nú lætur hann öllum mönnum allstaðar bjóða, að þeir taki sinnaskipti. Postula gjörn. 17, 30. Það sama er að segja nú á dögum. Guð hefur aptur gefið það sama evangelíum, eða náðarboðskap til jarðarinnar, sem vér finnum í þeirri heilögu ritningu. Þèr segið: Það er víst, að allan þann guðs vilja, sem manneskjurnar áhrærir, er að finna í biblíunni, og þess vegna kallast hún Guðs orð. Barnaskírn, konfirmation og kvöldmáltíðin til syndakvíttunar, getur ekki verið guðs vilji, sem manneskjurnar áhræri, því það er ekkert boð, eða eptirdæmi, í greinum heilagrar ritningar, til að staðfesta þessar mannasetningar.

Þegar ritningin kennir oss fullkomlega og augljóslega, allt það, sem vèr þurfum að vita, til sannrar velferðar, þá ættuð þèr ekki að hafa aðra lærdóma, en þá, sem ritningin kennir. Hver, sem öðruvisi trúir eða kennir, en guðs orð bíður, sá vanhelgar Guðs nafn. En postulinn segir: Því

þann tíma mun að bera, að menn ekki þola þá heilsusamlegu kenningu, heldur safna sér kennendum eptir girndum sínum, eptir því sem eyrun klæja; og snúa eyrum sínum burt frá sannleikanum, og snúa sèr að hègiljum. 1. Tim. 4, 3—4. Jesús sagði: Sèrhver planta, sem minn himneski faðir ekki hefur gróðursett, mun upprætast. Matt. 15, 13. Það er að segja: Þessir lærdómar, sem ekki finnast í biblíunni, eru plöntur, sem skulu upprætast með rót. Það eru þær hègiljur, sem postulinn talar um. Og hefur sú svo kallaða kristni þannig, með setningum sínum, ónýtt Guðs lögmál. Lýður þessi heiðrar mig með vörunum, en þeirra hjarta er langt í burtu frá mèr; en þeirra dýrkan er til ónýtis, með því þeir kenna þá lærdóma, sem eru manna boðorð. Matt. 15, 8—9. Ef Guðs dyrkun var til ónýtis í fyrri daga, af því að þeir lærdómar voru kenndir, sem voru manna boðorð, svo má það vera það sama à þessum dögum; þvi Guð er sá sami, í gær og í dag, óumbreytanlegur, og jafnan hinn sami.

Eptir að ungdómurinn hefur hlýðnast þessum mannaboðum, er hann neyddur til, að sverja í málum, eptir lögunum, ef þess þykir við þurfa. Þó hefur Jesús sagt: Játið, þegar játa ber, og neitið, þegar neita ber; hvað sem þar er fram yfir, það kemur frá hinum vonda. Matt. 5, 37. Postulinn Jakob segir: En um fram allt bræður mínir, sverjið hvorkí við himininn nè við jörðina, nè nokkurn annan eið, en yðar já sè já, og yðar nei sè nei, svo þèr komið

ekki undir dóm. Jak. 5, 12. Þeir, sem eru doktòrar í guðfræði, geta þeir ekki læknað þetta? Geta þeir sèð uppá þessa óttalegu villu? Er ekki þetta ein snara, sem Satan hefur innblásið vondum mönnum, að leggja fyrir samvizkulausar og forhertar manneskjur, til að fanga þær í fordæmingarinnar net, og er fjöldi af fólki, sem hefur fyrirfarist uppá þennan máta, og er eilíflega glataður. Er ekki þetta að ónýta Jesú boð, og þvinga fólk, eins og páfinn og hin rómverska kirkja, til að brjóta Guðs boð og skipanir. „Það ber framar að hlýða Guði en mönnum."

Sú svo kallaða kristni meðkennir, að þau tíu laga boðorð, sèu frà Guði. Þó er sunnudagurinn seldur til almennrar brúkunar, að tveim tímum undanteknum. Það var guðs boð, sem helgaði hvíldardaginn, en ekki messugjörðin. Sumir af þeim, sem erfiða á sunnudögum, vilja rèttlæta sig með því, að guð hafi ekki fyrirskipað sunnudaginn. Þá ættu þeir, að halda helgan þann sjöunda dag vikunnar, sem Guð sjálfur innsetti hjá Ísraels fólki, ef þeir vilja nokkurn hvíldardag hafa. Sunnudagurinn, — eða sá fyrsti dagur vikunnar, — er innsettur og viðtekinn af kristninni sem hvíldar- og sabbatsdagur. Jesús uppreis á fyrsta degi vikunnar. Á fyrsta degi vikunnar, þá postularnir voru samankomnir að brjóta brauðið, hèlt Páll ræðu, því hann ætlaði að ferðast morguninn eptir, og hann teygði ræðuna til miðnættis. Post. g. 20, 7. Þetta var samkomu- eða sabbatsdagur þeirra

heilögu. Jesús segist vera herra sabbatsdagsins; hann var 40 daga með sínum postulum, eptir sína upprisu, og kenndi þeim um þá hluti, sem heyrðu guðs ríki til. Jesús uppstè til himins à fimmtudag, og á tíunda degi, — sem var annar sunnudagur þar frá, — var huggarinn, sá heilagi andi sendur yfir postulana. Post. g. 2. kap. Eg sagði, að sunnudagurinn væri seldur, að tveim tímum undanteknum, og þannig sjáum vèr, að einn lítill partur er eptir orðinn af þeim heilaga hvíldar- og sabbatsdegi. Líkist þetta ekki því, sem páfinn gjörði, að selja syndakvíttunar brèf? En hvort að lögreglustjórnin gefur syndakvíttunar brèf, það vita þeir, sem hafa keypt þessi fríheit, því ef þeir þurfa að borga það, bæði í þessu og því tilkomanda lífi, þá verður það máske of dýrt. Því eg er fullviss um, að þessi synd er ekki afplánuð fyrir guði, við að kaupa þessi fríheit. Það stendur skrifað: „Minnstu að halda helgan hvíldardaginn.“ Og á öðrum stað: Hver sem því brýtur eitt af þessum boðum, sem minnst sýnist um varða, og hvetur aðra til þess, hann mun minnstur kallast í himnaríki; en hver sem hlýðir þeim, og ræður (öðrum til hins sama), hann mun mikill kallast í himnaríki. Matt. 5, 19. Eg gaf þeim mína hvíldardaga til merkis um það samband, sem var milli mín og þeirra, svo þar af mætti augljóst verða, að eg, drottinn, er sá, sem þá heilaga gjöri. Esek. 20, 12. En sjöundi dagurinn er hvíldardagur drottins þíns Guðs; þá skaltu ekkert verk vinna, ekki heldur

sonur þinn eða dóttir, ei heldur húskarl þinn eða ambátt, eigi uxi þinn nè asni o. sv. frv. 5. Mósb. 5, 14. Þetta er Guðs vilji, sem manneskjurnar áhrærir fullkomlega og augljóslega, að menn lesi í ritningunni, sem er meðkennd af þeirri svo kölluðu kristni, með orðunum, en ekki með verkunum. „En trúin er dauð án verkanna.“

En látum oss nú skoða embættismenn þeirrar svo kölluðu kristni nú á dögum, og bera þá saman við embættismennina í þeirri fyrstu kristni. I þeirri svo kölluðu kristni er fyrst páfi, svo kardínálar, erkibiskupar, biskupar, prófastar og prestar. I Jesú Kristi kirkju er fyrst postular, þar næst spámenn, svo kennarar, þar næst þeir, sem hafa gáfu til að gjöra kraptaverk, gáfu til að lækna, til að aðstoða, stjórna og tala margháttuðum tungum. 1. Kor. 12, 28. Á öðrum stað: Og þessi hinn sami hefur gjört suma að postulum, suma að spámönnum, suma að guðspjallamönnum, suma að hirðurum og lærifeðrum, svo hinir heilögu yrðu hæfilegir til framkvæmdarsamrar þjónustu, Krists líkama til uppbyggingar, þar til vèr allir erum komnir til einingar í trúnni og þekkingar á Guðs syni, til fullorðins ára, til aldurshæðar Krists fyllingar; svo vèr sèum ekki framar börn, er hrekjumst og feykjumst af hverjum kenningar þyt, fyrir brögðum manna, slægð þeirra og kænskufullum vèlum. Efes. 4, 11—15. Þetta sýnir, að allir þessir voru nauðsynlegir og ómissandi embættismenn, í þeirri fyrstu kristni. Ef að kristnin er ekki komin til einingar

í trúnni, og þekkingar á Guðs syni, þá eru allir þessir embættismenn, postular og spámenn, nauðsynlegir, svo að þeir heilögu verði hæfilegir til framkvæmdarsamrar þjónustu, Kristi kirkju til uppbyggingar, sem postulinn kallar Kristi líkama; svo þeir ekki framar verði börn, sem hrekjast af fölskum manna boðum, „eða hverjum kenningar þyt, fyrir brögðum manna, slægð þeirra og kænskufullum vèlum.“ Því eins og líkaminn er ekki nema einn, þó hann hafi marga limi, það er, sú sanna og rètta kirkja og trú er ekki nema ein, þó hún hafi marga embættismenn og meðlimi; en allir limir þess eina líkama, sem eru margir, eru einn líkami, eins eru allir embættismenn, og meðlimir í kirkjunni, — sem eru margir, — ein kirkja. Augað má því ekki segja við höndina: Eg þarf þín ekki við; eða höfuðið við fæturnar: Eg þarf ykkar ekki við; postulinn getur ekki sagt til guðspjallamannsins: Eg þarf þín ekki við; spámaðurinn getur ekkí sagt til hirðis og kennara: Eg þarf ykkar ekki við. Því einum er af andanum gefið að mæla af visdómi; en öðrum djúpsær þekking, af hinum sama anda; öðrum trú, af sama anda; öðrum læknisgáfa, af hinum sama anda; öðrum framkvæmdir kraptaverka; öðrum spádómsgáfa; öðrum greind að dæma um andana; öðrum margháttaðar tungur; öðrum útlegging tungnanna. En allt þetta framkvæmir einn og hinn sami andi, sem útbýtir hverjum eptir sinni vild. 1. Kor. 12, 8—12. Andinn var gefinn við handayfirleggingu,

en andinn gaf misjafnar gàfur. Vanræktu ekki nàðargjöfina, sem þèr er veitt fyrir forspár með handayfirleggingu öldúnganna. 1. Tim. 4, 14. Slökkvið ekki andann. Fyrirlítið ekki spádómsgáfur, prófið heldur allt, og haldið því, sem gott er. 1. Tess. 5, 19—22. Þessar gáfur og þessir embættismenn, með öllum þessum lagaboðum og reglum, eru merki og teikn þeirrar sönnu Jesú Kristi kirkju. Þeir fyrstu limir á þessum líkama (þ. e. s. embættismenn kirkjunnar) eru: Postular og spámenn, sem vèr getum kallað kirkjunnar — eða líkamans — munn og augu. Postularnir voru sem Guðs munnur, til að meðdeila hans vilja til fólksins, og sem hans umboðsmenn, til að leysa og binda á jörðunni, og höfðu guðs anda, til að rannsaka og þekkja alla hluti, og jafnvel Guðs leyndarráð. Spàmennirnir fyrir sögðu ókomna hluti, þeir sáu það umliðna, og það nærverandi, og það tilkomandi, og vöruðu guðs fólk við tilkomandi reiði og straffi.

Sú svo kallaða kristna kirkja, hefur aldrei haft augu til að sjá með, og hefur ráfað í myrkri alla sína tíð, síðan spámenn og postular voru burtteknir, og heilags anda gáfur, og þau fyrstu lagaboð fundust ekki lengur. Hún hefur heldur eingan munn, til að tala Guðs leyndarráð, og eins og sá náttúrlegi líkami getur ekki lifað án munns, sem öll næring gengur í gegnum, svo getur heldur ekki Kristi líkami — eða kirkjan — lifað, án munns og augna, þ. e. postula og spámanna, sem

hafa þann heilaga prestdóm og makt til að gefa þann heilaga anda. Yðar kirkja hefur aldrei haft þær náttúrlegu lífshræringar, og náðargáfur þess heilaga anda; hún er dauð, og hefur ekki þau mest nauðsynlegu skilningarvit, eða þá áður um töluðu embættismenn. Ein af þeim andlegu gáfum var, að lækna þá sjúku. Sè einhver veikur á meðal yðar, þá kalli hann til sín öldunga safnaðarins, og þeir biðji fyrir honum, og smyrji hann viðsmjöri í nafni drottins. Því trúuð bæn mun frelsa hinn sjúka, og drottinn mun reisa hann á fætur, og sú synd sem hann hefur gjört, mun honum fyrirgefin verða. Jak. 5, 14—15. Þetta voru lög á meðal þeirra heilögu í þá daga. En sè einhver veikur, á meðal þeirra svo kölluðu kristnu, nú á dögum, þá senda þeir eptir lækni, allopatha, eða homöopatha, sem gefa þeim eiturblönduð meðöl, í sínu eigin nafni. Lesari góður, það er ekkert af Jesú lærdómi kennt uppá sama máta, eða í sömu meiningu, eins og það er í ritningunni. Þeir sem ekki meðkenna, að andans gáfur og embættismenn, og þær fyrstu tilskipanir og boð, sèu nauðsynleg nú á dögum, eins og í fyrstu kristni, þeir hafa skin guðhræðslunnar, en afneita hennar krapti. Páll segir: Því vèr erum hluttakandi í Kristi, ef vèr allt til æfiloka höldum fast við hinn fyrsta trúargrundvöll. Hebr. 3, 14. Þetta sýnir, að vèr getum ekki haft hlutdeild í Jesú Kristi forþènustu, nema vèr höldum fast við þann fyrsta trúargrundvöll, eða þann postullega lærdóm. Ef einhver kemur

til yðar, og kemur ekki med þennan lærdóm, þá hýsið hann ekki og heilsið honum ekki. 2. Jóh. 10. vers. Jesús segir við Jóhannes: Haldið því, sem þèr hafið, þar til eg kem. Opinb. 2, 25. Sèrhver yfirtroðslumaður, og sá, sem ekki stendur stöðugur í Krists lærdómi, hefur ekki Guð, en sá sem stendur stöðugur í Krists lærdómi, hefur bæði föðurinn og soninn. 2. Jóh. 9. vers.

---

## FJÓRÐI KAPITULI.

Um fráfallið og þá fölsku kennendur, og hvernig Guð gaf þann heilaga prestdóm.

---

Látum oss nú segja fá orð um fráfallið, og þá fölsku kennendur. Landið, sem innbyggjendurnir ganga á, vanhelgast; því þeir brjóta lögin, brjála boðorðunum, og rjúfa þann eilífa sáttmálann. Esaías. 24, 5. Þá fer fyrir kennimönnunum eins og fyrir alþýðunni, fyrir húsbóndanum eins og fyrir þjóninum, fyrir húsfreyjunni sem þjónustukonunni, fyrir seljanda sem kaupanda, fyrir leigjanda sem leigumanni, fyrir lánardrottni eins og fyrir skuldanaut. Esaías 24, 2. Þegar menn rjúfa þann nýja og eilífa sáttmàla, nýja testamentisins lögmál, og brjóta drottins boð, þá fer fyrir kennimönnum sem alþýðunni, að allir villast frá sannleikanum, en ef blindur leiðir blindan, falla þeir báðir í gröfina. Höfðingjar borgarinnar dæma fyrir mútu, hennar kennimenn kenna fyrir kaup, spámenn hennar spá fyrir peninga; og þó reiða þeir sig á drottinn og segja: „Er ekki drottinn vor á meðal? Eingin ógæfa kann oss henda!“ Þessvegna skal Síonsfjall fyrir yðar

skuld plægt verða sem akur, Jerúsalemsborg skal verða að steinahrúgu, og musterisfjallið að skógarhálsi. Mikka 3, 11—12. Ef drottinn þannig straffaði Gyðingana í fyrri daga, fyrir það þeir umbreyttu hans boðum, og rugluðu setningunum, og prestar kenndu fyrir kaup, og spámenn spáðu fyrir peninga, þá er hætt við, að hann gjöri það sama nú á dögum, eptir að þjóðirnar hafa verið aðvaraðar. Það mun sannast sem postulinn segir: Því hafi Guð ekki þyrmt þeim nattúrlegu kvistum, (það er Gyðingum), þá mun hann ekki þyrma þeirri svokölluðu kristni nú á dögum, eða þeim sem hafa brjálað boðorðunum, og selja sína lærdóma fyrir peninga, eins og aðra vöru. En eins og áður voru falsspámenn á meðal lýðsins, þannig munu líka falskennendur rísa upp á meðal yðar, er innsmeygja munu háskalegum villum, afneita drottni, sem þá hefur keypt, og yfir sig leiða bráða glötun. 2 Pèt. 2, 1. Er það ekki að afneita drottni, að innsetja aðra lærdóma og boð, en hann hefur skipað? Af ágirnd munu þeir með tælandi kenningum hafa yður fyrir fè. 3. vers. Mannasetningar eru þessar tælandi kenningar, sem seljast fyrir fè. Þá munu og uppkoma margir falskennendur, þeir er marga munu afvega leiða. En hver sem stöðugur stendur allt til enda, hann mun hólpinn verða. Matt. 24, 11—13. Stöðugur i hverju? Í hègiljum og tælandi mannaboðum; nei, heldur í þeim postullega lærdómi. En þetta veit eg, að eptir mína burtför munu grimmir vargar smeygja sèr inn á milli yðar, sem ekki munu

þyrma hjörðinni; og á meðal sjálfra yðar munu upp rísa menn, sem fara með rangsnúna lærdóma, til að leiða lærisveinana afvega með sèr. Post. g. 20, 29—30. Postulinn kallar þá grimma varga, sem fara með rangsnúna lærdóma, hann talar um fráfallið, og þá fölsku kennendur, á eptirkomandi öldum. Þegar postulinn er að tala um tilkomudag drottins segir hann: Látið eingan villa yður á nokkurn hátt; því ekki (kemur hann), nema fráhvarfið fari á undan, og maður syndarinnar birtist, sá glötunarinnar sonur, er setur sig á móti og rís gegn öllu því, sem Guð eða heilagt kallast; svo að hann sezt i Guðs musteri, og lætur eins og hann væri Guð, og þèr vitið hvað það er, sem nú aptrar honum, til þess hann opinberist á sínum tíma; einungis (stendur á því), að sá verði í burt numinn, sem nú aptrar því; því þá mun hinn guðlausi koma í ljós, og honum mun drottinn Jesús tortýna með anda síns munns, og að eingu gjöra, þá hann birtist dýrðlega í tilkomu sinni. 2 Tess. 2, 1—9. Það er að segja: Sú katólska kirkja — og páfinn — sem er sá stærsti trúarflokkur í heimi, og honum mun drottinn Jesús tortýna, og að eingu gjöra, þá hann birtist í tilkomu sinni, með anda síns munns; með því bitra sannleikans sverði sinna heilögu orða, mun hann þá að eingu gjöra, segir postulinn. Þeir hafa eyðilagt hans postula og kirkju, og rofið þann nýja og eilífa sáttmála. Postulinn segir i sama kapitula, 15. versi: Bræður, standið því stöðugir og haldið fast við þá lærdóma,

er þèr hafið numið, annaðhvort af kenningu eða brèfi voru. Það ætti einginn að kalla sig kristinn, sem hefur aðra lærdóma. En frá þessu eru sumir viknir og hafa snúið sèr til þvættings; þeir látast vera löglærðir, þótt þeir hvorki skilji sjálfir hvað þeir segja, nè það, sem þeir telja öðrum trú um 1 Tim. 7, 6—7. Þá ber honum að niðurþagga; því þeir umsnúa heilum heimilum, með því þeir kenna það, sem ósæmilegt er, fyrir svívirðilegs ávinnings sakir. Títus 1, 11. Gætið yðar fyrir falskennendum, sem koma til yðar í sauðaklæðum, en hið innra eru þeir gráðugir vargar; af þeirra ávöxtum skuluð þèr þekkja þá. Matt. 7, 15. Ef þeir kenna mannaboð fyrir peninga, eða það sem er svívirðilegt fyrir ávinnings sakir, sem postulinn segir, þá getið þèr þekkt þá af þessum teiknum. Það sýnist að vera auðsjáanlegt, hverir þeir eru. Það eru allir trúarflokka kennendur, sem ekki kenna þann postullega lærdóm. Jesús sagði við sína postula þegar hann sendi þá út að prèdika: Þèr hafið fengið þetta kauplaust, gjörið það og kauplaust. Matt. 10, 8. Þar fyrir segir Páll: Sjálfir vitið þèr, að hendur þessar hafa unnið fyrir nauðsynjum mínum og þeirra, sem með mèr voru. Post. g. 20, 34. Hann segir á öðrum stað: Því ekki lifðum vèr ósiðlega hjá yður, eða þáðum brauð vort af nokkrum gefins, heldur unnum vèr með elju og striti nótt og dag, svo vèr værum eingum yðar til þyngsla. 3 Tess. 3, 8. Ef það er víst, að allan þann guðs vilja, sem manneskjurnar áhrærir, er að

finna í biblíunni, þá kennir hún fullkomlega og augljóslega, hvernig þeir fölsku kennendur mundu verða, og sömuleiðis um fráfallið. Og þó að postulinn væri upprisinn, mundi hann ekki geta lýst því mikið betur. Ef þú, lesari góður, vilt vita meira um fráfallið, þá les 2 Tim. 3, 1—6. Títus 1, 15—16. Opinb. 13, 1—8 og 17 kap.

En hvar hafa þessara tíma kennendur fengið sinn prestdóm og fullmakt, til að prèdika sína lærdóma, sem þeir sjálfir hafa uppfundið? Þegar Guð hefur viljað auglýsa sinn vilja til mannanna barna, þá hefur hann opinberað það til sinna þènara, spámannanna, og þeirra sem hann hefur kallað. Guð kallaði Nóa, Abraham, Isaak, Jakob og Jósep, með opinbering til að framkvæma sinn vilja, og sína vísdómsfullu stjórn. Móses og Aron voru kallaðir til prestdómsins af þeim stóra Jehóva. Þeir 70 öldungar voru kallaðir með opinberun, til að hjálpa Móses. Jósúa var kallaður með orði drottins fyrir Móses, til að leiða Ísrael. Dómararnir voru kallaðir með sjònum, opinberunum, englum og innblæstri Guðs anda. Samúel var kallaður með Guðs raust. Svo og allir spámennirnir með Guðs orði, til hins síðasta, Malakías. Í þeirri fyrstu kristni voru menn kallaðir á líkan máta. Jóhannes skírari var kallaður — áður en hann var fæddur — af Guðs engli, sem birtist föður hans Sakarías. Lúkas 1, 11—18. Jesús var útvalinn af Guði, til að vera æzti prestur, eins og skrifað stendur, „Þú ert kennimaður að eilífu, eins og

Melkizedek.“ Hebr. 5, 6. Páll kallar hann postula og æzta prest vorrar játningar Hebr. 3, 1. Það er margra meining, að Jesús hafi fengið þann heilaga prestdóm, þegar hann forkláraðist á fjallinu, og Móses og Elías birtust honum. Lúk. 9, 28—36. Jesús, sem var postuli og æzti prestur, útvaldi hina 12 postula, og sagði til þeirra: Þèr hafið ekki útvalið mig, en eg hefi útvalið yður. Þegar Júdas fèll, þá útvöldu postularnir tvo menn, Barsabas og Mattías, og báðu til drottins, að hann vildi sýna, hvor af þeim skyldi útveljast, og hluturinn fèll á Mattías. Post. g. 1, 23—26. Eptir það útvaldi drottinn aðra sjötíu, og sendi þá út. Lúkas 10, 1. Páll og Barnabas voru báðir postular. Post. g. 14, 14. Þeir voru útvaldir til embættisins þjónustu, við nýja opinberun, af Guðs anda innblásnum spámönnum og lærifeðrum, sem voru í söfnuðinum í Antíokkíu. Postulag. 13, 1—4. Að öldungarnir voru kallaðir við opinberun, er augljóst af því, sem Páll segir: Hafið nú gát á sjálfum yður og allri hjörðinni, sem heilagur andi setti yður tilsjónarmenn yfir. Postulag. 20, 28. Timóteus, sá fyrsti biskup í Efesus, var útvalinn við spádóm, og handayfirleggingu. 1 Tim. 4, 14. Títus, sá fyrsti biskup, meðal þeirra grísku á Krít, var skipaður af Páli, að setja öldunga á öllum stöðum, hvar þeir heilögu voru. Tít. 1, 5. Því segir postulinn: Sérhver sè í því ástandi, sem drottinn hefur úthlutað honum, sèrhver eins og hann var, þá Guð kallaði hann; svo býð eg í öllum söfnuðum. 1 Kor. 7, 17.

Ekki tekur nokkur sèr sjálfum þennan heiður, heldur hlýtur hann að vera af Guði kjörinn, eins og Aron var. Hebr. 5, 4. Þetta sýnir, að allir Guðs kirkju embættismenn, — eða postular —, hljóta að vera kallaðir af Guði. Því einginn getur tekið sèr þennan heiður sjálfur (nefnilega prestdóminn), nema hann sè af Guði kjörinn.

En hvar hafa þessara tíma kennendur fengið sinn prestdóm. Frá katólskunni? Nei, hún er án allrar fullmaktar, postula og spámanna; hún hefur ekki andans gáfur, eða teikn Kristi kirkju. Hvar hafa þær mörgu prótestantisku kirkjur, og kennendur ólíkra trúarflokka, fengið sína fullmakt? (Bergmálið hrópar hvar?) Kemur þá ekkert svar? Jú, þeir eru allir kallaðir af mönnum, til að prèdika mannaboð og hègiljur, sem eg hef sýnt og sannað af ritningunni. Og þannig er þeirra guðsdýrkun hègómleg og ónýt, af því þeir kenna mannaboð, sem þeim hafa kennd verið. Það er úthrópað meðal fólksins, að Mormónatrúin sè sú versta í heimi, án þess að hafa nokkurn grundvöll, eða ástæður og sannanir frá þeirri heilögu ritningu, til að staðfesta það með. Salómon segir: Sá sem fordæmir fyr en hann þekkir, hann er ekki vís.

Ef Mormónatrú er heimska og villa, þá ættu prestar og kennendur kröptulega að sýna það, og staðfesta af Guðs orði og ritningunni. Gjöra þeir það? Nei, en þeir láta lýginnar óttalegu reiðarslög þruma í öllum áttum. Þetta er það einasta meðal, sem þeir hafa að verja sig með. Og

þannig hræða þeir fólkið frá, að rannsaka vorn lærdóm. Þeir vilja ekki láta Mormóna tala eða prèdika, svo að blygðun þeirra fatleysis ekki opinber verði, þegar Mormónarnir sýna Jesú Kristi fagnaðarboðskap, og þann postullega lærdóm. Þeir vilja heldur ekki missa sín laun fyrir sinn þvætting, og tælandi kenningar, sem postulinn segir; og þar fyrir grípa þeir til lýginnar,. eins og Gyðingar forðum, þegar Jesús uppreis frá dauðum; varðmennirnir voru keyptir til að ljúga, til þess að hindra Guðs verk. Þannig er það með hið sanna evangelium — eða náðarboðskap — nú á dögum. Jesús segir, að djöfullinn sè lygari, og lýginnar faðir. Jóh. 8, 44. Fyrst hann er lýginnar faðir, þá er lýgin hans dóttir, og hefur hún skaðað alla, bæði andlega og líkamlega.

Prestar útgefa ræður og prèdikanir, og hafa fyrir inntak: Haltu fast því, sem þú hefur, svo einginn taki frá þèr þína kórónu. Opinb. 3, 11. Guðs engill og andi í Jesú orða stað segir Jóhannesi, hvað hann átti að skrifa til safnaðanna, þ. e. s. þær fyrstu — og allar — tilskipanir og lagaboð Kristi kirkju, sem þeir áttu að halda fast við. Þetta getur ekki átt við svívirðilegar mannasetningar, sem voru innleiddar nokkrum öldum þar eptir, — það sama, sem nú er kennt í þeirri svokölluðu kristni; Jóhannes og þeir heilögu gátu ekki haldið fast við það, sem ekki var til, og sem einginn þekkti, í þá daga. En það má segja þeim allt, sem láta aðra hugsa og tala fyrir sig, og sem eru

blindaðir af venjum og siðvana. Þetta sýnir berlega, að ef þeir heilögu hefðu látið tæla sig frá þeim postullega lærdómi, þá hefðu þeir misst sína kórónu, það er, sína blessun, upphefð og sáluhjálp í Guðs ríki. Svo að allir, sem ekki hafa Jesú Kristi lærdóm, hafa eingrar kórónu að vænta, og geta þá heldur einga misst. Ef þeir segðu: Haldið fast við hègiljur og mannasetningar, svo prestarnir missi ekki sín sóknarbörn, og embættislaun, þá segðu þeir það sem þeir meintu. Það er hægt, að þekkja þá sönnu og rèttu trú frá þeirri röngu, ef vèr trúum Guðs orði, í þeirri heilögu ritningu. Því Guðs orð fær sýnt og sannað, hvað oss er leyft eða bannað; það sè vort leiðarljós.

Kæri lesari, var það Jesú Kristi lærdómur, sem postularnir kenndu? Var hann nauðsynlegur, og var hann sá einasti vegur til sáluhjálpar? Trú, umvendun og niðurdýfíngarskírn til syndanna fyrirgefníngar, og handayfirlegging fyrir heilags anda gáfu; postular, spámenn og allar náðargáfur, blessanir og teikn, sem voru í þeirri fyrstu kristni. Var þetta nauðsynlegt eða var það ekki? Ef þú meðkennir það að vera nauðsynlegt, þá verð eg að spyrja: Af hverju hafið þèr það ekki eins? Ef þú ekki meðkennir, að það sè nauðsynlegt, hvað ertu þá? Ertu ekki trúarníðingur og villumaður, og ekki betri en heiðingjar! Eða nýja testamentið lýgur, og meinar allt annað, en það segir. Er það ekki auðsjáanlegt, að þú, — og sú svokallaða kristni, — hefur villzt svo langt frá sannleikans

vegi, að þú álítur, að ekkert sè nauðsynlegt, nema einungis að lesa „Faðir vor“ og kalla herra, herra, en allt annað sem Jesús kenndi og tilsetti sè óþarfi, og að það sem menn hafa innleitt, muni duga, í staðinn fyrir Jesú boð og lærdóma, sem nú er til síðu sett. Jesús segir: Ekki munu allir þeir, sem til mín segja, herra, koma í himnaríki, heldur þeir einir, sem gjöra vilja míns himneska föður. Matt. 7, 21. Postulinn áminnir þá heilögu um, að halda fast þeim lærdómi, sem hann kenndi, þar sem hann segir: Hvernig munum vèr þá geta sloppið hjá hegningu, ef vèr vanrækjum þvílíkan frelsislærdóm, sem drottinn vor sjálfur hóf fyrstur að kenna, og sem síðan er staðfestur til vor kominn frá þeim, er hann heyrðu. Hebr. 2, 3. Á öðrum stað: En þó að vèr, eða engill frá himnum boðaði yður náðarlærdóminn öðruvísi, en eg hefi kennt yður, hann sè bölvaður. Já, eins og eg hefi áður sagt, eins segi eg enn aptur: Ef nokkur kennir yður annan náðarlærdóm, en þann, sem þèr hafið numið, sá sè bölvaður. Gal. 1, 8—9. Hann tvítekur þetta orð og segist ekki tala til að þóknast mönnum, því þá væri hann ekki Kristi þènari. En það læt eg yður vita, bræður, að sá lærdómur, sem eg kenndi, er ekki af mönnum; því hvorki hef eg numið nè lært það af mönnum, heldur fyrir opinberan Jesú Krists. 11 og 12 vers. Þær blessanir, sem tilheyra Jesú Kristi kirkju í þessu lífi, er vísdómur, þekking, gleði, lækningsgáfa, tungumálagáfa og þeirra útlegging, opinberanir, sjónir og draumar, engla þjónusta, spádómsgáfa, og

að útkasta djöflum, og allt annað, sem um er talað í ritningunni, eða nýja testamentinu. þessi teikn skulu fylgja þeim, sem trúa, les Mark. 16, 17—18. þetta tilheyrði þeim, sem trúðu þeim postullega lærdómi, og meðtóku hann. því þar sem Guðs heilagi prestdómur og fullmakt er, þar eru þessi teikn. En þar sem þau eru ekki, þar er ekki Guðs kirkja.

það þarf einginn að vera í óvissu um, hvort hann er í Guðs kirkju eða ekki, því þessi teikn sýna og staðfesta það fullkomlega. því náttur-unnar stóra og eilífa lögmál er, að þær sömu orsakir hafa þær sömu verkanir og afleiðingar. Af þeirra ávöxtum skuluð þèr þekkja þá. þannig er það með Jesú Kristi kirkju. Ef þessi teikn hefðu ekki nógsamlega sýnt sig á meðal þeirra síðustu daga heilögu — sem heimurinn kallar Mormóna — þá hefðu ekki svo margar þúsundir — af mörgum þjóðum og túngumálum — meðtekið vorn lærdóm. Postulinn segir: Sækizt eptir enum andlegu gáfum, en allra helzt eptir spámannlegri andagipt. 1 Kor. 14, 1. En þèr neitið öllum þeim andlegu gáfum, eins og öllu öðru, sem var í þeirri fyrstu kristni. Jesús segir: það orðið sem eg talaði, mun fordæma þá á síðasta degi. það eru þau lög og lærdómar sem hann gaf, meðan hann umgekkst hèr í holdinu. það mun fordæma alla, sem ekki vilja trúa og hlýða því, eptir að þeim hefur verið það boðað. 2 Tess. 2, 10—13. Eins nú á dögum, sem í fyrri daga. Guðs orð og sannleikurinn er

það bitra sverð, sem útgekk af hans munni. Opinb. 1, 16. Það mun deyða þeim öðrum dauða alla, sem ekki hafa umvent sèr, eptir að þeir hafa þekkt hans vilja, og þann veg, sem leiðir til Guðs ríkis.

Eg hef þá sýnt hvað Jesú Kristi náðarboðskapur — sá postullegi lærdómur — er, og borið það saman við þessa tíma kenningar, venjur og kreddur, sem menn hafa uppfundið, og er það ljóslega sýnt og sannað af ritningunni. Sömuleiðis hef eg getið um fráfallið og þá fölsku kennendur, og þeirra kennimerki, og hvernig þeir eru kallaðir af mönnum, til að prèdika mannaboð, og uppáfundningar. Einginn skyldi láta sèr í hug detta, að allir þeir meira og minna ólíku trúarflokkar, sem eru í heiminum, sèu Jesú sanna kristni og kirkja. Því postulinn segir: Einn drottinn, ein trú, ein skírn. Efes. 4, 5. Þetta sýnir, að það er ekki nema ein trú og skírn, sem er rètt, eða gildandi fyrir Guði. Jesús segir: Hversu er það hlið þröngt og mjór sá vegur, er til lífsins leiðir, og þeir fàir er finna hann. Matt. 7, 14. Ef þeir mörgu trúarflokkar eru allir á lífsins vegi, þá sannast ekki það sem Jesús segir, að vegurinn sè þröngur, og þeir fáir sem finna hann. Ef þeir væru fæddir og uppaldir á lífsins vegi, og þeim væru kenndir Jesú Kristi lærdómar og boð, þá hefðu þeir fundið þann rètta veg. Þeir hrópa og segja: Hèr er sá rètti vegur, komið hingað. Jesús segir: Utan þèr sèuð eitt, eruð þèr ekki mínir. Eru þessir mörgu trúarflokkar eitt í trú, von og

kærleika? Nei. Þeir stríða hver á móti öðrum, og lasta hver annars kreddur og trú; og þar fyrir geta þeir ekki verið Jesú Kristi kirkja. Sumir munu segja: Eg get ekki og þori ekki, að skoða það í þessu ljósi, því það mundi gjöra alla kristnina ómynduga og trúarníðing, og er það sannleikur. En eg segi: Það er betra að vita sannleikann í tíma, til að geta umvent sèr, en að falla úr dýrlegu hásæti vonar og gleði, niður í afgrunn fordæmingarinnar, í dóminum, sem allir verða að þola, sem ekki hlýða Jesú Kristi lærdómi, eptir að þeir hafa haft tækifæri til að heyra hann.

Þeir stoltu veraldar vitringar, sem upphrokast af sínum lærdómi, og sem gjöra sig drukkna af veraldinnar óhófi, þeir hafa lokað himnaríkis dyrum fyrir sjálfum sèr, svo vel sem fyrir öllum þeim, sem þeir hafa tælt frá sannleikans vegi, með því að dýrka Guð til ónýtis með fölskum mannaboðum, sem til einskis gagna, nema að safna sèr reiði á degi reiðinnar. Hvar og hvenær hefur Guð apturkallað og ógildan gjört þann postullega lærdóm? Hverjum hefur hann opinberað það, og hvar stendur það skrifað? Ef þeir ekki sýna það og sanna, þá bera þeir sjálfum sèr vitni, hverjir þeir eru, blindir blindra leiðtogar, hafandi skin guðhræzlunnar, en afneita hennar krapti. Þeir látast vera löglærðir, þótt þeir hvorki skilji sjálfir, hvað þeir segja, nè það, sem þeir telja öðrum trú um. 1 Tím. 1, 7. Það stendur skrifað, að þeir dýrki Guð til einskis, með því að kenna mannaboð, sem þeim hafa kennd

verið. Esaías 29, 13. Matt. 15, 9. En þetta gjöra allir trúarflokkar, sem ekki hafa þann postullega lærdóm. Það er einginn, sem meðkennir hann nauðsynlegan, nema þeir síðustu daga heilögu. Ein trú, ein skírn, segir postulinn. Sumir ausa vatni yfir þá, sem skírðir eru, og nokkrir væta að eins hvirfilinn — eða ennið — á óvita börnum, og kalla það skírn. En skírnin þýðir niðurdýfing, eins og áður er sagt. Nidurdýfingarskírn, eða að greptrast með Kristó í skírninni, fyrirmyndar gröfina og dauðann, svo vel sem syndanna dauða; að rísa upp af vatninu, og lifa nýju liferni, fyrirmyndar upprisuna, og það eilífa líf. Og þetta er það einasta syndakvíttunarmeðal — eða syndafórn — í sameining við Jesú Kristi forþènustu, pínu og dauða; hann gaf oss þessi lög, svo vel sem sjálfan sig, og hvorttvggja er jafnt nauðsynlegt og ómissandi.

Sú svokallaða ungbarnaskírn er eitt af þeim fölsku mannaboðum, sem hefur vaggað þjóðunum í andvaraleysi í mörg hundruð ár, og sem er orðin að venju og siðvana. Það var fyrir Adams óhlýðni, að öll jörðin var lýst í banni; synd, sorg, erfiði, dauðinn, og allt illt kom inn í heiminn. Það er fyrir hlýðnina við Jesú Kristi lærdóm, þá postullegu kenningu, trú, umvendun, og niðurdýfingarskírn, — af þeim sem hafa myndugleika frá Guði, — að syndirnar verða fyrirgefnar, og Guðs andi verður gefinn fyrir handayfirleggingu, eins og áður er sagt. Svo að þú sèr, lesari góður, að allt sem misstist fyrir óhlýðnina, er aptur unnið

til baka fyrir hlýðnina við þessa fyrstu höfuðlærdóma, sem svo opt er um talað. Þessi fjögur lagaboð, eða grundvallar-reglur, eru dyrnar til Guðs kirkju og ríkis. Jesús segir: Ef maðurinn fæðist ekki af vatni og anda, getur hann ekki fengið inngöngu í Guðs ríki. Jóh. 3, 5. Jesú blóð hreinsar oss af öllum syndum, ef vèr hlýðum þessum lagaboðum, samt öllum öðrum, sem hann hefur gefið. Postulinn segir: Því vèr erum hluttakandi í Kristi, ef vèr allt til æfiloka höldum fast við hinn fyrsta trúar-grundvöll, sem er þau fyrstu höfuðatriði trúarinnar, í Jesú Kristi sönnu kirkju og ríki. Hvað eigum vèr þá að gjöra, kæri lesari? Eigum vèr að halda fast við mannaboð, sem oss hafa kennd verið, og sem eingan grundvöll hafa í Guðs orði, og einskis meta Jesú orð, og til síðu setja þann postullega lærdóm, en treysta á mannlegan vísdóm oss til sáluhjálpar? Nei; því svo segir drottinn: „Bölvaður veri sá maður, sem treystir mönnum, og gjörir holdið að sinni stoð, og sá, hvers hjarta víkur frá drottni“ þ. e s. þeir, sem ekki trúa hans orði og þeim lærdómi, sem hann gaf, eptir að þeir hafa haft tækifæri til að heyra þann sanna fagnaðarboðskap, sem nú er prèdikaður víðast í veröldinni, af þeim síðustu daga heilögu. Það væri gott, ef þú, lesari góður, vildir byggja þína trú á eigin rannsókn, eins og þeir í Beróa forðum. Postulag. 17, 11. Vèr þurfum að rannsaka ritningarnar, til þess að sjá, hvort það er rètt, sem oss er kennt, og biðja Guð um sinn anda, til að skilja það rètta.

## FIMMTI KAPITULI.

Náðarboðskapurinn á hinum síðustu dögum, Jósep Smith sendur af Guði, Mormons bók, guðdómlegur sannleikur.

---

Látum oss nú að gæta, hvort náðarboðskapurinn á að prédikast á hinum síðustu dögum. Þegar postulinn Jóhannes var á eyjunni Paþmos, sendi Guð sinn engil til hans, og lèt sýna honum það, sem þar eptir átti að ske. Opinb. 1, 1. og 4, 1. Einn af þeim dýrlegu hlutum, sem hann sá, var einn engill, sem flaug mitt í gegnum himininn; hann hèlt á eilífum fagnaðarboðskap, sem hann kunngjörði innbúum jarðarinnar, allri þjóð, kynkvísl, tungumáli og fólki. Hann sagði hárri röddu: Óttizt Guð og vegsamið hann, því tími hans dóms er fyrir höndum. Opinb. 14, 6. Þetta er talað í berum orðum, en ekki í orðskviðum. Jesús kom með þann sanna náðarboðskap, þegar hann umgekkst hèr á jörðinni, en þar eptir skyldi einn engill koma með hann, og þetta àtti að ske à hinum síðustu dögum. Því engillinn segir, að Guðs dóms tími sè fyrir höndum. En ef sá sanni fagnaðarboðskapur, sem Jesús kom með, — og sem

hann kenndi, — hefði verið á jörðinni, þá hefði Guð ekki þurft að senda hann til jarðarinnar. En þessi fagnaðarboðskapur, sem engillinn kom með, skyldi sendast til allra þjóða, tungumála og fólks. Þar eptir hrópar annar engill, að Babýlon sè fallin, og orðin að djöfla heimkynni, og fangelsi alls konar óhreinna anda, af því hún hefur byrlað öllum þjóðum sitt áfenga hórunar vín, og konungar jarðarinnar hafa drýgt saurlifnað með henni. Opinb. 18, 1—4. Með Babýlon meinast óguðlegleiki og sundurlyndi. Hennar hórunar vín merkir syndir og lesti, falska trú og manna boð, sem allar þjóðir eru orðnar drukknar af, og sem konungar og valdstjórnendur hafa innsett. En áður en Babýlon er eyðilögð, er Guðs fòlk kallað út frá henni. Þá heyrði eg aðra rödd frá himni, sem sagði: Farið út af borginni, mitt fólk, svo þèr takið einga hlutdeild í hennar syndum, og hreppið ekki hennar plágur. Opinb. 18, 4. Svo að það verður samansöfnun af Guðs fólki, þegar engillinn kemur með það eilífa evangelíum. Jesús sagði: En kenningin um Guðs ríki mun um gjörvallan heim boðuð verða, til vitnisburðar fyrir öllum þjóðum; og þá mun endirinn koma. Matt. 24, 14. Og það var teikn hans tilkomu og veraldarinnar enda. Svo þegar engillinn kemur með þann eilífa fagnaðarboðskap, — og ef það er sá sami, sem Jesús kenndi, — þá mega allir vita, að það er sá sami engill, sem Jóhannes sá, og sá sami náðarboðskapur, sem Jesús segir að skuli boðast til vitnisburðar fyrir sína tilkomu. Því sá

lærdómur, sem Jesús kenndi, hefur ekki verið opinberlega prèdikaður, í sinni fyllingu, í 1700 ár. Enda þótt að Guðs kirkja væri ekki fullkomlega burttekin af jörðunni, og þeir heilögu ekki að öllu leyti eyðilagðir, fyr en á sjöttu öld, sem áður er sagt. Var Jósep Smith sendur af Guði? Það er spurning, sem allir ættu að vita, og vera í standi til að sanna, eða mótsegja, með gildum og fullkomnum ástæðum. Hann segir að engill frá Guði hafi opinberazt sèr, og gefið sèr náðarboðskapinn í sinni fyllingu, og boðskap til allra þjóða og tungumála, að hlýða þessum fagnaðarlærdómi, uppá sama máta sem Jesús kenndi hann, og vèr lesum í nýja testamentinu. Hvernig gat Jósep Smith, ef hann hefði verið villumaður og falskennari út fundið þann sanna náðarboðskap? Var hann vitrari en allir villumenn og trúarflokka höfundar í 1700 ár, þó ólærður maður væri? Gat ekki Sveðenborg, Irving, Vesley, Kalvin, Hvitfield, Lúther, og margir aðrir, komið með þann sanna náðarboðskap? Nei. Hvers vegna? Það var engill, sem átti að koma með hann til jarðarinnar, og tíðin hefur ekki verið komin fyrr. Það eru tvær miklar sannanir fyrir því að Jósep Smith væri sendur af Guði, fyrst, að engill opinberaði honum náðarboðskapinn, í sinni fyllingu. Annað, það var sá sami lærdómur, sem Jesús kenndi. Honum var og svo boðið af englinum, að samansafna öllum, sem hlýddu þessum boðskap, sem er það þriðja, til að staðfesta, að hann var sendur af Guði. Komið út af borginni mitt fólk. Það er út

af fölskum trúar flokkum. Um innsöfnun Israels á hinum síðustu dögum er svo augljóslega talað hjá spámönnunum. Esaías 11, 11—16. Jerem. 16, 14—17. Jerem. 31, 8—11. Esek. 20, 34—35. Páll segir: Eg vil ekki, bræður, að yður sè ókunnur þessi leyndardómur, svo að þèr varizt sjálfsþótta, að Ísrael hefur að nokkra leyti orðið fyrir forherðingu allt þangað til fylling heiðingjanna er innkomin. Róm. 11, 25. Heiðingjar eru í ritningunni allir, sem ekki eru af Ísraels húsi. Gyðingar hafa að nokkru leyti orðið fyrir forherðingu, þangað til heiðingjanna fylling — eða samansöfnun — er komin inn. Hvaða forherðingu hafa Gyðingar orðið fyrir? Að trúa ekki á Jesúm Krist, sem heimsins frelsara, og uppbyggja þá gömlu Jerúsalem, sem þeir skulu gjöra á hinum síðustu dögum. Sjá Sakarias, þrjá síðustu kapitula. Og hjá öllum spámönnunum kemur þetta fyrir, meira og minna; en áður eiga heiðingjarnir að samansafnast. Það eru 38 ár, síðan þeir byrjuðu að samansafnast, undir nafninu „Jesú Kristi kirkja af síðustu daga heilögum“, frá öllum heims álfum. Og þetta eru þeir, sem hafa trúað Jesú Kristi fagnaðarboðskap, sem engillinn kom með til Jóseps Smith. Samkvæmt því, sem Davíð segir: Að leysa börn dauðans, að þau megi kunngjöra í Síon drottins nafn, og hans lof í Jerúsalem, þegar fólkið safnast saman og ríkin, að þjóna drottni. Sálm. 102, 20—23. Fólkið og ríkin eiga að safnast saman að þjóna drottni, og þetta var önnur orsökin, hvar fyrir þeir voru

kallaðir út frá Babýlon. Að leysa börn dauðans, segir Davíð; ef þeir hefðu hreppt Babýlons plágur, þá voru þeir dauðans börn, en hann segir, að leysa þau, svo þau mættu lifa, og þjóna drottni, og þar fyrir voru þeir kallaðir út frá Babýlon, það er sú óguðlega veröld. Það eru 50 ár síðan nàðarboðskaparins fylling var gefin til Jóseps Smith, og honum var undirvísað af Guðs engli um þá heilögu historíu, — eða uppteiknanir, — sem Mormons bók er útlögð af, og sem inniheldur Jesú Kristi náðarboðskap, eins og vèr lesum í nýja testamentinu. Sömuleiðis historíu af Jareðs fólki, sem kom frá turninum Babel, þegar Drottinn aðskyldi tungumálin, — hèr um bil 1867 árum eptir veraldarinnar sköpun, — og þeir fluttust til Vesturálfu heimsins, Ameríku. Eptir að þetta fólk hafði siglt yfir hafið á átta skipum, og lent í þeim nýja veraldarinnar parti, urðu þeir með tímanum að einni stórri þjóð, og byggðu Ameríku í 1500 ár. Þessi þjóð var að síðustu eyðilögð, vegna síns óguðlegleika, nálægt 600 árum fyrir Kristi fæðing. Og einn spámaður, að nafni Ether, skrifaði þeirra historíu, og hvernig þeir eyðilögðust.

Ether auðnaðist að lifa, til að sjá þeirra fullkomnu eyðileggingu, og hann geymdi þeirra frásögu, sem síðan var fundin af einu fólki, sem kom frá Jerúsalem, 600 árum fyrir Kristi fæðing, og aptur byggði Ameríku; þetta fólk voru afkomendur af Jóseps ættkvísl, og þeir ávöxtuðust og fjölguðu, og að síðustu uppkomu tvær mektugar þjóðir af

þeim; önnur þessara þjóða kallaðist Nephítar, eptir þeirra yfirmanni Nephí, hinir aðrir nefndust Lamanítar, eptir þeirra yfirmanni Laman.

Lamanítarnir voru svartleitt, viðbjóðslegt fólk, af þeim eru hinir amerikönsku Indíanar afkomendur. Nephítarnir voru þar à móti upplýst og siðað fólk, og nutu Guðs velþóknunar; þeir höfðu sjónir, spádómsgáfu og engla þjónustu af og til, og að síðustu voru þeir blessaðir með Krists persónulegri nálægð, sem opinberaði sig fyrir þeim eptir sína upprisu. Og frà hans vörum meðtóku þeir náðarboðskaparins lærdóma, og öðluðust þekkingu um þá tilkomandi tíma, allt til enda. En þràtt fyrir allar þessar blessanir, sem þeim voru veittar, fèllu þeir þó til óguðlegleika á þriðju og fjórðu öld eptir Krists fæðing, og voru að síðustu eyðilagðir af Lamanítum hèr umbil við enda fjórðu aldar.

Mormon, sem var einn af Nephítunum og spàmaður, lifði á þeirri tíð. Eptir Guðs skipan gjörði hann eitt stutt ágrip af sinna forfeðra historíu, og spádómunum sem þeim voru opinberaðir; og hann bætti við stuttri frásögu um sinnar þjóðar eyðileggingu. Litlu fyrir dauða sinn afhenti hann syni sínum Moroni þessar skriptir, sem hann hafði gjört. Moroni hèlt áfram historíunni þangað til árið 420. Og á þeirri tíð niðurgróf hann i jörðina þessar heilögu skriptir, i steinkassa einum, í hæð einni, sem kallaðist Cumorah, nálægt Ontarió, í Manchesterhèraði í staðnum New York í Norður-Ameríku. Þetta gjörði hann til að frelsa þær frá

Lamanítunum, sem sóttust eptir að eyðileggja þá fáu Nephíta, sem eptir voru, samt allar þeirra skriptir. Þessar skriptir hafa verið huldar og innsiglaðar, frá árinu 420 til 22. septemb. 1827, að þær voru fundnar af Jósep Smith, sem hafði fengið upplýsing þar um af Guðs engli. Þetta þykir fólkinu mikið undarlegt tilfelli; það er nokkuð, sem mestur partur af manneskjunum ekki vonaðist eptir, nokkuð, sem vorir forfeður höfðu einga hugmynd um, að Guð mundi senda engil frá himninum. Hvað? Engill frá himnum á þessum síðustu dögum. Já, enda þótt fólkinu þyki það undarlegt; hversu ólíkt vorra forfeðra meiningum í 1700 ár. Seg fólkinu sem nú lifir, að Guð hafi sent sínn engil, og auglýst sinn vilja til mannanna, og það er strax viljugt til að forsmá og fyrirlíta slíka hluti. Manneskjurnar hafa búið sèr til meiningu í sínum hjörtum, að englar mundu ekki framar þjóna mönnunum, og einginn boðskapur frá himinum yrði sendur meir, eingin raust frá Guði mundi optar heyrast, talandi til mannanna á jörðinni. Þeir ímynduðu sèr, að fleiri opinberanir yrðu ekki gefnar, ekki fleiri spámenn, ekki fleiri sjáendur og opinberendur, til að meðdeila og auglýsa Guðs vilja fyrir fólkinu. Þannig voru vorra forfeðra meiningar. Og þannig eru þær meiningar, sem þær 400 miljónir manneskjur viðurkenna, sem kalla sig kristna. Tala þú til þeirra þann dag í dag, að það finnist meira af Guðs orði, sem verði gefið til mannanna, og það almenna úthróp frá kristindómsins þjóðum mun

verða: „Þær kanonisku bækur eru fullkomnar“; hver hefur sagt þeim það nokkurn tíma? Er ekki þetta þeirra eigin ímyndun? Hafið þèr heyrt nokkurn mann, já, jafnvel þá lærðustu og vísustu á meðal þeirra, staðfesta þetta út af biblíunni? Hafið þèr heyrt, að nokkur prèdikari eða prestur hafi sannað, að þetta sè samhljóða ritningunni og skynseminni? Nei; það finnst einginn maður, hversu lærður og upplýstur sem hann er í þeirri heilögu ritningu, sem getur komið fram með nokkra sönnun, til að staðfesta þessa meiningu. Þeir síðustu daga heilögu komu fyrst fram fyrir 48 árum, og báru vitnisburð um, að Guð hefði sent einn engil frá himninum. Hversu undrandi varð fólkið; hvaða óvenjulegt tilfelli á þessum tíma? Þó meðkenna þeir, að þegar Jesú Kristi kirkja var á jörðinni í fyrri daga, var engla sending einn partur af þeirri blessan, sem hann veitti sínu fólki. En nú þurfum vèr þess ekki. Hvers vegna? Af því vèr erum svo upplýstir, vèr höfum lesið ritningarnar, og þekkjum fullkomlega þeirra innihald, svo vèr þurfum ekki meiri undirvísun frá almáttugum Guði. Vèr þurfum ekki spámenn á vorum dögum, til að segja oss það sem á að ske. Vèr þurfum ekki guðlegar opinberanir, sem eitt meðal, til að þekkja Guðs orð og sannleikann, því vèr erum svo upplýstir, að vèr getum komizt vel af með mannlegan lærdóm, àn opinberana frá himnum. Þetta eru þeirra meiningar.

Látum oss nú yfirvega þá heilögu ritningu, og

sjá hvort hún innibindur og staðfestir engla sendingar, eða ekki. Ritningin upplýsir oss um, að fyrir syndaflóðið töluðu englar við fólkið, eins og einn maður talar við annan, svo að bæði Enok og Nói töluðu við Guð. Eptir syndaflóðið finnum vèr, að Guð gaf mikil og dýrleg fyrirheit til Abrahams, Ísaaks, og Jakobs, fyrirheit, viðvíkjandi bæði himneskum og jarneskum hlutum, og þessir menn voru „Guðs vinir" og voru fullkomnir á þeirri tíð. Englar komu til þeirra, auglýstu þeim orð hins eilífa lífsins, þeir höfðu opinberanir og nutu Guðs velþóknunar.

Blessaði drottinn þá? Já, hann gjörði það; uppá hvaða máta? Með því að tala til þeirra, og senda engla, til að þjóna á meðal þeirra, og með því að gefa opinberanir. Meðan Ísraels börn ferðuðust í eyðimörkinni, var þeim kennt með opinberunum um allar þeirra serimoníur; eptir opinberun ferðuðust þeir um kring í eyðimörkinni, svo að þegar drottinn sagði þeim, að setja sín tjöld á einum stað, voru þeir þar, þangað til önnur opinberun var gefin. Englar auglýstu þeim og svo Guðs vilja, eptir að þeir voru komnir til Kanaanslands. Þannig hèlt Guð áfram að senda engla til síns fólks. Einn spámaður kom eptir annan, til að auglýsa þeim Guðs vilja. Svoleiðis var ástandið á meðal þeirra, þangað til 397 árum fyrir Kristi fæðing, þá kom eitt tímabil, að einginn engill var sendur, eingin opinberun, einginn spámaður eins og fyrrum. Hvers vegna? Vegna fólksins óguðleg-

leika; afleiðingin var sú, að þá Kristur kom, og boðaði þeim þann sanna náðarboðskap, voru þeir svo óguðlegir, að þeir saurguðu sínar hendur með hans blóði. Vèr finnum, að eptir að Kristur hafði stofnað sína kirkju í þá daga, voru englar sendir til þeirra heilögu, til að kenna þeim um Guðs vilja. Og einn af postulunum uppörfar þá heilögu, að vera gestrisna við framandi, því þar fyrir hefðu sumir hýst englana, sèr óvitandi.

Vèr finnum enn fremur, að á kristninnar fyrstu öld, voru englar opt sendir til þeirra heilögu, og opinberanir voru gefnar, til að stjórna og stýra kirkjunni, með heilags anda gáfu og krapti, sem hvíldi yfir postulunum. Páll talar um englana, þar sem hann segir: Eru þeir ekki allir þjónustubundnir andar, sem sendir eru í þeirra þarfir, sem eiga að erfa sáluhjálpina? Hebr. 1, 14. Þetta er ein augljós sönnun fyrir því, að þessar heilögu og dýrlegu verur frá himninum, þessir, sem bjuggu í Guðs nærveru, voru sendir sem fullmektugir Guðs þènarar, til þeirra sem bjuggu á jörðinni, og sem áttu að erfa sáluhjálpina. En eptir að fyrsta öldin var á enda, varð himininn aptur smátt og smátt sem kopar yfir þeirra höfði. Heilags anda kraptur hætti að verka á meðal þeirra, engla þjónusta var ekki lengur, eingar sjónir nè opinberanir, en myrkursins skýla hekk yfir þeim, sem afleiðing af þeirra vondsku og fráfalli frá Kristi lærdómi, þeirra skilningur formyrkvaðist, svo að þeir ekki gátu lengur skoðað þá dýrlegu framtíð.

Þar til fyrir 50 árum hefur þetta tíðarinnar ásigkomulag viðhaldizt, að prestarnir, — sem fólkið hefur treyst á, með andlega upplýsingu og vísdóm — hafa allir uppástaðið, að biblían væri fullkomin, og að þær kanónisku bækur væri nóg. Og að það væri ekki nauðsynlegt, að englar töluðu optar til mannanna, eða að þær gáfur og blessanir, sem fundust í kirkjunni, í fyrri daga, skyldu viðhaldast. Fólkið hefur verið rólegt með þessa trú, enda þótt það væri ekki sú minnsta sönnun eða sannsýnileikur fyrir, að það væri svo, og þetta hefur verið og er útbreidd og þjóðleg meining og munnmæli, sem ekkert hefur að styðjast við.

En hin langa þögn er að síðustu brotin. Engla raust hefur aptur hjómað til dauðlegra manna á jörðinni. Og þetta er uppfylling af Jóhannesar opinberun, sem hann fekk, þá hann var landflótta á eyjunni Paþmos. Drottinn sýndi honum í einni sýn, hvað ske skyldi á jörðinni. Á meðal annars sá hann himneskan boðskap til jarðarinnar innbúa. Í 14. kapitula upplýsumst vèr um, hvernig það skyldi ske. Hann segir: Og eg sá annan engil fljúga um miðhimininn, hann hèlt á eilífum fagnaðarboðskap, sem hann kunngjörði innbúum jarðarinnar, allri þjóð, kynkvísl, tungumàli og fólki. Og hann sagði hárri röddu: Óttizt Guð og vegsamið hann, því tími hans dóms er fyrir höndum. Opinb. 14, 6—7. Hversu undarlegt sem þetta sýnist, þá er þó engillinn, sem hèr talast um, kominn til jarðarinnar, með þann eilífa fagnaðarboðskap. Og Guð

hefur gefið fullmakt til að prédika þennan náðarboðskap, fyrir öllum tungumálum og fólki, og hann hefur verið prèdikaður nú í 50 ár, fyrir mörgum þjóðum og fólki, svo að öllum gefist tækifæri, til að heyra þennan frelsandi og aðvarandi boðskap.

En þèr munuð segja: Þetta er einungis ykkar vitnisburður, þèr segið, að engill sè kominn, en vèr vitum ekki hvort það er sannleikur; þèr segið, að hann hafi komið með þann eilífa náðarboðskap, en vèr þekkjum ekkert þar til. Hvaða sönnun getið þér gefið oss, svo að vèr getum fengið fullvissu um, hvort að engill frá himnum er kominn með þennan boðskap? Eg skal segja yður, hvernig þèr, og allir, sem nú lifa, geta fengið fullvissu um, hvort það er kominn guðdómlegur boðskapur, (nefnilega:) sá eilífi fagnaðarboðskapur, sendur med engli til jarðarinnar innbúa. Gjörið yðar himneska föðurs vilja, ákallið hans nafn, og biðjið hann, segjandi í yðar hjörtum: Ó herra, hefur þú vissulega sent þinn engil frá himninum, með þann eilífa náðarboðskap til jarðarinnar innbúa? Hefur þù skipað, að það skuli boðast öllum þjóðum og tungumálunn, undir himninum? Ef þèr gjörið þetta, í hjartans einlægni, skuluð þèr fá fullvissu fyrir yður sjálfa. Máske sumir muni segja: Mun Guð á vorum dögum gefa oss vísdóm, þegar vèr áköllum hann í bæn? Hvar fyrir ekki? Hefur ekki Jesús sjálfur sagt: Biðjið, og mun yður gefast; leitið, þá munuð þèr finna; knýið á, og þá mun fyrir yður upplokið verða? Matt. 7, 7. En vanti einhvern yðar vizku,

þá biðji hann Guð, sem gefur öllum eptirtölulaust og án brigzlyrða, og mun hún honum gefast. En hann biðji með trúnaðartrausti, og efist ekki. Jak. 1, 5—6. Hefur ekki Guð frá fyrstu tíð opinberað sannleikann til sinna barna? Vissulegu hefur hann gjört svo. Og sá sami Guð, sem kenndi sínu fólki í fyrri daga, mun og svo gefa yður þekkingu, ef þèr viljið biðja hann þar um, og þèr ástundið, að gjöra hans vilja. Sumir munu kannske segja: Til þess, að vèr getum snúið oss með slíkri spurningu til drottins, væri gott að vèr fengjum svo margar sannanir, að þær gætu uppörfað oss til að gjöra það.

Eg veit ekki hvað mikið þèr þurfið, því hvað útvortis sönnunum viðvíkur, þá gaf Guð nóg þar af, áður en hans kirkja var innvígð. Hann leyfði ekki, að Mormons bók væri útsend til þjóðanna, til að auglýsast fyrir öllu fólki, fyr en hann hafði gefið órækar sannanir til nokkurra manna; hve margir voru þeir? Fyrst 4 menn: Þýðandi bókarinnar Jósep Smith, Martin Harris, Oliver Cowdery, Davíð Whitmer. Hèr höfum vèr fjögur vitni; hvað sègir Jesús? Við tveggja eða þriggja vitna munn, skulu öll mál staðfestast. En þèr spyrjið: Er ekki mögulegt, að þessum fjórum vitnum hafi skjátlast? Látum oss yfirvega þeirra vitnisburð, og sjá, hvort nokkuð slíkt er mögulegt. Jósep Smith, einn af þessum vitnum, segir, að engill kom niður frá himninum, hans auglit ljómaði sem ljós, og Guðs dýrð umkringdi hann, og þessi engill

skipaði honum að ganga til einnar hæðar, sem heitir Cumorah, ekki langt frá hans föðurs húsi, í bænum Manchester Wayne County, í staðnum New York. Engillinn sagði og svo, að þar skyldi hann finna þær áður umtöluðu uppteiknanir, plötur af gulli, innihaldandi þann eilífa náðarboðskap, eins og hann var forðum boðaður innbúum þessa lands (Ameríku); Jósep hlýddi engilsins skipan, og gekk til þessa staðar, og fann þessar uppteiknanir, á sama stað, sem honum var sagt af englinum i opinberuninni. Var það þà mögulegt, að Jósep væri dreginn á tálar? Engillinn sagði honum enn fremur, að hjá þessum plötum væru verkfæri, kallað Úrim og Túmmim, og með þeim skyldi hann vera í standi til, að útleggja þessi rit á ensku. Máske nokkrir menn segji, að Jósep Smith væri ólærður, og ekki fær um að útleggja rit frá egyptsku, sem þeir lærðustu ekki gátu útlagt; og er það sannleikur; hann hefði ekki getað það, hefði Guð ekki gefið honum þessi heilögu verkfæri Úrim og Túmmim. Ef þèr viljið spyrja, hvað það var, þá voru það heilög verkfæri, sem drottinn hefur haft til að opinbera sinn vilja, til sinna þènara, og sem heyrir til þess heilaga prestdóms, og hann svaraði með þessum verkfærum. Les 2. Mósb. 28, 30, 3. Mósb. 8, 8, hvar það kallast „ljósið og sannleikurinn“. 4. Mósb. 27, 21. 1. Samúelsb. 28, 6. Esra 2, 62—63. Þessi heilögu verkfæri voru gefin Jósep Smith, til að útleggja málið, sem var á töflunum. En þetta hæða og

svívirða þessa tíma kennendur, og sú svo kallaða kristni. Líkir því við sjónpípu og gleraugu, en þeir gætu eins vel hætt drottinn, sem hefur blessað og helgað þessi verkfæri.

Jósep Smith var 15 ára, þegar hann fekk þá fyrstu opinberun, og Guð kallaði hann með sínum engli. Þú vilt máske rengja þetta, lesari góður, og segja, að það sè ótrúlegt, að Guð skyldi kalla svo ungan mann (eða dreng) til að upprètta sína kirkju. En það er ekki meira undarlegt, en þegar hann kallaði Davíð, sem var smaladrengur, til að vera konung yfir öllum Ísrael; eða þá hann kallaði Samúel, sem var þjónustudrengur í drottins húsi, undir umsjón prestsins Elí. Eða þá hann kallaði Jeremías, sem afsakaði sig, vegna æsku sinnar, að flytja Guðs erindi, og vera spámaður þjóðanna. Jeremías 1, 4—6.

Það eru margir hlutir, sem sanna og sýna, að Jósep Smith var sannur spámaður, sendur af Guði; þó var það einn hlutur, framar öðrum, sem strax sýndi það. Það er ein opinberun, sem hann gaf til þeirra 12 postula, — og annara, — sem hann hafði kallað og vígt til þess heilaga prestdóms, 1832. Hann talaði í drottins orða stað, sem þannig hljóða: „Farið út um allan heiminn, og kunngjörið gleðiboðskapinn öllum þjóðum; og til þeirra staða, sem þèr ekki getið komið, skuluð þèr senda mitt orð, og eins og eg sagði til minna postula í fyrri daga, svo segi eg til yðar, því þèr eruð mínir postular, og Guðs æðstuprestar, að hver sem trúir

yðar orðum, og er skírður í vatni, til fyrirgefningar syndanna, skal öðlast þann heilaga anda, og teiknin skulu fylgja þeim sem trúa. Í mínu nafni skulu þeir útreka djöfla, nýjar tungur tala, leggja hendur yfir þá sjúku, svo að þeim batni, þeir sjónlausu fá sjón, heyrnarlausu heyrn, mállausu tala, og ef þeir drekka nokkuð banvænlegt, skal það þeim ekki granda. Sannlega segi og yður, þeir sem ekki trúa yðar orðum, og eru ekki skírðir til fyrirgefningar syndanna, svo þeir megi öðlast þann heilaga anda, þeir skulu verða fordæmdir, og skulu ekki koma í míns föðurs ríki, hvar eg og minn faðir er.“ Og þessi opinberun er í krapti frá þessum tíma, fyrir öllum þjóðum, tungumálum og fólki. Jósep Smith gaf þetta fyrirheit, að teiknin skyldu fylgja þeim, sem tryðu og hlýddu lærdóminum. Ef þær mörgu þúsundir, sem hafa hlýtt þessum lærdómi, hefðu ekki sèð þessi teikn, náðargáfur og blessanir, fylgja þeim trúuðu, mundu allir strax hafa sèð, að Jósep Smith var ekki sendur af Guði. Því þó að hann — eða einhver — prèdikaði þann postullega lærdóm, þá mundu þessi teikn ekki hafa auglýst sig, á meðal þeirra trúuðu, nema fullmaktin væri gefin frá Guði. En þeir heilögu, sem hafa hlýtt þessu, viðurkenna allir, að þeir hafi fengið þann heilaga anda. Og teiknin sýna sig á meðal þeirra, og fleiri þúsundir koma árlega, og láta sig skíra. Er það nokkur prestur, eða kennari, sem þorir að koma fram fyrir fólkið, í allri þeirri svokölluðu kristni, og lofa þeim heilaga anda, og þeim teiknum

og náðargáfum, sem voru i Jesú Kristi kirkju í fyrri daga? Nei; af hverju gjöra þeir ekki þetta? Af því þeir hafa hvorki fullmaktina, nè Jesú Kristi lærdóm, og hafa ekki verið kallaðir af Guði. Einn villumaður gæti gjört teikn og undur, og ært fólkið með fjölkynngi sinni, eins og Símon galdramaður, eða Faraós egyptsku töframenn á Móses dögum; og Jesús segir, að á síðustu dögum muni koma falskristar, sem gjöri stór tákn og undur. Matt. 24, 24. En þèr megið þekkja þá af þeirra ávöxtum, því hvorki geta þeir gefið þann heilaga anda, nè þau teikn og náðargáfur, sem voru í Jesú Kristi kirkju í fyrri daga. Það var ekki Jósep Smith, og þeir 12 postular alleina, sem höfðu fullmakt til að gefa heilagan anda, með handayfirleggingu, og lækna þá sjúku, og allar aðrar blessanir sem um er talað, heldur margir aðrir af þeim síðustu daga heilögu, sem höfðu fengið þann heilaga prestdóm. Og þar fyrir vita allir þeir síðustu daga heilögu, að þetta er það mikla Guðs verk, sem um er talað í ritningunni, að skuli framkoma á þeim síðustu dögum. Þar fyrir eru þeir viljugir að fara út um allan heiminn, og prèdika þennan sanna náðarboðskap fyrir öllum þjóðum, án launa og endurgjalds af mönnum, sem eingir aðrir trúarflokka kennendur vilja gjöra. Jósep Smith fyrir sagði marga hluti, sem nú eru bæði skeðir og óskeðir, og vèr sjáum bókstaflega uppfyllast ár eptir ár. Einn af þessum hlutum var stríðið milli Bandafylkjanna, sem var prentað 13 árum áður

en það skeði, og sem fjöldi veit, að hann sagði, bæði þeir, sem eru í vorri kirkju, og fyrir utan hana.

En látum oss nú víkja til baka til Mormons bókar; hann fullkomnaði útlegginguna frá árinu 1827 til 1830, með þessum heilögu verfærum, Úrim og Túmmim. Gat hann verið dreginn á tálar, þegar hann með töflurnar í sínum eigin höndum, með stærstu eptirtekt, yfirvegaði þá undarlegu skript sem á þeim var. Sèrhver með heilbrigðri skynsemi getur sèð, að undir slíkum kringumstæðum var það ómögulegt, að vera dreginn á tálar, heldur að sá gefni vitnisburður er sannur, og boðskapurinn guðdómlegur.

Nú með tilliti til þeirra annara þriggja vitna, þá vitna þeir, að árið 1829, eptir að skriptin á plötunum var útlögð, opinberaði Guðs engill sig fyrir þeim, íklæddur ljósi og dýrð. Og hann hèlt plötunum í sínum höndum, og fletti þeim blað fyrir blað, og sýndi þeim þá undarlegu skript, sem var á þeim. Og þeir vitna enn fremur, að á meðan þeir yfirveguðu þennan dýrlega hlut, heyrðu þeir raust frá himninum, sem sagði, að skriptin á töflunum væri rètt útlögð fyrir Guðs gáfu og krapt. Og hvað þeir sáu og heyrðu, bera þeir vitnisburð um. Lát mig spyrja, var það mögulegt, að þeir gætu verið dregnir á tálar? Vér gætum eins vel sagt, að allir þeir í fyrri daga, sem sögðust hafa sèð engla, hefðu svikið sig sjálfa. En eg get ekki sèð, að nokkur hlutur geti verið sannari og áreiðanlegri. Það loforð var fyrirfram gefið, að þrjú vitni skyldu

fram koma, til að bera vitnisburð um þessa hluti. Drottinn sendi vissulega sinn engil, þeir sáu hann koma niður frá himninum, þeir sáu ljósið og dýrðina, sem ljómaði frá hans augliti. Þeir sáu plöturnar í hans höndum, og þeir gátu skilið skriptina sem var á þeim. Og þeir heyrðu hans raust, skipandi þeim, að bera vitnisburð fyrir öllu fólki, um það sem þeir höfðu heyrt og sèð. Að vera dreginn á tálar undir slíkum kringumstæðum, er ómögulegt.

Hèr eru allt svo fjögur vitni, sem allir bera vitnisburð um þessa verks guðdómlegleika. Og, sem eg hefi tilfært, segir Jesús: Við tveggja eða þriggja vitna munn, skulu öll mál staðfestast. Þar fyrir uppreisti drottinn ekki sína kirkju, fyr en hann hafði gefið nógar sannanir, til þeirra manna, sem hann hafði útvalið, til að bera vitnisburð um sannleikann.

Jósep Smith var enn fremur skipað af drottni, að sýna þessar plötur átta mönnum öðrum, — fyrir utan þá àður um töluðu, — sem og svo voru vitni til þessara hluta, og þeirra opinberi vitnisburður er, að þeir sáu plöturnar, og þreifuðu á þeim, og þeir sàu þá undarlegu skript, sem á þeim var. Enda þótt að sumir af þeim sèu fallnir frá, og sèu útskúfaðir úr fèlagi þeirra síðustu daga heilögu, þá hefur þó ekki einn einasti af þeim neitað þeim vitnisburði, sem þeir hafa borið, þessu viðvíkjandi. Hèr er 12 manna vitnisburður. Er það ekki nóg sönnun, til að fullnægja

öllum mönnum, hverra hjörtu eru auðmjúk fyrir Guði?

En eg vil vísa yður til enn stærri vitnisburðar; þegar þessi bók (nefnilega Mormons bók) var út gefin, kallaði drottinn þessa menn, til að ganga út á meðal fólksins, til að prèdika þennan náðarboðskap, sem þeir höfðu meðtekið, lofandi þeim, að allir, sem vildu sýna hlýðni við hann, skyldu meðtaka þann heilaga anda, og hann skyldi staðfesta þeirra vitnisburð, fyrir þeim trúuðu; og þegar sá heilagi andi kom yfir fólkið, fekk það fullvissu fyrir sig sjálft, að þessir menn voru þess lifanda Guðs þènarar, og að krapturinn sem hvíldi yfir þeim, var sá heilagi andi, um hvern þeir höfðu lesið í ritningunni. En hvernig vissu þeir þetta? Af því að sá heilagi andi meðdeildi þeim margvíslegar gáfur; hann gaf þeim krapt til að leggja hendur yfir sjúka, og þvinga það vonda í Jesú nafni; og þeir sjúku urðu strax heilbrigðir. Sumir munu segja, að innbirling hafi haft meira eða minna hèr með að gjöra; þeir sjúku hafi ímyndað sèr, að þeir yrðu betri. En eg vitna fyrir yður, í drottins nafni, að ungbörn, — sem ekki gátu haft nokkra innbirling eða ímyndun, — eru læknuð uppá sama máta, og með sama krapti, hver að er þess allmáttuga Guðs kraptur, auglýstur gegnum hans þènara. Guðs þènarar hafa uppá þennan máta verið í standi til, að sannfæra fólkið, og leiða það til þekkingar á sannleikanum. Og þeir, sem hafa meðtekið vora trú, geta sjálfir borið vitnisburð um þennan guðdómlega

sannleika. Þeir hafa fengið óhulta sannfæringu þar um, fyrir þann heilaga anda, sem vitnar um Guðs leyndardóma. Og þannig hefur fólkið öðlast þekkingu um þessa hluti, og þessi vitnisburður er í krapti fyrir allri veröldinni, hvort sem manneskjurnar vilja meðtaka hann eða ekki.

Eg hef nú framlagt fyrir yður sannanir, sem eru nógar, til að uppvekja trúna í yðar hjörtum. Það er 12 manna vitnisburður, fyrir utan mörg þúsund menn og kvinnur, sem hafa meðtekið þann heilaga anda, sem gefur þeim þekkingu um þetta síðusta daga verk, og krapt, til að vitna um þess sannleika. Og þessa fólks vitnisburður talar með hárri röddu til þjóðanna, að Guð hafi opinberast frá himninum, og sent sinn engil til jarðarinnar, með þann eilífa náðarboðskap. Ef svo kröptugur vitnisburður af 12 mönnum, — í sameining við svo mikinn fjölda af mönnum og kvinnum, — er ekki nógur, til að uppvekja trúna í yðar hjörtum, að Guð hafi byrjað sitt stóra og dýrlega verk á vorum dögum, hvað getur þá uppvakið fólkið til þekkingar á þessum hlut? Það getur eingin afsökun verið fyrir þá, sem forkasta þessara öldunga vitnisburði, þeir hafa upplypt sinni raust í mörg ár. Og það má hafa sláandi verkun á hjörtu allra ærlegra manna. Því fyrirhetið er, að ef þèr hafið trú til að ákalla drottinn í bæn, skuluð þèr fá vitnisburð fyrir yður sjálfa; já, skuluð fá fullvissu í yðar hjörtu, að drottinn hefur vissulega fyrir sinn engil komið til jarðarinnar á þessum síðustu dögum,

og að Jósep Smith var spámaður þess lifanda Guðs, og að vor lærdómur er ekki af mönnum, heldur af Guði, og mun verða ilmur lífsins til lífs, fyrir alla sem meðtaka hann, en ilmur dauðans til dauða, fyrir þá sem forkasta honum. 2 Kor. 2, 15—16.

Þar fyrir, sem eg sagði, einn mikið dýrlegur og gleðilegur hlutur hefur skeð á vorum dögum, himininn er ekki lengur aptur lokaður, spámanna raust heyrist aptur á meðal fólksins, heilags anda kraptur og verkan hvílir yfir Guðs þènurum, og hans makt auglýsist á meðal þeirra margvíslegu þjóða, líka sem í fyrri daga. Þeir sjúku eru læknaðir; þeir höltu gánga; þeir blindu sjá; þeir daufu heyra; og Guðs andi er útgefinn yfiir mannanna börn, eins og í veraldarinnar fyrri daga. Er ekki þetta nóg, hvað er það þá, sem getur gjört það? Mun það ske við uppfyllingu spádómanna? Þegar drottins straffandi hönd skal falla á þjóðirnar, og hans óttalega reiði verður opinberuð, til að eyðileggja alla, sem eru óhlýðnir og óguðlegir. Þegar einginn, utan þeir rèttlátu, skulu verða eptir á jörðinni. Þetta verður vitnisburður, sem þeir ekki geta mótstaðið, en slíkur vitnisburður hefur ekki frelsi í för með sèr; það er dómsins vitnisburður, sem skal falla yfir alla, sem eru andvaralausir; á þeim tíma sem þeir hrópa, friður og tryggleiki, þá er snöggleg eyðilegging fyrir þeirra dyrum. Og þannig verður ritningin uppfyllt, sem segir: Eins og Nóa dagar voru, eins mun tilkoma mannsins sonar verða. Matt. 24, 37.

þegar það óguðlega, ólukkulega og óhlýðuga fólk á Nóa dögum, byrjaði að fyrirfarast í vatnsflóðinu, þá gátu þeir sagt: Vèr vitum, að Nói var spámaður, og að boðskapurinn sem hann auglýsti fyrir vorum eyrum, var frá Guði. En það var of seint, þeir forköstuðu boðskapnum, og medhöndluðu hann með skeytingarleysi og fyrirlitningu, þeir vildu ekki ákalla Guð í hjartans einlægni, en völdu heldur, að álita Nóa sem svikara, og afleiðingin var sú, að þeir voru eyðilagðir í því mikla vatnsflóði.

Lesarinn mun máske spyrja: Hafið þèr nokkrar sannanir frá biblíunni, eða spádómunum, til að staðfesta þetta? Vèr svörum, að þær sannanir, sem Guð hefur gefið, (nefnilega:) 12 manna vitnisburður, er nógu stór, til að sannfæra hvern skynsamann mann og kvinnu. Á Nóa dögum höfðu þeir eingar spámannabækur, til að segja þeim ókomna hluti, eða um það mikla vatnsflóð, sem koma skyldi. En ef þeir hefðu haft það, þá hefði þeirra fordæming verið svo miklu stærri. Þeir höfðu ekki nema fjögra manna vitnisburð, þó voru þeir eyðilagðir vegna þeirra vantrúar. Hve miklu fremur mun eigi svo fara fyrir kristni þessa tíma, sem hefur þeirra og annara eptirdæmi, og spádómana, svo vel sem 12 manna vitnisburð, til að staðfesta þennan Guðs opinberaða sannleika.

Spámaðurinn Esaías talar um í 29, 1, að þrengja að einni þjóð — eða Ariel — eins og Jerúsalem; í 4. versi segir hann: Þú skalt niðurlægð verða, meinandi þjóðina, sem skal eyðileggjast,

liggjandi á jörðu skaltu mæla og úr moldardupti tala í hálfum hljóðum; rödd þín skal koma neðan úr jörð, eins og draugs rödd, og þú skalt ýlfra mæðulega upp úr moldinni. Hèr er þá talað um eina þjóð, sem skal eyðileggjast. En hún talar neðan úr jörð, hennar historía — eða frásaga — var tekin úr jörðinni af Jósep Smith, og kallast Mormons bòk, eptir þeirra síðasta spámanni, Mormon, sem skrifaði mest af þeirra historíu, og sem hann gaf sínum syni Moroni, sem skrifaði það síðasta af bókinni. Þessi bók segir frá einu fólki í Ameríku, sem var eyðilagt fyrir meira en 1400 àrum síðan, vegna sinnar vantrúar og óguðlegleika, eins og áður er sagt. Og þeir viltu Indíanar eru þeirra afkomendur; þeir voru af Jóseps ætt, þess Jóseps, sem var seldur til Egyptalands. Þessi bók talar sömuleiðis um þeirra eyðilegging, þegar Kristus var krossfestur; og þar varð myrkur, eins og á Gyðingalandi, og jarðskjálftar, svo margir staðir sukku; og sumir voru uppbrenndir með eldi af himnum. Þeir höfðu frá upphafi haft innbyrðis stríð á meðal sín, og þeir óguðlegu voru eyðilagðir við þennan hegningardóm, skyndilega, og á augabragði, eins og Esaías segir í 5. og 6. versi.

Eptir sína upprisu innvígði Jesús sína kirkju í þessu landi, og útvaldi 12 postula; þar fyrir sagði hann við Gyðingana: Eg hefi aðra sauði, sem ekki eru af þessu sauða húsi; þá byrjar mèr og hèr til að leiða. Þetta átti ekki við heiðingjana, þeir voru ekki af Ísrael. Því hann segir við þá

kanversku kvinnu: Eg er ekki sendur nema til fortapaðra sauða af húsi Ísraels, þ. e. s.: Hann var ekki sjálfur sendur til heiðingjanna, því þeir meðtóku ekki náðarboðskapinn, fyr en eptir hans himnaför, gegnum postulana. Þetta átti við Jóseps kynkvisl, — Indíananna forfeður í Ameríku, — sem ekki voru af Gyðinganna ættkvísl — eða sauða húsi, — sem var ein af þeim töpuðu kynkvíslum. Spámaðurinn segir í 11. versi: Svo að öll opinberan er yður, sem orð bókar þeirrar, sem innsigluð er; sè hún fengin þeim, sem kann að lesa, og sagt: „Les þú þetta", þá svarar hann: „Eg get það ekki, þvi bók þessi er innsigluð". En sè hún fengin ólæsum (eða ólærðum) manni, þá segir hann: „Eg er ekki læs" (eða lærður). Hèr er raustin, sem talar út af jörðinni, orðin að bók; og orð bókarinnar eru fengin lærðum manni. Ekki bókin sjálf, heldur orð bókarinnar, sem bókstaflega skeði, þegar Martin Harris, Jóseps Smiths skrifari fór með afskript af bókstöfunum, sem voru á plötunum, til þess nafnfræga tungumálaspekings, prófessors Anton í New York. Hann þekkti mörg tungumál, bæði ný og gömul. En það var innsiglað og hulið fyrir honum. Drottinn segir: „Með því þetta fólk, — meinandi þá sem lifa á jörðinni, þegar bókin er gefin, — nálgast mig með munni sínum, og heiðrar mig með vörum sínum (einungis), en fjarlægir hjarta sitt langt í burtu frá mèr, og guðhræðsla þeirra er innifalin í mannaboðorðum, sem þeim hafa kennd verið." Það er að öllu leiti

eins og ástand þjóðanna er nú á dögum, í andlegum hlutum og trúarlegu tilliti. Þess vegna sjá, eg vil gjöra þetta fólk að undri, og svo skal kynlega við bregða, að visdómur spekinga þeirra skal undir lok líða, og hyggindi hyggindamannanna hverfa í felur. 14. vers. Visdómur Antons leið undir lok, hans hyggindi hurfu í felur. En drottinn uppreisti sinn þènara Jósep Smith og sendi engla til hans, og gaf honum Úrim og Túmmim, til að byrja þetta síðustu daga verk. Á þeim degi skulu þeir, sem daufir eru, heyra orð bókarinnar, og augu þeirra, sem blindir eru, skulu sjá gegnum myrkur og dimmu. 18. vers. Þetta er bókstaflega uppfyllt, bæði andlega og líkamlega. Það eru mörg þúsund af voru fólki, sem eru vitui þar til, og vita, að þeir blindu hafa sèð, þeir daufu hafa heyrt, og þeir höltu gengið, við það, að þeir eru smurðir með helgaðri olíu í Jesú nafni, við bæn og handayfir-yfirleggingu öldunganna, som hafa fullmakt frá Guði þar til, það er þann heilaga prestdóm; og það eru margir, sem ekki eru af vorri trú, eða kirkju, sem vita, að þetta er sannleikur, og eru sjónarvottar þar til, og hafa gefið sinn skriflegan vitnisburð, til að staðfesta þessa hluti. Hinir voluðu skulu að nýju gleðjast í drottni, og hinir fátæku fagna í hinum heilaga Guði Ísraels. 19. vers. Þeir voluðu gleðjast uppá nýtt í drottni, þegar þeir heyra þann eilífa fagnaðarboðskap, og sjà, að þær blessanir og náðargáfur, sem áður voru í Guðs kirkju, eru uppá nýtt gefnar til jarðarinnar, sam-

kvæmt spádómunum og fyrirheitunum. Og þá fagna hinir fátæku í hinum heilaga Guði Ísraels. Þeir hafa ætið verið móttækilegri fyrir Guðs orð, en þeir ríku. Jesús segir: Auðveldara er úlfaldanum að ganga í gegnum nálaraugað, en ríkum manni inn í Guðs ríki. Matt. 19, 24. Hann sagði Jóhannesi skírara: Fátækum eru guðspjöllin boðuð. Þeir voru auðmjúkir, og þeir, sem drottinn kallar sína sauði, þeir heyrðu hans raust, og fylgdu honum eptir. Það voru þeir, sem vissu, að Guðs ríki var ekki innifalið í mat og drykk, eða vellystingum þessa lífs, heldur í friði og gleði í þeim heilaga anda. Þeir voluðu og fátæku glöddust að nýju, við að heyra orð bókarinnar, sem talaði út af jörðinni, og sem inniheldur þann sama náðarboðskap, sem vèr lesum í nýja testamentinu. Davíð talar um það sama, þar sem hann segir: Trúfesti mun uppspretta af jörðinni og rèttlætið líta niður af himnum. Sálm. 85. Drottinn segir við spámanninn Esekiel: Þú mannsins son, tak þèr kefli, og rist þar á: „Handa Júða ríki og samlagsmönnum þess úr Ísraels ríki“; tak síðan annað kefli og ríst þar á: „Þetta kefli er handa Jósep, það er að skilja, handa Efraim, og öllum þeim Ísraels mönnum, sem eru samlagsbræður hans“; — nefnilega Mormons bók, sem er historía af Jóseps ætt, eða eins og spámaðurinn segir: „samlagsbræður“, sem á við Efraim og Manasse, sem voru Jóseps synir, og þeirra afkomendur. — Legg síðan keflin (eða bækurnar) saman, svo þau verði að einu kefli í hendi þinni. Svo

segir drottinn alvaldur: Sjá! eg tek Jóseps kefli, — meinandi Mormons bók, — sem verið hefur í hendi Efraims, og þar með þær ættkvíslir Ísraels, sem eru samlagsbræður hans, — meinandi Manasse, og hans afkomendur, — og legg þær ásamt honum við kefli Júðaríkis, — meinandi biblíuna, — og gjöri þau að einu kefli (eða bók) og þau skulu vera eitt í minni hendi. Esek. 37, 15—20. Les. Jóseps blessan í 1. Mósb. 49, 22. 5. Mósb. 33, 13—18. Jósep er grein hins frjóvsama viðar, grein ávaxtartrèsins við uppsprettuna; hans greinir vaxa upp yfir vegginn. Hans greinir — það er börn — vaxa yfir vegginn, þ. e. s. fara yfir torfærur og hindranir, eða það stóra haf, til þessa lands, Ameríku, hvar þeir búsettu sig 600 árum fyrir Kristi fæðingu, eins og áður er sagt. Daníel, svo vel sem Esaías, talar um innsiglaða bók. Og þú, Daníel, geym spádóminn og innsigla bókina, allt þar til endinn kemur. Þá munu margir rannsaka hana, og verða vísari hins sanna. En hann sagði: Gakk Daníel! því orðin eru apturlukt og innsigluð, þar til endinn kemur. 12, 4 og 9. Margir hafa beðið Guð um vísdóm til að rannsaka bókina, og orðið vísari hins sanna. Hann segir enn fremur: Einginn af þeim óguðlegu mun skilja þetta, en þeir trúræknu (eða rètttrúuðu) munu skilja það. Daníel 12, 10. Habakuk talar um það sama sem Daníel. Þá svaraði drottinn mèr, og sagði: Skrifa þú spádóminn upp, og graf hann á spjöld, svo skýrt, að lesa megi viðstöðulaust; því spádómurinn

hefur enn fyrir sèr tiltekna tíð, en hann skundar að takmarkinu, og mun ekki bregðast; og þó hann dvelji (dragist), þá vænt hans, því hann mun vissulega framkoma, og ekki undan líða. Tak eptir því, að sá, sem er vantrúaður, hans sál mun ekki þar af farsæl verða; en sá, sem trúir rèttilega, hann mun sæll verða. Habakak 2, 2—5.

Vitnisburður hinna þriggja vitna:

Það veri hèr með vitanlegt fyrir öllum ættum, kynkvíslum, tungumàlum og fólki, til hverra þetta verk mun koma, að vèr, fyrir Guðs föðurs og vors herra Jesú Kristi náð, höfum sèð þær töflur, sem innihalda þessar skriptir, um Nephís fólk, og sömuleiðis um Lamanítana, þeirra bræður, og einnig um Jareðs fólk, sem kom frá turninum Babel, um hvert þar er talað. Og vèr vitum og svo, að skriptin sem var á töflunum er rètt útlögð, fyrir Guðs gáfu og krapt, því hans raust hefur kunngjört oss það; þar fyrir vitum vèr með vissu, að þetta verk er sannleikur. Enn fremur vitnum vèr, að vèr höfum sèð skriptina, sem var á töflunum, og oss var sýnt það fyrir Guðs krapt, en ekki manna. Og sjá, vèr staðfestum, að Guðs engill kom niður frá himninum, og hann hafði töflurnar, og lagði þær fram fyrir augu vor, svo að vèr skoðuðum þær, og skriptina sem var á þeim. Og vèr vitum, að það er fyrir Guðs föðurs og vors herra Jesú náð, að vèr sáum þær, og vitnum vèr, að þessir hlutir eru áreiðanlegir. Þessu næst bauð drottins raust oss, að bera vitnisburð þar um, hvar fyrir

vèr, til að hlýðnast Guðs skipan, vitnum um þessa hluti. Og vèr vitum, að ef vèr erum trúfastir í Kristi, getum vèr haldið vorum klæðum hreinum frá blóði allra manna, og verðum fundnir ósaurgaðir fyrir Kristi dómstóli, og búum eilíflega hjá honum í himninum. Og heiður veri föðurnum og syninum og þeim heilaga anda, hver að er einn Guð.

Oliver Cowdery. Davíð Whitmer.
Martin Harris.

Sömuleiðis þeirra átta vitna vitnisburður:

Það veri hèr með vitanlegt fyrir öllum ættum, kynkvíslum, tungumálum og fólki, til hverra þetta verk mun koma, að Jósep Smith, hinn ýngri, sem hefur útlagt þessa skript, hefur sýnt oss þær um töluðu töflur, hverjar að líktust gulli, og það, sem hann hefur útlagt af töflunum; höfum vèr þreyfað á þeim með vorum höndum, og vèr sáum skriptina þar á, sem allt líktist eldgömlu og mjög undarlega unnu verki. Og þetta vitnum vèr með skynsömum og áreiðanlegum orðum, að ofan nefndur Jósep Smith hefur sýnt oss þær um töluðu töflur, því vèr höfum sèð og þreyfað á þeim, og vitum með vissu, að sá sami Jósep Smith hefur þær. Og vèr setjum vor nöfn hèr undir, til að vitna fyrir veröldinni, hvað vèr höfum heyrt og sèð, og vèr ljúgum ekki, Guð er vort vitni.

Christjan Whitmer. Hirum Page.
Jakob Whitmer. Jósep Smith sá eldri.
Petur Whitmer. Hyrum Smith.
Jóhn Whitmer. Samúel H. Smith.

Sumir vilja kannske segja: þetta voru Jósep Smiths bræður og vinir, sem báru þennan vitnisburð, og sönnuðu þetta með honum, og þess vegna rengjum vèr þetta, og getum ekki trúað því. Ef það er áreiðanlega rètt, að fordæma vitnisburð þessara manna, vegna þess að þeir voru Jóseps vinir, þá má það vera rètt, að fordæma nýja testamentið uppà sama máta, því það er skrifað af Jesú vinum, guðspjallamönnum og postulum, og getur þá ekki verið sannleikur, sem óhætt er að trúa, eða eptir að lifa. Eða eigum vèr að trúa Jesú óvina vitnisburði, að hann væri samverskur og hefði djöful, eða vínsvelgur og ofneytslumaður, og að hann hafi útrekið djöfla fyrir Belsebub? Eg segi nei, látum oss trúa hans vinum, sem um hann hafa skrifað. Eða vilja þeir lúthersku trúa því, sem Lúthers óvinir (eða þeir katólsku prestar) hafa um hann skrifað, eða á hann logið, honum til svívirðingar? Eg held ekki. Svo er það heldur ekki sannleikur, sem Jósep Smiths óvinir hafa um hann skrifað, og á hann logið. En hvað Mormons bók viðvíkur, þá eru margar fleiri sannanir til að staðfesta hana, en eg get hèr skrifað. Hún var útgefin, áður en þjóðirnar vissu, að í Ameríku fundust margir gamlir staðir og sterkar byggingar, sem eru margar mílur á lengd og breidd; sömuleiðis minnisvarðar, og greptrunarstaðir, og margar aðrar fornmenjar, sem eru fundnar af ýmsum mönnum, sem hafa gefið sig út til að skoða landið, en sem þó ekki eru af voru fólki. Einn Indíani, sem elti einu sinni dýr eitt,

inn i skóg nokkurn, kom allt í einu að einum af þessum eldgömlu stöðum. Honum varð mjög bilt við þetta, og flýtti sèr til baka. Þessar frèttir flugu víða út um heiminn, svo að fèlag eitt á Frakklandi sendi þann nafnfræga Professor Raffinesque til Ameríku, til að rannsaka þennan stað. Professorinn leigði þennan Indíana með mörgum fleirum; eptir mikið erfiði við að höggva veg í gegnum skóginn, sáu þeir þennan gamla stað; musteri eitt var mitt í staðnum, og eitt altari í musterinu, sem offur höfðu verið líflàtin á, og hafði það merki af blóði. Frammi fyrir altarinu var einn stólpi alsettur með rúnum (eða bókstöfum), þar af voru 46 sem voru ólíkir hver öðrum; sömuleiðis voru þar myndir af himintunglunum. Sà lærði spekingur horfði á þetta með þegjandi undran, og sá að það var líkt því sem Professor Anton hafði sagt í brèfi sínu til hans, nokkrum árum áður, að fundnar væru plötur með rúnum á af Jósep Smith, og að sèr hefði verið send afskript af þeim með Martin Harris. Sjá Raffinesque: Atlandic Journal (ferðasögu) frá 1832. Hann segir í brèfi sinu til Anton: Eg minnist yðar brèfs fyrir nokkrum árum síðan, er þèr sögðuð, að nú væru fundnar plötur með skript, sem enginn gæti lesið, og sem hefðu merki af himintunglunum. Líka hafa fundist 6 töflur 16. april 1843 í Illinois, af einum manni, sem var að grafa brunn; þessar töflur hafa skript á báðum síðum, sem enginn hefur getað lesið, Þetta til samans, með mörgu fleiru, sýnir augljóslega, að miljónir af siðuðu og

upplýstu fólki hafa byggt Ameríku í fyrri daga, og staðfesta það, sem Mormons bók segir; því hún er þeirra historía (eins og biblían er historía Gyðinganna), og Mormons bók er sannarleg opinberun frá Guði.

Svo margir sem hafa meðtekið þennan boðskap, með auðmjúku og trúuðu hjarta, eru blessaðir með þeim táknum, sem eru fyrirheitin þeim trúuðu. Og vèr getum borið vitnisburð um, að Guð er sá sami, trúin er sú sama, náðarboðskapurinn er sá sami, og allar gáfur og blessanir eru þær sömu; og þeir trúuðu öðlast þessar blessanir nú, eins og í fyrri daga.

Làt mig alvarlega biðja þig um, kæri lesari, að afleggja allar þínar syndir, og auðmýkja þig fyrir þínum föður í himninum, og biðja hann um vísdóm, til að þekkja, hvort það, sem þú hefur lesið, er sannleikur. Og ef þú gjörir þetta, með auðmjúku og einlægu hjarta, mun Guð auglýsa þèr sannleikann, fyrir krapt heilags anda.

---

## SJÖTTI KAPITULI.

Um opinberanir á hinum síðustu dögum, uppfyllta spádóma, Gyðinganna og heiðingjanna ástand og fráfall, eg Nebúkaðnesars draum.

---

Lesari góður, þú munt máske segja, eins og stendur í lærdómsbókinni: þótt einhver nú segði, að hann hefði fengið einhverja nýja, guðlega opinberun, ættum vèr eingan veginn að trúa því, þar eð Guð hefur hvergi lofað, að senda nýja spámenn til mannkynsins upplýsingar. En þetta er ekki að finna í biblíunni; það er eins og aðrar lygahugmyndir og getgátur, sem þeir hafa sjálfir tilbúið. það sveik þá illa á Nóa dögum, að þeir trúðu ekki nýrri opinberun. Máske Guð hafi ekki lofað að gefa neina opinberun, eða þeim hafi verið kennt eins og nú, að þeir skyldu eingri trúa. En Jesús segir, að það skuli verða eins á hinum síðustu dögum, eins og það var á Nóa dögum. það er, þeir verða vondir og vantrúaðir. En drottinn alvaldur gjörir ekkert, nema hann kunngjöri sinn leyndardóm fyrir sínum þjónum, spámönnunum. Amos. 3, 7. þar sem eingin opinberun er, þar

tortýnist fólkið. Salómons orðskv. 29, 18. Það skal ske á hinum síðustu dögum, segir Guð, eg vil úthella af minum anda yfir allt hold; synir yðar og dætur skulu spá, ungmenni yðar sjá sjónir, og öldungar yðar fá draumvitranir. Postulag. 2, 17. Jóel 3, 1. Drottinn segir við spámanninn Jóel: Synir yðar og dætur skulu spá, þ. e. við spádóma, sjónir og drauma, hefur Guð opinberað sinn vilja til mannkynsins. Jóhannesar opinberanir voru sjónir. Nebúkaðnesar dreymdi draum, viðvíkjandi konungaríkjunum allt til enda veraldar. Vitringana og Jósep dreymdi drauma. Jósep dreymdi, að sólin, tunglið og ellefu stjörnur lutu honum. Guð opinberaði konunginum Faraó í draumi, viðvíkjandi þeim 7 nægtar- og hallæris árum í Egyptalandi, og frelsaði þannig landið frá hungursnauð og eyðileggingu, fyrir framsýni Jóseps. Spámennirnir hafa fyrir sagt Guðs vilja og ókomna hluti. Því hann hefur opinberað það sínum þjónum, spámönnunum. Og hann hefur lofað að gjöra það sama á hinum síðustu dögum. Það voru ekki þeir síðustu dagar, þegar Jesús stofnaði sína kirkju í fyrri daga, því það eru meira en 1800 ár síðan. En það skal ske á hinum síðustu dögum, segir Guð; þèr segið, að það eigi einginn að trúa því, og kennið fólkinu að vefengja Guðs fyrirheit, og segið, að hann hafi ekki lofað, að senda nýja spámenn til mannkynsins upplýsingar. Synir yðar og dætur skulu spá, þ. e. s. það verða spámenn og spákonur á hinum síðustu dögum, og þeir mun spá með Guðs anda,

svo það verða opinberanir. Ó, þèr heimskir og tregir í hjarta, að trúa öllu því, sem spámennirnir hafa sagt! Lúkas 24, 25. Hljóta ekki ritningarnar að uppfyllast, og spádómarnir að koma fram, sem Guðs menn töluðu tilknúðir af heilögum anda. En hvernig eiga spádómarnir að skiljast? Allt, sem er talað í berum orðum, eins og það er skrifað. En það sem er talað í orðskviðum og dæmisögum, verður að útleggjast, hvort heldur það eru draumar, sjónir, spádómar eða opinberanir. En eins og það er talað fyrir Guðs anda, svo hlýtur það að útleggjast fyrir þann sama anda.

Glersjórinn frammi fyrir hásætinu merkir þá nýju jörð, þessa jörð, þá hún er endurleyst frá bölvaninni og Satan er bundinn, og allt er eins og það var á sköpunarinnar morgni; þá hún hefur verið skírð, — eða hreinsuð með eldi, — þá Guð èr hennar ljós, og hún ekki lengur lánar sitt ljós frá sólunni; því hún mun þá verða sól, og upplýsa aðra hnetti. Þau fjögur dýr, sem voru full augna, umhverfis og innanvert, þýða dýraríkið. Augu merkja vit, ljós og þekkingu, sem Guð hefur þeim gefið. Vængir merkja flýti, sem þau hafa, til að forða lífi sínu, og að taka sína bráð. Sömuleiðis fuglar og fiskar, sem allt sýnir og prísar Guðs almætti og vísdóm, nótt og dag. Þeir 24 öldungar eru heilagir menn, sem þà voru dauðir, og voru í Guðs paradís. Opinb. 4. kap. Bókin með sjö innsiglum merkir sjö þúsund ár — eða heims aldurinn — og inniheldur Guðs leyndardóma, og vilja og opinberanir,

viðvíkjandi jörðunni og hennar innbúum, sem Jesús mun auglýsa og opinbera. Hann braut upp innsigli bókarinnar, og veitti öllum aðgang til Guðs náðar, með sínum dauða og forþènustu, ef vèr hlýðum þeim lærdómum, sem hann gaf, og innsetti í sína kirkju. Opinb. 5. Bæklingurinn sem Jóhannes át, sem var sætur í hans manni, en beiskur í hans maga, merkir Guðs boð og skipanir til hans, sem hann gladdi sig við að framkvæma, og voru sætar í hans sálu, en hörmungar og þrengingar þessa lífs beiskar að ganga í gegnum. Engillinn segir við hann: Þèr ber aptur að spá gegn þjóðum, lýðum og mörgum konungum. Opinb. 10, 10—11. Hann var þá mjög gamall, nálægt 100 ára; nokkrir halda, að Jóhannes hafi dàið á eyjunni Paþmos, en vèr trúum eins og lærisveinarnir, því Jesús segir við Pètur: Ef eg vil, að hann bíði, þangað til eg kem, hvað kemur það við þig? Því barst sú saga út meðal bræðranna, að þessi lærisveinn mundi ekki deyja. Jóh. 21, 22—23. Og á öðrum stað: Sannlegi segi eg yður, hèr eru nokkrir viðstaddir, sem ekki munu dauðann smakka, fyr en þeir sjà Guðs ríki koma með krapti. Mark. 8, 39. Er ekki þetta nóg til að sýna, að Jóhannes skyldi lifa þangað til frelsarinn kemur? Sumir halda, að hann sè á milli þeirra 10 kynkvísla, sem fèllu frá hlýðni í Róbóams tíð, og sem voru herteknir af Salmanassar, konungi í Assýríu, og síðan burt fluttir við drottins hönd, en einginn veit hvort, fyrir 2500 árum síðan. Ef það er ekki, hvar eru þá þær

þjóðir, lýðir, og mörgu konungar, sem hann skyldi spá fyrir? Því þær 10 kynkvíslir munu koma fram, á hinum síðustu dögum, með undrum og kraptaverkum, því svo er skrifað: Þess vegna, sjáið! Dagar munu koma, segir drottinn, að menn ei framar segja: „Svo sannarlega sem drottinn lifir, sá, sem flutti Ísraelssyni úr Egyptalandi“ heldur: „Svo sannarlega sem drottinn lifir, sem flutti burt niðja Ísraels ættar, og heim aptur, úr landinu norður frá, og úr öllum löndum, hvert eg hrakti þá“; og þeir skulu búa í sínu landi. Jerem. 23, 7—8. Þetta sýnir ljóslega, að það verður álitið meira kraptaverk, þegar drottinn samansafnar Ísrael á hinum síðustu dögum, en þá hann aðskildi hafið rauða, og útleiddi þá af Egyptalandi. Þetta merkir ekki Gyðingana eina, heldur allan Ísrael. Því svo er skrifað á öðrum stað: Samt vil eg á síðan safna yður öllum saman, þèr Jakobs niðjar! Eg vil saman safna eptirleifum Ísraelsmanna; eg vil saman safna þeim í eitt, eins og sauðfè í kvíum, eða hjörð í fjárhúsi; þar skal verða kliður mikill af mannmergðinni. Eitt sinn mun nokkur sá upp rísa, sem brjóta mun hlið á fyrir þá; þá skulu þeir ryðjast fram, fara í gegnum hliðið og ganga út; skal konungur þeirra fara fyrir þeim, og drottinn vera í broddi fylkingar þeirra. Mikka 2, 12—13. Þeir skulu búa í sínu landi, Palestína (Gyðingalandi), sem Gyðingar eru nú að safnast til. En þær töpuðu kynkvíslir skulu koma frá norðurlandi, og drottinn skal vera í broddi fylkingar þeirra, og

einhver á að brjóta hlið á fyrir þá, eða útleiða þá. Ef að Jóhannes átti að lifa þangað til frelsarinn kæmi, þá gæti hann verið þessi maður. En hvernig sem því er varið, þá er hitt víst, að þeir skulu koma frá landinu norður frá; og drottinn mun gjöra undur og kraptaverk fyrir þá.

En látum oss nú aðgæta nokkra spádóma, sem bókstaflega eru uppfylltir, eins og það var talað. Nói spáði um vatnsflóðið eptir drottins orði. Því sjá! eg læt vatnsflóð koma yfir jörðina, til að tortýna öllu holdi undir himninum, sem lífs andi er í; allt sem á jörðinni er, skal deyja. 1. Mósb. 6, 17. Þetta skeði eins og það var talað, það gjörði ekki sannleikann að eingu, þó einginn vildi trúa því. Þá sagði hann (drottinn) til Abrahams: Vita skaltu fyrir víst, að þinn ættleggur mun verða framandi í því landi, sem hann á ekki; þar munu menn þjá hann í 400 ár; en eg mun líka hegna þeirri þjóð, sem þeir verða að þjóna, og þar eptir skulu þeir fara þaðan með mikil auðæfi. 1. Mósb. 15, 13—14. Þetta skeði og svo bókstaflega. Móses var sendur af Guði, til að útleysa þá frá Egyptalands þrældómi. Ef þú ekki veizt, lesari góður, hvað opt drottinn refsaði og eyðilagði — meira og minna, — sitt fólk, Ísrael, sem heila þjóð, þá var þetta fyrsta skiptið, sem drottinn talaði um til Abrahams. Annað skiptið var, þegar Salmanassar, konungur í Assýriu, kom þeim 10 kynkvíslum í fangelsi, þá þær fèllu frá hlýðni í Róbóams tíð. 1. Kongb. 12 kap. Í þriðja sinn

var það, þá Nebúkaðnesar nærri því eyðilagði Jerúsalem og Gyðingana, og herleiddi þá í 70 ár. Það fjórða var, þá Antíokíus, Grikkjanna konungur, færði 600,000 Gyðinga í þrældóm, eptir að þeir voru komnir til baka, frá þeirri Babýlonisku herleiðingu. Hið fimmta skiptið var, þá Títus eyðilagði Jerúsalem, og umsàtrið varaði í 146 daga, þá 1,100,000 dóu í Jerúsalem, fyrir hungurs neyð og sverði, og 95,000 voru seldir eins og fè á götunum í Róm. Les nú þann 28. kapitula í fimmtu Móses bók, og sjá hvað Móses sagði þeim, ef þeir ekki hlýddu drottins orði, og muntu þá meðkenna, að það hafi uppfyllst bókstaflega. Þó voru Ísraels börn þar fyrir utan opt undir ánauðaroki, bæði Filisteanna og annara þjóða, og drottinn sjálfur straffaði og eyðilagði þá með plágu og drepsótt þrisvar sinnum; 14,700 voru eyðilagðir, þegar fólkið möglaði á móti Móses og Aron, vegna eyðileggingar Kóras, Datans og Abirams. 4. Mósb. 16; annað skipti, þá lýðurinn drýgði hórdóm með dætrum Móabítanna og 24,000 fyrirfórust í þeirri plágu. 4. Mósb. 25. Þriðja skipti, þegar Davíð lèt telja fólkið og 70,000 voru drepnar. 2. Samúelsb. 24. Fjórða skiptið var það, sem Jesús talaði um, þegar hann sagði: En nær þèr sjàið Jerúsalem umkringda af herflokkum, þá vitið, að hennar eyðilegging er í nánd; sá sem þá er í Júdealandi, flýji hann á fjöll. Lúk. 21, 20—22. Á öðrum stað: Hèr mun ekki steinn yfir steini standa, sem ekki verði niður brotinn. Þegar Gyð-

ingar sáu, að staðurinn mundi verða unninn, földu þeir sitt silfur og gull í múrnum, sem varð uppvíst, og þar fyrir var þar ekki steinn yfir steini. En Jósephus sagnameistari fekk leyfi af þeim rómversku herforingjum, til að taka nokkuð af þeirra ritum, áður en musterið var brennt. Elías spáði, að ekki skyldi rigna í þrjú ár og sex mánuði; og það skeði eptir hans orði. Hasael hinn sýrlenzki kom til Elísa, til að láta hann spyrja drottinn viðvíkjandi sínum herra, konúnginum á Sýrlandi, sem var veikur. Og guðsmaðurinn starði lengi á hann og grèt. Þá mælti Hasael til hans: Hví grætur minn herra? Og hann mælti: Af því að eg veit, hvað illt þú munt gjöra Ísraelssonum; þú munt brenna þeirra borgir, og drepa æskumenn þeirra með sverði, og sundur merja þeirra börn, og skera þeirra þunguðu konur í sundur. Hasael svaraði: Hvað er þinn þræll, hundur sá, er þetta skyldi gjöra. Og Elísa mælti: Drottinn hefur sýnt mèr þig sem konung í Sýrlandi. 2. Kongb. 8, 8—14. Allt þetta skeði, sem guðsmaðurinn sagði. Þegar Jósúa hafði eyðilagt staðinn Jerikó, sagði hann: Bölvaður veri sá maður í augliti drottins, sem uppbyggir þennan stað; þegar hann leggur grundvöll hans, kosti það hans frumgetna son, og þegar hann reisir hans hlið, kosti það hans yngsta son. Jósúa 6, 26. Staðurinn lá í eyði langan tíma, því einginn þorði að uppbyggja hann af ótta fyrir að missa sinn frumgetna og yngsta son. Þetta uppfylltist bókstaflega. Sjá 1. Kongb. 16, 34.

það mundi útgjöra heila bók, að skrifa það, sem er bókstaflega uppfyllt af spádómunum.

En látum oss þessu næst athuga nokkra spádóma um frelsarann. Sjá! mey nokkur mun barnshafandi verða og son fæða; hann mun hún heita láta „Immanuel“. Esaías 7, 14. Betlehem skyldi vera hans fæðingarstaður, því að svo er skrifað af spámanninum Mikka. 5, 1. Af Egyptalandi kallaði eg son minn. Hósías 11, 1. Og hann fór annann veg til baka, og settist að í Nazaret; svo það rættist sem spámaðurinn segir, að hann skyldi naðverskur kallast. Matt. 2, 23. Hann reið inn í Jerúsalem, því að spámaðurinn segir: Sjá! þinn konungur kemur til þín, ríðandi á ösnufola. Sakarías 9, 9. Matt. 21, 5. Á honum var eingin fegurð, hann var fyrirlitinn og af mönnum yfirgefinn, líkur manni þeim, er menn byrgja fyrir andlit sín, hann bar vor sár, og lagði á sig vor harmkvæli; og vegna vorra misgjörða var hann særður, og legstaður hans var látinn vera hjá ríkum manni. Esaías 53. kap. þeir brutu ekki hans bein, en þeir skiptu hans klæðum, og vörpuðu hlutkesti um hans kyrtil; hann var seldur fyrir 30 silfurpeninga, og upp reis á þriðja degi úr gröfinni, fyrir utan forrotnan. Ef Gyðingar hefðu trúað þessu, eins og það var skrifað, þá hefðu þeir vitað, hvern þeir krossfestu. En þeir hafa annaðhvort ekki trúað spádómunum, eða útlagt þá andlega, eins og kennendur þessa tíma. Og þar fyrir villtust þeir, og skyldu ekki ritningarnar, og þekktu

ekki sinn vitjunartíma; og alþýðan trúði þeim skriptlærðu og höfuðprestunum, og hrópuðu hans blóð yfir sig og sín börn. Þannig er margt bókstaflega uppfyllt, eins og það var talað. Er það þá ekki skynsamlegt og áreiðanlegt, að trúa öðrum spádómum bókstaflega, eins og þeir eru talaðir? Þar fyrir, þegar engillinn kom með þann eilífa fagnaðarboðskap til Jósep Smiths, þá var það samkvæmt því, sem Jóhannes sá, á eyjunni Paþmos, og er bókstaflega uppfyllt, eins og það var talað. Sömuleiðis hefir samansöfnun Guðs fólks byrjað á hinum síðustu dögum að uppfyllast, bæði Gyðingar til Palestína, og heiðingjar til Síon. Vèr sjáum Gyðingana í 1800 ár sundur dreifða um allan heim, án spámanna og prestdóms, innblásnum af Guðs anda, konga og kennenda, til að leiða þá til þekkingar á Guði. Eingin raust frà þeim brennanda runni. Eingin reiðarslög frá Sínai fjalli. Einginn innblástur heilags anda, til að þekkja veg sáluhjálparinnar. Ekkert kunngjört frá því eilífa hásæti. Ekkert opinberað við sjónir, engla, eða drauma, til að leiða þá á lífsins veg. Þeir eru hataðir og fyrirlitnir af heiðingjunum. Þeirra musteri liggur í eyði. Þeirra fórnir ávaxtarlausar. Þeirra prestdómur kraptlaus. Þeirra staður og land sem eyðimörk. Vèr segjum við Gyðingana: Hvar fyrir er allt þetta? Er ekki mögulegt, að forfeður yðar hafi aflífað þann sanna Messias, og Guðs spámenn, og drottins reiði og hefnd hafi komið

yfir yður? Nei, segja Gyðingar, vèr erum Abrahams börn, Ísraels fólk, Guðs sanna kirkja.

Spámenn og opinberanir var nauðsynlegt á fyrri dögum, en þeirra þarf ekki lengur með. Vèr segjum við þá aptur á ný: þèr farið villt; yðar forfeður krossfestu þann sanna Messías, því að spádómarnir um hann eru bókstaflega uppfylltir gegnum yðar feður, og þèr eruð villtir frá sannleikans vegi. það fer fyrir yður, eins og yðar fólki á dögum Elí. Drottinn gaf ekki opinberun, því Elí synir og prestarnir ræntu offrunum, og drýgðu hórdóm með kvinnunum, sem komu að biðjast fyrir. 1 Sam. 2 kap. Konungurinn, Sál, fekk eingar sjónir eða drauma, og ekki neitt að vita, hvorki við Úrim eða Túmmim, eða spámennina; því hann hlýddi ekki drottins orði, og ríkið var rifið frá honum. Svoleiðis hefir Guðs ríki verið rifið frá yður, og þar fyrir opinberar hann ekkert eða svarar yður. það var einginn spámaður hèr um bil 397 ár, frá Malakías til Jóhannesar skírara, og þegar hann kom, urðu þeir að umvenda sèr, og skírast til syndanna fyrirgefningar; það voru allir sem játuðu syndir sínar. Gyðingar trúðu skírninni, því hún hafði verið meðal Guðs fólks frá Móses dögum. Páll segir: Og þeir voru til fylgdar við Móses allir skírðir í skýinu og hafinu. 1 Kor. 10, 2. þegar Gyðingar sendu frá Jerúsalem presta og Levíta, til að spyrja Jóhannes, hver hann væri, þá svaraði hann: Ekki em eg Kristur, ekki Elías, og ekki spámaður; þeir sögðu þá við hann: Af hverju skírir

þú þá, ef þú ert ekki Kristur, nè Elías, nè spámaður? Jóh. 1, 19—26. Meiningin er þessi: Hvern prestdóm og fullmakt hefir þú að skíra, fyrst þú ert ekki Kristur, Elías nè spámaður? Af þessu er auðskilið, að Elías og spámennirnir hafa skírt í fyrri daga, og allir vita, að Jesús hafði ekki þá byrjað sitt kennimannlega embætti, eða stofnað sína kirkju; þar af geta allir sèð, að þessi skírn var gamla testamentisins lærdómur. En Gyðingarnir voru óguðlegir, og höfðu aflífað spámennina, og grýtt þá, sem til þeirra voru sendir. Þar fyrir sagði Jóhannes, þegar hann sá marga koma til sinnar skírnar: Þèr nöðrukyn, hver hefir kennt yður að umflýja tilkomandi hegningu? Matt. 3, 7. Þegar Jesús kom, höfðu þeir höndlunarstað í musterinu, sem Jesús kallar ræningjabæli. Þeir voru aðskildir í trúarflokka, Sadúsea og Farísea, þeir síðarnefndu trúðu upprisunni, og að englar og andar væru til. Þar fyrir kallaði Páll í ráðinu: Eg er Farísei og Farísea sonur; vildi hann þannig gjöra þá sundurlynda, þegar þeir ætluðu að slíta hann í sundur. Þeir voru stoltir hræsnarar, fyrirlitu tollheimtumenn og samverska; þeir útsugu hús ekkna og föðurlausra, og voru blindir blindra leiðtogar. Og Jesús segir: Þèr höggormar og nöðrukyn, hvernig getið þèr umflúið helvítis dóm? Matt. 23, 33. Og þeirra hljóð og höfuðprestanna tóku yfir. Þeir báðu Pílatus, að hafa varðmenn við gröfina, því þessi svikari hefði sagt, að eptir þrjá daga mundi hann upprísa. Og

þegar þeir vissu, að hann hafði upprisið, þá keyptu þeir varðmennina til að ljúga, en vildu ekki gefa Guði dýrðina og meðkenna sannleikann. Og eptir að hafa sèð öll teiknin við hans dauða, og spádómana uppfyllast bókstaflega, voru þeir þó svo samvizkulausir og forhertir, að ekki eru dæmi til. Þeir voru lítið betri með að trúa nýrri opinberingu, en kristni þessa tíma. Páll talar um ferð sína til Damaskus og hvernig Jesús opinberaðist honum á veginum, og bauð honum að vera hans vottur til allra manna, um það sem hann hafði heyrt og sèð. Þá fleygðu Gyðingar klæðum sínum, og jusu mold í lopt upp, og sögðu: Burt með þennan, það hæfir ekki að hann lifi. Postul. g. 22, 22—23. Þegar Stefàn sá himininn opinn, og Jesúm sitja til hægri handar Guði, þá grýttu þeir hann þar fyrir. Postulg. 7, 56—57. Þegar Jesús sagði: Eptir þetta munuð þèr sjá mannsins son sitja til Guðs hægri handar, og komanda í skýjum himins. Þá reif hinn æzti prestur sín klæði og mælti: Hann guðlastar; hvað lízt yður? En þeir kváðu hann allir dauða sekan, hræktu í andlit honum og slógu hann. Matt. 26, 64—67. Þannig var opinberunum tekið í þá daga, þegar Jesús kom til fólks síns. Og þannig er þeim tekið á þessum dögum, þegar Guð hefir aptur opinberað ríkisins fagnaðarboðskap til allra þjóða, tungumála og fólks og sent engil með hann, eins og hann hefir lofað. Þegar Jesús spurði sína lærisveina, hvern segir fólkið mig að vera, þá

svöruðu þeir: Sumir Jóhannes skírari, aðrir Elías, og enn aðrir Jeremías eða einn af spámönnunum. Þá mælti hann: En hvern hyggið þèr mig vera? Honum svaraði Símon Pètur: Þú ert Kristur, sonur ens lifanda Guðs. Jesús mælti: Sæll ert þú, Símon Jónasson, hold og blóð hefir ekki opinberað þèr þetta, heldur minn faðir á himnum. Eg segi þèr, að þú ert Pètur (hellusteinn), og á þessari hellu vil eg byggja mína kirkju, og helvítis makt skal aldrei á henni sigrast. Matt. 16, 13—19. Þessi steinn sem Jesús talar um, er opinberun. Þó sumum kunni að sýnast, að helvítis makt hafi fengið yfirhönd, þar eð postularnir voru deyddir, og Guðs kirkja var eyðilögð, þá er það víst, að þeirra sálir voru teknar til Guðs og hans hásætis með þeim heilaga prestdóm, og fullmakt, sem þeir höfðu meðtekið. Vèr segjum við þá kaþólsku: Jesú Kristi kirkja hefir ekki hætt að drottna, ekki heldur er Pèturs tilvera að engu orðin, en bæði kirkjan og Pètur eru á himnum, þar er helvítis makt og páfadæmið getur ekki haft framar yfirhönd yfir þeim. Helvítis makt hefir haft og mun hafa yfirhönd yfir þeirri kaþólsku hóru, og öllum hennar dætrum. En hvað Jesú postullegu kirkju viðvíkur, þá hvílir hún óhult í himninum, og þar mun hún verða, þangað til sú fráfallna kaþólska kirkja með öllum hennar páfum og biskupum, samt öllum hennar hóru-dætrum, hefir liðið það straff sem illska þeirra hefir til unnið.

Guð hefir frá upphafi veraldar, á öllum tímum, — þegar hans kirkja hefir verið á jörðinni, — auglýst og kunngjört sinn vilja með opinberun. Hold og blóð hefir ekki opinberað þèr þetta, heldur minn faðir á himnum, segir Jesús; og á þessari hellu vil eg byggja mína kirkju. Hann segir: Eg hef ekki talað af sjálfum mér, heldur hefir faðirinn, sem mig sendi, gefið mèr boðorð um það, hvað eg skyldi segja. Joh. 12, 49. Guð opinberáði Jesú, hvað hann skyldi segja. Jesús opinberaði það til sinna postula og lærisveina; og eptir sína himnaför auglýsti hann sinn vilja fyrir sinn heilaga anda, sjónir, drauma, engla og spádóma. Guð auglýsti sinn vilja til Gyðinganna — eða Ísraels þjóðar — í fyrri daga, uppá sama máta, með opinberunum. En Gyðingar trúðu ekki opinberunum, eða að spádómarnir uppfylltust bókstaflega — eins og kristni þessa tíma, — þeir (Gyðingarnir) eru þær náttúrlegu greinir, sem voru af brotnar. En heiðingjarnir voru þeir villtu kvistir, sem voru gróðursettir á það sanna víntrè. Þeir meðtóku Guðs orð, og kristnuðust við postulanna kenningu, og teiknin fylgdu þeim sem trúðu, eins og nýja testamentið ber vitni um. Lesarinn mun vita, að nálægt 40 árum eptir Kristi himnaför, var Jerúsalem eyðilögð, og þá dóu 1,100,000 af hungri og fyrir sverði í Jerúsalem, og 95,000 voru fluttir herteknir til Róm, eins og áður er sagt. Það voru heiðingjarnir, sem aflífuðu postulana, og eyðilögðu Guðs kirkju; þeir eru drukknir af blóði

þeirra heilögu. Þeir hafa umbreytt tímum og lögum og höfuðatriðum trúarinnar. Þeir sneru eyrum sínum burt frá sannleikanum, og sneru sèr að hègiljum. Þeir þoldu ekki þá heilsusömu kenningu, heldur söfnuðu sèr kennöndum, eptir því sem eyrun klæja. Þeir hafa skin guðhræzlunnar, en afneita hennar krapti. Þeir eru sú mikla Babýlon, móðir hórkvenna og viðurstygða jarðarinnar. Heiðingjarnir hafa svikið allar þjóðir, með því að umbreyta lærdómum og höfuðatriðum trúarinnar, sem Jesús innsetti í sína kirkju. Heiðingjarnir bera makt og herradæmi yfir jörðinni inn til þessa dags. Og þessir heiðingjar meðkenna sig til þess svokallaða kristindóms. (Það kallast allt heiðingjar í ritningunni, sem ekki voru af Ísraels húsi).

Það rómverska ríki voru járnfæturnir á Nebúkaðnesars líkneskju, eða það fjórða dýrið, sem Daníel sá. Dan. 7, 7. Það hafði 10 horn, sem þýðir 10 konunga ríki, það sama sem þær 10 tær á Nebúkaðnesars líkneskju. Og eitt horn spratt upp á milli þeirra, og til þess að stikill þessi kæmist fyrir, voru þrjú af hornunum slitin upp; þessi stikill hafði manns augu, og talaði guðlöstunaryrði, sjá 8. vers; stikill þessi hèlt orustu við þá heilögu, og hafði sigur yfir þeim. 21. vers. Það er víst, að páfinn er þessi stikill, sem að síðustu hèlt orustu við þá heilögu, og yfirvann þá. Opinb. 13, 1—8. Jóhannes sá eitt dýr, sem drekinn (það er djöfullinn) gaf sitt vald og mikil yfirráð. Það var það rómverska ríki. Því var lofað að herja á

heilaga og sigra þá; því var gefið vald yfir allskyns kynkvísl, fólki, tungumàli og þjòð. 7. vers. Eg sá eitt annað dýr, það hafði tvö horn, 11. vers; þetta sýnist að vera þær grísk- og rómverskkaþólsku kirkjur, sem komu af þeirri rómversku makt og páfadæmi. það fer öllu því sama fram, sem hið fyrra dýrið, það afvega leiðir þá, sem á jörðu búa. þeir rugla setningunum, brjála boðorðunum, og rjúfa hinn nýja og eilífa sáttmála; hafa ekki þessar kaþólsku kirkjur brjálað nýja testamentisins lögmáli, sem er hinn eilífi sáttmáli, þeir lærdómar, sem Jesús innsetti í sína kirkju? Er ekki dýrsins mynd og líkneskja þær prótestantisku kirkjur, sem meira eða minna líkjast þeirri miklu hóru, kaþólskunni, og eingar hafa þann postullega lærdóm í sinni fyllingu, og allar selja þær sína lærdóma fyrir peninga. Og allar drepa þær og ofsækja hver aðra, sem um má lesa í veraldar historíunni, um trúarbragða stríðin. Hafa þær ekki meðtekið dýrsins merki á sína hönd, með að úthella saklausu blóði? Jesús segir: þar af skulu allir þekkja, að þèr eruð mínir lærisveinar, að þèr elskið hver annan. Nema þèr sèuð eitt, eruð þèr ekki mínir. þetta var mark og einkenni á Guðs fólki og hans kirkju. En það mótsetta má vera dýrsins og þess líkneskju merki og einkenni. Dýrsins tala er 666, sem sumir meina að sèu allir trúarflokkar, sem hafa verið og eru og munu verða, sem ekki hafa Jesú Kristi lærdóm. Margir af þeim hafa átt sèr stuttan aldur; þeir hafa þotið upp eins og skollasveppur, og

margir dáið út, og fölnað uppá líkan máta. Allir þessir trúarflokkar hrópa herra, herra, en hvorki þekkja þeir hans vilja, nè vilja hlýða honum, þá þeir heyra hann.

Hundrað árum eptir Krist er sagt, að allir postularnir hafi verið látnir, og frá þeirri tíð til 323 innleiddust í kirkjuna margar kreddur, serimóníur, hjátrú, hègiljur og mannasetningar. En þrátt fyrir allt þetta voru margir auðmjúkir og trúfastir Jesú Kristi eptirfylgendur, sem hèldu fast við þann postullega lærdóm, og sem aðnutu náðarboðskaparins blessana eg náðargáfna, sem tilheyra þeim rètttrúuðu. Því svo lengi sem þeir heilögu voru hataðir og ofsóttir, voru þeir auðmjúkir og þeirra dagfar heilagt fyrir Guði. En árið 323 tók Konstantín hinn mikli stjórn og yfirráð. Hann samþykkti og gjörði að einu valdstjórn og kennendur; hann bætti við laun presta, og gaf þeim takmarkalítil yfirráð, og tók sèr sjálfum biskups titil, og frá þessum tíma sjáum vèr kristilega trú og lærdóma til síðu setta. Á þessu sama ári 323 var Nikeu stóra þing saman kallað; voru þar 318 biskupar, prestar og djáknar samtals 2,048. Og á þessu stóra þingi var ekki nóg af Guðs anda innblásnum mönnum, til að fá opinberun, til að slíta þrætur manna, viðvíkjandi lærdómum og trúaratriðum, svo mannlegur vísdómur var það eina, sem þeir höfðu að treysta á. Og í þessum kringumstæðum var Nikeanna trú og kreddur innleidd, og allir þvingaðir til að hlýða þessum

mannaboðum, eða verða útlægir að byrja með, og síðan dauða sekir. Kirkjunnar formenn voru nú sá hæsti rèttur, og yfir valdstjórninni, en Satan yfir báðum, í staðinn fyrir postula, spámenn, evangelista, hirða og lærifeður, svo hinir heilögu yrðu hæfilegir til framkvæmdarsamrar þjónustu, Krists líkama, — eða kyrkju, — til uppbyggingar. Þeir höfðu fangelsi, sverð og eld, og voru settir í sjóðandi olíu, var kastað fyrir villudýr, og flest annað sem grimmdarfullt hyggjuvit gat uppfundið og í frammi haft, svo hinir kristnu yrðu hæfilegir, að hlýða þessum mannaboðum, sjá Hoster blaðsíðu 126. Þetta staðfestir sá nafnfrægi sagnameistari doktor Mosheim, í sinni fræðibók, þar sem hann segir, að árið 570 hafi allar andlegar gáfur og blessanir, sem áður voru í frumkirkjunni, og sem tilheyrðu þeim rètttrúuðu, ekki fundist lengur á meðal þeirra svokölluðu kristnu. Flestir sagnameistarar bera sama vitnisburð, að á sjöttu öld hafi Jesú Kristi kirkja verið eyðilögð, og ekki fundizt nein merki eða teikn hans kirkju lengur. En doktor Mosheim segir, að það var 570. Jóhannes segir í Opinberingarbókinni 12, 6, að konan, sem fæddi sveinbarnið (meinaudi Jesú Kristi kirkju), flúði á eyðimörk (það er hún var burt tekin af jörðinni), og þar skyldi hún vera 1260 daga, sem þýðir 1260 ár; legg nú 570 ár til 1260, og vill þà kom út árið 1830. Og það er alkunnugt, að Jesú Kristi kirkja, af síðustu daga heilögum, var innvígð

árið 1830. Og sá eilífi náðarboðskapur er gefinn aptur til jarðarinnar í sinni fyllingu.

Árið 606 var Bonifacius þriðji vígður, sem yfirbiskup kirkjunnar. Og allir sagnameistarar og historíuskrifarar bera sama vitnisburð, að frá hans tíð, og til Martin Lúthers siðabótar, sem er yfir 800 ár, hafi margir villulærdómar, hjátrú, lauslæti, og afguðadýrkan, viðgengizt í þeirri svokölluðu kristni. Ekkert er augljósara, en það stóra fráfall. Kristnin tapaði embættismönnunum, lærdómunum, andans gáfum og fullmaktinni, og var ekki lengur meðkennd af Guði.

En látum oss aðgæta hana eptir siðabótina af Lúther. Hann var fæddur 1483, í Eisleben, sýslunni Mansfield á Saxlandi, á Þýzkalandi. Ein stór orsök til siðabótarinnar var, að Tezel seldi syndakvittunar brèf. Lúther brenndi þann 10. desember 1520, í margra augsýn, þær skriptir, sem páfinn Leó sá 10. hafði útgefið à móti honum, sem var, að hann væri samkundurækur frá þeirri kaþólsku kirkju. En nú kemur spursmál, hvar fekk Lúther sína fullmakt og prestdóm, til að prèdika sinn lærdóm? Hann gat ekki haft neina fullmakt frá þeirri kaþólsku kirkju, — eða pàfadæminu, — því hún hafði einga nema frá Satan, og hann var útskúfaður frá þeirri kaþólsku kirkju. Hvar fekk hann þá sína fullmakt, eða þann heilaga prestdóm? Sumir munu segja, að hann hafi fengið það frá Guði. En það gat ekki verið vegna tveggja orsaka. Fyrst, hann meðkenndi ekki neina opinberun frá

Guði, eða innblástur heilags anda, því þetta er sá einasti vegur sem Guð opinberar sinn vilja til mannanna. Drottinn alvaldur gjörir ekkert, nema hann kunngjöri sinn leyndardóm fyrir sínum þjónum, spámönnunum. Amos 3, 7. Annað: hann innvígði ekki sína kirkju — eða trúar flokk — uppá sama máta sem Kristur, hann hafði einga postula, eða spàmenn, hirða og lærifeður; hann neitaði andans gáfum og opinberunum, hann skírði ekki með niðurdýfingarskírn, til fyrirgefningar syndanna, þá sem voru komnir til vits og ára, hann gaf ekki handayfirleggingu til móttöku heilags anda; hann lagði ekki hendur yfir þá sjúku, heldur sendi eptir lækni, og þèr kennið, að það sè allt synd, sem ekki er samkvæmt Guðs orði. Allt þetta sýnir, að hann var ekki sendur af Guði. Einginn af hans eptirfylgjöndum hefur andans gáfur, eða teikn Kristi kirkju. Svo vèr sjáum, að hann, svo vel sem sú rómverska kirkju, kenndi annað evangelíum en postularnir, og munu koma undir Páls bölvan, þar sem hann segir: En þó vèr, eða engill frá himni, boðaði yður náðarlærdóminn öðruvísi, en eg hefi kennt yður, hann sè bölvaður. Gal. 1, 8. Bætti Kalvín það nokkuð? Nei, heldur þrengdi hann, eins og sú stóra hóra, sú rómverska makt, sínum lærdómi fram með sverði og eldi, svo vèr sjáum Servetus og Roðgeir brennda, og marga aðra líflátna, sem ekki vildu hlýða því nýja evangelíó. Mismunurinn á höfuðatriðum trúarinnar og embættismönnunum í þeim prótestantisku kirkjum og Kristí

kirkju, er þessi: Kristi kirkja hefur postula, spámenn, guðspjallamenn, hirða og lærifeður, sem leiddu kirkjuna eptir innblæstri heilags anda, og opinberunum. En hinir hafa lærða menn, að prèdika lærðra manna uppáfundningar og boð. Í staðinn fyrir heilagan anda, til að leiða þá í allan sannleika um Guðs vilja, hafa þeir háskóla, til að læra ýmsra manna getgátur og hugmyndir um trúarlærdómana, og þann bezta máta að útleggja allt andlega, og það sem fólk vill helzt heyra; í staðinn fyrir að kenna sem Guðs þènarar í þeirri fyrstu kristni, án kaups og peninga, hafa þeir frá 200 til 50,000 ríkisdali árlega. Fyrir heilags anda gáfur hafa þeir vonarsæti og bænabekki, hvar þeir segja að andans gáfur komi yfir sig. Í staðinn fyrir ljós og þekkingu, vísdóm, spádóma og opinberun, hafa þeir „kannske“, „eg held“, „það getur verið“, og svo fr. v. Vel hefur postulinn Påll sagt: Þann tíma mun að bera, að menn ekki þola hina heilsusamlegu kenningu, heldur safna sèr kennöndum eptir girndum sínum, eptir því sem eyrun klæja; og snúa eyrum sínum burt frá sannleikanum, og snúa sèr að hègiljum. 2. Tím. 4, 3—4.

Látum oss nú aðgæta Nebúkaðnesars draum. Hann fèkk eina vitran, viðvíkjandi konungaríkjunum til enda veraldar. Hann sjálfur var gullhöfuðið á líkneskjunni. Brjóstin og armleggirnir úr silfri það mediska og persiska ríki, kviðurinn og lendarnar af eiri, ríki Alexanders hins mikla; leggirnir

af járni, sú rómverska makt. Fæturnir og tærnar voru sumskostar af járni, og sumskostar af leir; þá mun það ríki að nokkru leyti öflugt verða, og að nokkru leyti veikt; og þareð þú sást járnið blandað saman við deigulmóinn, þá munu þeir með kvonföngum saman blandast, og þó ekki samþýðast hverjir öðrum. En á dögum þessara konunga mun Guð himnanna hefja eitt ríki, sem aldrei skal til grunna ganga, og það ríki skal eingu öðru fólki í hendur fengið verða; það mun knosa og að eingu gjöra öll þessi ríki, en sjálft skal það standa að eilífu, fyrst þú sást, að steinn nokkur losnaði við fjallið án handa tilverknaðar, og mölvaði járnið, eirið, leirinn, silfrið og gullið. Sá hinn mikli Guð hefur kunngjört konunginum, hvað hèr eptir muni verða. Daníel 2. kap. Þessar tær á líkneskjunni eru konungaríkin, sem komu út af þeirri rómversku makt, og keisaradæmin. Sum af þessum ríkjum eru sterk, en sum veik, sem járnið og deigulmórinn fyrirmyndar. Þeir munu með kvonföngum saman blandast, en þó ekki samþýðast hverjir öðrum. Vèr sjáum konungaættirnar saman blandaðar með kvonföngum, meira og minna um allan heim. Ef þú, lesari góður, vilt vita hvernig sú danska konunga ætt er blönduð meðal annara þjóða, þá les aðra blaðsíðu í þínu almanaki. Þó samþýðast þeir ekki hverjir öðrum, eins og Daníel segir: England hjálpaði ekki Danmörk í síðasta stríðinu, þó þeir væru saman blandaðir með kvonföngum. Það er á dögum þessara konunga, að Guð himnanna vill hefja sitt

ríki, sem skal standa að eilífu. Þar sem þú sást, að steinn nokkur losnaði við fjallið án handa tilverknaðar (einn steinn úr fjallinu merkir eitt lítið fólk af öllum þjóðum), þá vill það segja: Þegar Guð upprètti sitt ríki og kirkju á þessum dögum, með því að senda einn engil með þann eilífa fagnaðarboðskap, þá var það ekki með sverðum, byssum, eða stríðsútbúnaði, sem stjórnast af manna höndum, heldur með guðlegri opinberun. Jesús segir: Mitt ríki er ekki af þessum heimi. Konunga ríkin hafa flest sinn uppruna frá stríðum og blóðs úthellingu, og er viðhaldið uppá sama máta. Á dögum þessara konunga mun Guð himnanna hefja sitt ríki. Hvaða konunga? Þeirra, sem eru blandaðir með kvonföngum. Þú munt segja, að þeir hafi verið blandaðir með kvonföngum uppá þennan máta í langa tíð, og er það satt; og þar fyrir er tíðin komin, að Guð himnanna hefur byrjað þetta stóra verk. Steinninn er höggvinn úr fjallinu. Guðs kirkja er innvígð með 12 postulum og öllum öðrum embættismönnum, blessunum og náðargáfum, sem um er talað í nýja testamentinu. Guðs ríki er byrjað á jörðinni, og skal eingu öðru fólki í hendur fengið verða. Steinninn mun vaxa, þangað til hann slær líkneskjunnar tær, sem eru í grennd við steininn, svo vel sem alla líkneskjuna. En steinninn, sem laust líkneskjuna, varð að stóru fjalli, og tók yfir alla jörðina; þetta mun bókstaflega ske, um þau þúsund ár. Þau sjö innsigli, eru sjö þúsund ár.

Og sú sjöunda þúsundára öld, er þúsund ára ríkið, sem eg vil seinna tala um með fáum orðum.

Látum oss aðgæta, hvað langt er liðið á þennan tíma, þau sex þúsund ár, þangað til Jesús kemur. Vèr teljum frá veraldar sköpun 5846 ár, þá vantar 154 til að fullgjöra 6000, ef tíðarreikningurinn væri rèttur. Gyðingar hafa einn reikning, Mahómetar annan, og þeir kristnu þann þriðja, og þó eru nokkrir þar fyrir utan. Þar fyrir veit einginn greinilega tíðarreikninginn. Þó er það víst, að vèr erum lengra fram í tíðinni, en vèr teljum eða huxum. En hvernig sem því er varið, þá er þetta ríki byrjað, sem Daníel umtalar, og þessi draumur (eða spádóms útlegging) hefur byrjað bókstaflega að uppfyllast, eins og aðrir spádómar, sem eg hefi umtalað. Eg hef þá sýnt Gyðinganna fráfall og óguðlegleika, svo vel sem heiðingjanna; þeir fyrnefndu fèllu frá Móses lögmáli, en þeir síðari frá Jesú Kristi lærdómi; eg hef og sýnt, að hvorki Lúther, nè neinar af þeim prótestantisku kirkjum, hafa þá rèttu trú eða lærdóma.

---

## SJÖUNDI KAPITULI.

### Um Guðs musteri og tjaldbúð, þúsundára ríkið og endursköpun allra hluta.

---

Það eru margir, sem lasta þá síðustu daga heilögu, vegna þess þeir eru að byggja musteri fyrir drottinn, þeirra Guð. Þeir kalla það villu og versta hègóma, eins og margt annað, sem drottinn hefur boðið. Drottinn bauð Móses að gjöra samkundutjaldbúðina, og skýið huldi samkundutjaldið, og dýrð drottins fyllti búðina; og þeir lögðu ekki af stað, fyr en skýið hófst upp. 2. Mós. 40. kap. En drottinn talaði við Móses og sagði: Seg þú Aron, bróður þínum, að hann megi ekki á hverjum sem helzt tíma, ganga inn í helgidóminn frammi fyrir lokið (náðarstólinn), sem er yfir örkinni, að hann ekki skuli deyja, því í skýinu, sem er yfir arkarlokinu, mun eg birtast. 4. Mos. 16, 2. Þegar Davíð vildi byggja drottni musteri, segist drottinn vilja geyma þar sitt nafn að eilífu, og mín augu og mitt hjarta skulu vera þar alla tíma. 1. Kong. 9, 3. Þegar Stefán ávítaði Gyðinga fyrir sína þvermóðsku, þà segir hann, að það hús, sem Davíð vildi byggja drottni, hafi Salómon byggt. En hann

segir í næsta versi: Sá hinn hæsti býr ekki í musterum, sem manna hendur hafa gjört, eins og spámaðurinn segir: Himininn er mitt hásæti og jörðin mín fótskör, hvaða hús skylduð þèr byggja mèr, segir drottinn? Postulag. 7, 46—50. Esaías 66, 1. Guð býr ekki í musterum, sem manna hendur hafa gjört. Það merkir: Það hefur ekki verið hans fasti bústaður á öllum tímum, en hann kemur þangað, að til kunngjöra sinn vilja til sinna þènara. Hans dýrð er þar, hans andi, englar og kraptur, og hann sjálfur mun verða þar, sem eg mun síðar sýna. Jesús bjó ekki í Jerúsalems musteri, en hann kenndi þar daglega, og rak Guðs erindi, hann sagði til þeirra, sem seldu og keyptu í musterinu: Takið þetta hèðan, og gjörið ekki hús föður mins að verzlunarbúð. Jóh. 2, 16. Kennimennirnir búa ekki í samkunduhúsunum, en þeir koma þangað til að tala til safnaðarins. Eg gæti fært mörg rök til, að drottinn birtist við samkundutjaldbúðina. Þá kom drottinn, og gekk í dyr samkundutjaldsins. 4. Mós. 12, 5. Dýrð drottins birtist öllum söfnuðinum við dyr samkundutjaldbúðarinnar. 4. Mós. 16, 19. Og þú skalt leggja þá niður í samkundutjaldbúðinni, þar sem eg er vanur að koma á fund ykkar. 17, 4. Sumir munu segja, að Guð hafi ekki gefið þau 10 boðorð í samkundutjaldbúðinni, og er það satt. En hann gat ekki opinberað sig þar, því hún var þá ekki tilbúin.

Á hinum síðustu dögum mun það verða, að

fjall það, sem musteri drottins stendur á, skal grundvallað verða á tindi fjallanna, og gnæfa upp yfir hæðirnar, og þjóðirnar skulu streyma þangað. Þá skal fjöldi heiðingja fara af stað og segja: "Komið, látum oss ganga upp til drottins fjalls, og til húss Jakobs Guðs, svo hann vísi oss sína vegu, að vèr megum ganga á hans stigum; því lögmálið út gengur frá Síons fjalli, og orð drottins frá Jerúsalemsborg. Mikka. 4, 1—2. Á síðustu dögum, eða undir heims endirinn, skal drottins hús eða musteri byggt verða á fjöllunum, og heiðingjarnir skulu streyma þangað. Þetta merkir Guðs fólks samansöfnun á hinum síðustu dögum. Og margar þjóðir skulu búast til ferðar, til Jakobs Guðs húss eða musteris, til að þekkja hans vilja, svo þeir geti gengið á hans stigum; því frá Síonsfjalli skal lögmálið út ganga, og orð drottins frá Jerúsalemsborg. Drottins orð og lög skulu útgefast frá Guðs musterum á hinum síðustu dögum. Esaías talar um það sama í 2, 2—3. Minn bústaður skal vera á meðal þeirra, og eg vil vera þeirra Guð, og þeir skulu vera mitt fólk, þegar minn helgidómur (sem merkir musteri) er á meðal þeirra eilíflega. Esek. 37, 27—28. Þá heyrði eg einhvern tala til mín úr musterinu, og maður nokkur stóð hjá mèr, og sagði til mín: Þú mannsins son! Þetta er staður míns hásætis, þetta er skör minna fóta; hèr vil eg búa á meðal Ísraels barna að eilífu. Esek. 43, 6—7. Allt þetta sýnir, með mörgu öðru fleiru, að Guð hefur komið, og mun koma í sín musteri, og

búa í þeim, og þar útgefa sín lög, svo að margar heiðingja þjóðir munu safnast þangað, (nefnilega) til Síon. Það er það sama sem Páll um talar, að fylling heiðingjanna skuli inn koma til Síon. Róm. 11, 25—26. Hvað er Síon? Manneskjurnar eru mikið villuráfandi, og hafa ekki skilið ritninguna með tilliti til Síon. Síon merkir yfir höfuð Guðs fólk, þá hreinhjörtuðu, og Síons land þann stað, hvar þeir búa. Ritningin talar um þrjá staði, sem kallast Síon. Þá Síon, sem var í Jerúsalem í fyrri daga. Þá Síon, sem skal verða í Jerúsalem, þegar hún er aptur uppbyggð af Gyðingunum og þeim töpuðu kynkvíslum, þá þær koma frá landinu norður frá. Jerem. 23, 9. Og Davið skal vera þeirra konungur og höfðingi eilíflega. Esek. 37, 24—25. Og þà Síon, sem nú byggist í vesturálfu heimsins, sem heiðingjanna fylling skal safnast til, eptir því sem Páll segir. Og heiðingjarnir skulu stefna á þitt ljós. Esaías. 60, 3. Þar fyrir undrast ekki, þó þeir síðustu daga heilögu byggi musteri, því það skal vera á hinum síðustu dögum, segir spámuðurinn; og það er byggt við heiðingjanna samansöfnun, sem hafa safnast til Síon í þau síðustu 38 ár, og sem er undirbúningstími fyrir þúsund ára ríkið og Kristi tilkomu. Þetta staðfestir Jesús, að Guð hafði búið í sínu musteri, þar sem hann segir: Hver sem sver við musterið,sver bæði við það, og við hann, sem í því býr. Matt. 23, 21.

Þá sá eg engil stíga niður af himni; hann hèlt á lykli afgrunnsins og stórum fjötri í hendinni.

Hann batt Djöfulinn um þúsund ár, kastaði honum í afgrunnið, og setti innsigli yfir, svo hann ekki afvega leiddi þjóðirnar framar, uns þúsund ár væru liðin; en að þeim liðnum á hann að leysast stuttan tíma. Opinb 20, 1—4. Þessi fjötur og innsigli sem engillinn hafði, er Guðs prestdómur, fullmaktin að leysa og binda. Þá sá eg hásæti; þeim sem á þeim sátu, var gefið dómsvald. Það er það sama sem Jesús segir, að þeir tólf postular skuli sitja á tólf hásætum, og dæma þær tólf Ísraels kynkvíslir. Matt. 19, 28. Og Páll segir, að hinir heilögu muni heiminn dæma, og vèr englana. 1. Kor. 6, 2—3. Líka sá eg sálir þeirra, sem höfðu verið hálshöggnir fyrir vitnisburð Jesú og Guðs orðs, og þeirra, sem ekki höfðu tilbeðið dýrið eða þess líkneskju og ekki höfðu þess merki á ennum sèr eða hendi. Þeir lifðu og ríktu með Kristi um þúsund ár. 4. vers. Þessi likneskja dýrsins sýnist að vera þær prótestantisku kirkjur. En aðrir dauðir lifnuðu ekki fyr, en þau þúsund ár voru liðin. Þetta er sú fyrri upprisa. 5. vers. Það eru þrjár upprisur, sem ritningin talar um. Sú fyrsta, þegar Jesús uppreis af dauða og grafirnar opnuðust, og þeir heilögu gengu inn í borgina, og auglýstust þar mörgum. Jóhannes talar um tvær upprisur, sem enn þá eru eptir. Sú fyrri mun ske, þegar Kristur kemur til að byrja sitt þúsund ára ríki á jörðinni. Allir, bæði lifandi og dauðir, sem hafa hlýtt Jesú lærdómi, og hafa verið líflátnir og hálshöggnir fyrir vitnisburð Jesú og Guðs orðs, þeir lifðu og ríktu

með Kristi um þúsund ár. En aðrir dauðir lifnuðu ekki fyr en þau þúsund ár voru liðin. Þetta er sú fyrri upprisa. Sæll og heilagur er sá, sem hlutdeild tekur í þeirri fyrri upprisu; yfir þeim hefur sá annar dauði ekkert vald, heldur munu þeir vera kennimenn Guðs og Krists, og ríkja með honum í þúsund ár. 6. vers. Hann segir á öðrum stað: Þú hefur gjört oss að konungum fyrir vorum Guði, svo vèr skyldum ríkja yfir jörðinni. Opinb. 5, 10. Jesús segir: Sælir eru hógværir, því þeir munu jarðríkið erfa. Matt. 5, 5. Þetta skeður eins og það er talað. Það sjöunda vers í þeim 20. kap. tekur öll tvímælin þar af. En þegar þau þúsund ár eru liðin, þá verður Satan leystur af fangelsinu. Þá mun hann útganga, til að afvega leiða þjóðirnar, á þeim fjórum heims endum. Þetta verður ekki uppi í himninum, heldur hèr niðri á jörðinni. Svo þegar hann er laus látinn, þá afvega leiðir hann þjóðirnar, eins og hann hefur áður gjört, og safnar þeim til stríðs.

En látum oss þessu næst aðgæta ástandið um þau þúsund ár, þegar Satan er bundinn, og friður yfir allri jörðinni, og allt er eins og það var á sköpunarinnar morgni, áður en Adam fèll, og djöfullinn fekk herradæmi yfir jörðinni, og bölvanin kom yfir allt, menn, dýr, fugla, fiska, grös og skriðkvikindi. Það mun verða eins og Esaías segir: Og hann (drottinn) mun dæma á meðal heiðingjanna, og skera úr málum margra þjóða, svo þær munu smíða plógjárn úr sverðum sínum, og kornsigðir

úr spjótum sínum. Eingin þjóð skal sverð reiða að annari, og ekki læra hernaðaríþrótt framar. Esaías 2, 4. Þá mun úlfurinn búa hjá lambinu, og pardusdýrið liggja hjá kiðlingnum; ljóns kálfar og alifè ganga saman, og smásveinn leiða þau. Kýrin og bjarndýrið munu vera á beit saman, kálfar og húnar liggja hverir hjá öðrum; ljónið mun hey eta sem naut. Brjóstmylkingurinn mun leika sèr við holudyr nöðrunnar, og það barn, sem nývanið er af brjósti, mun stinga hendi sinni í bæli höggormsins. Hvergi á mínu heilaga fjalli munu þau nokkurt mein eða skaða gjöra; því jörðin er full af þekkingu drottins, eins og sjáfardjúpið er vötnum hulið. Esaías 11, 6—10. Þá uppfyllist bókstaflega það, sem Jóel segir, að Guðs andi er útgefinn yfir allt hold. Jóel 3, 1. Postulg. 2, 17. Og það mun verða friður og eining meðal allra lifandi skepna, sem hrærast á jörðinni. Þetta er endursköpun allra hluta. Þá skal rótarkvistur Ísai (Jesús Kristur) standa sem hermerki fyrir þjóðirnar; þær munu leita hans atkvæða, og hans bústaður (eða musteri) mun dýrlegur vera. Esaías 11, 10. Hann segir á öðrum stað: Þar skal ekkert ungbarn framar finnast, sem að eins lifi fáa daga, og einginn gamall maður, sem ekki hafi náð fullum aldri; því sá er þar ungur maður, sem deyr tíræður, og sá, sem ekki nær tíræðisaldri, skal álítast sem bölvaður. Þeir skulu byggja hús, og búa í þeim, planta víngarða, og eta þeirra ávöxtu. Aðrir skulu ekki búa í þeim húsum, sem þeir hafa byggt;

aðrir skulu ekki eta það, sem þeir hafa gróðursett; því aldur míns fólks skal vera sem aldur trjánna; mínir útvöldu skulu sjálfir eyða því, sem þeir hafa unnið með sínum höndum, þeir skulu ekki erfiða til ónýtis, og ekki börn geta til þess, að þau deyji á ungum aldri; því bæði þeir, og eins afkvæmi þeirra, eru afsprengi þeirra, sem drottinn hefir blessað. Áður en þeir kalla, vil eg svara, og á meðan þeir tala, vil eg bænheyra. Úlfar og lömb skulu vera saman á beit, ljónið eta strá sem uxi, og duptið skal vera ormsins fæða. Esaías 65, 20—25. Les þann sextugasta kapitula, sem talar um það sama efni. Þetta er ekki talað í dæmisögum, og þarf ekki að útleggjast. Það getur ekki heldur skilist andlega, því það er allt sjáanlegt og þreyfanlegt á jörðinni.

Hvað mikið jörðin umbreyttist í syndaflóðinu, vita menn ógjörla. Þó finnst skrifað, að hún skildist að í álfur, lönd og eyjar, fjöll og dali. En eptir flóðið var jörðinni skipt, á Pelegs dögum. 1. Mós. 10, 25. Einnig þegar Kristur var krossfestur, umbreyttist jörðin víða, af jarðskjálftum. En allt þetta mun við byrjun þúsund ára ríkisins verða eins og það var, á sköpunarinnar morgni. Því svo er skrifað: Sèrhver dalur skal hækka, hvert fjall og háls lækka, hólarnir skulu verða að jafnslèttu, og brattir hamrar að flatlendi. Esaías 40, 4. Eg vil hrista himininn, og jörðin skal hrærast úr stöðvum sínum, fyrir heipt drottins allsherjar. Esaías 13, 13. Þegar sá sjöundi engill

úthellti sinni skál í loptið, þá hurfu allar eyjar, og fjöllin urðu að eingu. Opinb. 16, 17 og 20. Þetta er sú gleðilega tíð, sem kallast endursköpun allra hluta. Eða sem postulinn segir: Svo að endurlífgunar tímar komi frá augliti drottins, og hann sendi þann fyrirhugaða Jesúm Krist, sem á að halda himninum þar til allt endurskapast, sem Guð hefir talað fyrir munn sinna heilögu spámanna frá öndverðu. Postulg. 3, 20—21. Hèr af er ljóst að skilja, að Jesús kemur ekki fyr en nálægt þessum tíma, því hann á að halda himninum, allt til þeirrar tíðar. Og þá mun hann hafa sinn heilaga prestdóm á jörðinni, og musteri að koma til. Spámaðurinn segir (meinandi það sama): Þar til loksins yfir oss verður úthelltur andi af hæðum; þá skal eyðimörkin verða að skógarmörk. Esaías 32, 15. En þeir hógværu skulu landið erfa, og njóta unaðsemdar af þeim mikla friði (farsæld), því drottins blessuðu skulu landið erfa; hans bölvuðu verða útrutt. Því drottinn elskar réttindi, og yfirgefur ekki sína heilögu; þeir verða eilíflega varðveittir; en afkvæmi þeirra óguðlegu mun upprætast. Sálm. 37, 11. og 22. og 28. Þar fyrir sem áður er sagt, engillinn með þann sanna náðarboðskap er kominn, og hefur sagt, að Guðs dóms tími væri kominn. Það er, Guðs hegningardómur, allslags plágur og eyðileggingar, kemur yfir alla þá, sem hafa verið aðvaraðir, um þann sanna Jesú Kristi náðarboðskap á þessum dögum, en sem hafa hafnað og forkastað Guðs þènara vitnisburði. En

sá síðasti allsherjardómur verður ekki fyr en eptir þau þúsund ár, eptir alls holds upprisu, þegar allir dauðir, smáir og stórir, standa frammi fyrir hásætinu, og bókunum verður lokið upp, og allir verða dæmdir eptir þeirra verkum. Opinb. 20, 12.

Þetta er sá ellefti tími, sem drottinn leigir verkamenn í sinn víngarð, og þeir sem koma um elleftu stundu, fá eins mikið og þeir fyrstu. Matt. 20. kap. Þeir fá allir þann heilaga anda, eilíft líf, ódauðlegleika og allar blessanir Guðs ríkis, sem ekki hefur auga sèð, eða eyra heyrt, og ekki hefur í nokkurs hug eða hjarta komið. Það eru þeir, sem hlýða Jesú Kristi lærdómi. Það er uppá þennan máta, og eingan annan, að vèr getum hvítfágað vorn skrúða í lambsins blóði. Þetta er það rètta brúðskaups klæði, að hlýða öllum atriðum trúarinnar, sem áður er sagt. Þeir voru komnir úr hörmunginni miklu, sem höfðu hvítfágað sinn skrúða í lambsins blóði. Opinb. 7, 14. Það er, þeir voru og eru hataðir, spottaðir, ofsóktir, deyddir, fyrirlitnir, og haldnir afhrak og hreinsun veraldar. Þetta er að taka Jesú kross uppá sig, og fylgja honum eptir. Þetta er það, sem gjörir veginn þröngan, svo fáir finna hann. Það er það sverð og ófriður, sem Jesús segist vera kominn að senda á jörðina, sem skeður bókstaflega, þegar fólkið hlýðir náðarboðskapnum. Þá verður sonurinn á móti föðurnum, og dóttirin á móti móðurinni, og mannsins heimamenn verða hans óvinir. Og þannig ganga þeir gegnum hörmungina miklu. Eða sem postulinn

segir: Gegnum margar hörmungar byrjar oss inn að ganga til lífsins. Og þó margir sèu kallaðir, verða fáir útvaldir, því þeir hræðast fyrirlitning og óvinskap manna meira en Guð. En hvernig geta þeir hvítfágað sinn skrúða í lambsins blóði, sem ekki hafa þá lærdóma, sem Jesús gaf og innsetti í sína kirkju uppá sama máta, og í sömu meiningu? Þeir verða aldrei meðkenndir af Guði, utan þeir verði fæddir á ný, af vatni og anda, uppá þann máta sem Jesús sagði. Jesús segir: Himin og jörð forganga, en mín orð forganga ekki. Hvernig munum vèr þá geta sloppið hjá hegningu, ef vèr vanrækjum þvílíkan frelsis lærdóm, sem Drottinn vor hóf sjálfur fyrstur að kenna, og sem síðan er staðfestur til vor kominn, frá þeim, sem hann heyrðu. Hebr. 2, 3.

Það er þá búið að tala um þúsund ára ríkið, og endursköpun allra hluta á hinum síðustu dögum, sömuleiðis um drottins musteri, og að hann muni koma til þeirra, og búa í þeim. Esaías i 18. kapitula talar um landið vængja skuggans, þessum megin Blálands fljóta. Sú danska, þýska og enska biblía segir: Hinum megin Blálands fljóta. Því þegar spámaðurinn talaði þetta, hefur hann verið í Jerúsalem (eða nálægt Jerúsalem). Það er ekkert land sem líkist tveimur vængjum, nema Norður- og Suður-Ameríka. Og hún var hinum megin árinnar Níl, sem er í Egypta landi, og rennur i norður, út í miðjarðarhafið, og sú á kallaðist Blálandsfljót í þá daga. Hèr af geta allir sèð,

að þetta er ekki rètt útlagt í þeirri íslenzku biblíu. Í þriðja versi segir spámaðurinn: Allir þèr, sem jarðarkringluna byggið og í löndunum búið, gætið að, þegar merkið er reist á fjöllunum! Hlustið eptir, þegar lúðurinn kveður við! Allir þeir sem á jarðríki búa, eru áminntir, að gefa gætur að, þegar merkið er reist á fjöllunum, sem merkir yfir höfuð Guðs ríkis uppbyggingu, hans fólks samansöfnun, og Guðs musteri, sem skal byggjast. Lúðurhljóðið, merkir þann eilífa fagnaðarboðskap, sem er sendur til allra þjóða, tungumála og fólks. Spámaðurinn sá í anda eitt land, sem líktist tveimur vængjum. Hann sá fjöll, og Guðs musteri byggt á þeim. Og hann sá þjóðirnar safnast þangað, og segir að það skuli verða á síðustu dögum. Esaías 2, 2—3. Malakías segir í 3, 1—2: Sjáið! eg sendi minn engil, sem skal greiða veginn fyrir mèr; bráðum skal hann koma til síns musteris, sá herra, hvers þèr leitið, sá sáttmálans engill, hvers þèr óskið. Sjáið, hann kemur, segir drottinn allsherjar. En hver má afbera þann dag, er hann kemur? Hver fær staðizt, þá hann lætur sig sjá? Herrann skal bráðum koma til síns musteris? En hvernig getur hann komið til síns musteris, utan það sè eitt musteri byggt og tilreitt, fyrir hans tilkomu. Þèr, sem undrizt yfir, að þeir síðustu daga heilögu samansafnast, segið mèr: Hvar er drottins hús (eða musteri) reist, sem fólk af öllum þjóðum safnast til, til að læra að þekkja Guðs vilja, nema það, sem þeir síðustu daga heilögu byggja, í fjallanna

dölum í Ameríku, sem spámaðurinn kallar Síon. Það væri skynsamlegra fyrir alla, sem fordæma þessa og aðra hluti, að hugsa, fyr en þeir tala, og þekkja, fyr en þeir dæma. En hver má afbera hans tilkomudag, og hver fær staðizt þá hann lætur sig sjá? Vèr svörum: Einungis þeir, sem umvenda sèr frá sínum syndum, og meðtaka boðskapinn, sem Guð lætur auglýsa þjóðunum á þessa dögum. Einungis þeir, sem vilja afleggja sínar fölsku meiningar, venju og siðvana, og hafna þeim kennendum, sem kenna mannasetningar fyrir ávinnings sakir. Því þetta eru teikn þeirra fölsku kennenda, sem postularnir segja. 2 Pèt. 2, 3. 1 Tim. 6, 5. Tít. 1, 11.

---

## ÁTTUNDI KAPITULI.

### Um mannsins frívilja, skírn fyrir þá dauðu, skynsemistrú, og fleira.

---

Það er fávíslegt og ógrundað, að kenna forlögunum það, sem stendur í voru eigin valdi. Vèr verðum aldrei krafðir til reikningsskapar fyrir forlaganna verkanir, því þau stjórnast ekki af mannlegum krapti, eða vilja. Og því verðum vèr nákvæmlega að aðgæta, og þekkja mannsins frjálsa vilja, og það sem vèr erum andsvarlegir fyrir. Þú vilt máske segja, lesari góður, að þínir meðbræður gjöri þèr rangt, og sèu orsök til þess illa, sem þú gjörir, og þú verðir að hefna þín, eða þær á hinn bóginn lokki þig og leiði í freistni á alla vegu, og er það satt. Það væri betra að milnusteinn væri hengdur um háls þeirra, er það gjöra. En Jesús segir: Ómögulegt er að hneykslanir komi ekki. Lúk. 17, 1—2. Eg er hræddur um, að það fari eins fyrir oss, eins og Adam og Evu. Hann kastadi sökinni á hana, en hún á höggorminn, en þau fengu öll sitt straff, og svo mun fara fyrir oss, hvort sem vèr erum eggjaðir til ills, eða ekki. Guð hefur gefið sínum börnum ljós og þekkingu, vísdóm og skynsemi, til að þekkja

gott og illt bæði í andlegum og líkamlegum hlutum, bæði með eigin reynslu, og með sínu heilaga orði. Hann hefur líka gefið oss frívilja, til að móttaka eða hafna, gjöra illt eða gott, og þar fyrir erum vèr andsvarlegir fyrir Guði, fyrir orð vor og verk. Jesús sagði við Gyðingana: Hversu opt hef eg ekki viljað saman safna yður, eins og hænan safnar ungum sínum undir vængi sèr, en þèr hafið ekki viljað. Lúk. 13, 34. Hann tók ekki fríviljann frá þeim, en fyrir sagði þeirra straff og eyðileggingu; þeir vildu ekki hlýða hans orði, og brúkuðu sinn frívilja til að forsmá það. Þú vilt máske segja með postulanum: Viljann til þess góða hef eg að sönnu, en ekki krapt til að framkvæma það. Postulinn hefur án efa meint þá hluti, sem hann hafði ekki efni, eða meðöl, til að framkvæma, svo sem að gefa ölmusu, hjálpa nauðstöddum og annað þvílíkt, sem ekki stóð í hans valdi. Því annars mundi það gjöra Guðs rèttlæti til einskis, því hann geldur sèrhverjum eptir hans verkum. Róm. 2, 6. Ef þeirra verk eru vond, og þeir gætu ekki annað gjört, þá mundi ekki sá heilagi og rèttláti Guð straffa þá þar fyrir. En mennirnir vilja rèttlæta sig sjálfa, og skjóta skuldinni uppá drottinn. Vond orð og verk eru eingin forlög, heldur misbrúkun þess fríja vilja. Sumar slysfarir og ógæfu tilfelli, sóttir og margir ófyrirsèðir hlutir, sem eru óstjórnanlegir af mannlegum krapti, það getum vèr kallað forlög. Það væri heldur eingin blessan eða upphefð í Guðs ríki, fyrir postula og píslarvotta og Guðs

menn, sem gengu glaðir í dauðann, fyrir Guðs orða vitnisburð og sannleikann, ef þeir hefðu ekki getað annað gjört. Djöfullinn getur innblásið oss vondum hugsunum, og eggjað til alls ills, en hann getur ekki þvingað nokkurn mann til ills, nema vèr gefum vorn frívilja fanginn undir hans herradæmi. Svo þú sèr, að Guð tekur ekki fríviljann frá oss, og djöfullinn getur það ekki. Þar fyrir verðum vèr að vera andsvarlegir fyrir drottni, fyrir orð og verk og hugrenningar að miklu leiti. Jesús sagði: Því hugsið þèr svo illt í yðar hjörtum? Matt. 9, 4. Hver sem lítur konu girndarauga, hefur þegar drýgt hór með henni í sínu hjarta. Matt. 5, 28. Af hjartanu framkoma vondar hugsanir. Mark. 7, 21. Þar fyrir megum vèr gefa gætur að hugsunum vorum, því þær koma fyrst, og þar eptir orð og verk. Þú vilt máske segja, lesari góður, að þú getir ekki að því gjört, hvað þèr flýgur í hug, og er það satt. En þú getur kastað vondum hugsunum burt, þú þarft ekki að ala og endurnæra það, sem er illt, í þínu hjarta. Þú getur ekki hindrað fuglinn að fljúga yfir höfði þèr, en þú þarft ekki að láta hann búa til hreiður í hàri þínu, leggja þar eggjum, og unga þeim út. Og svo er það með djöfulsins innblástur og vondar hugsanir. Ef vèr óskum að gjöra það illa, sem oss kemur í hug, og bíðum eptir tækifæri, til að gjöra það, þá er það synd; jafnvel þó vèr gjörum það ekki, vegna þess vèr gàtum það ekki, mun Guð þó, sem er hjartnanna og nýrnanna rannsakari, taka viljann fyrir

verkið, og hegna samkvæmt sínu rèttlæti. Þar fyrir munu breiskleika syndir sæta vægari hegningu. Eins með það góða, Guð mun álita hjartað, þá vèr óskum að gjöra gott, en getum það ekki, mun Guð taka viljann fyrir verkið; því ef vèr hefðum ekki krapt, til að stýra orðum og verkum, og hugrenningum að miklu leiti, gætum vèr ekki verið andsvarlegir þar fyrir, hvorki fyrir mönnum hèr á jörðinni, nè fyrir Guði í dóminum; og þannig skulum vèr dæmast fyrir orð og athafnir. Jesús segir við Job: Hvar varstu, þegar eg grundvallaði jörðina? Þegar morgunstjörnurnar sungu gleðisöng, og öll Guðs börn fögnuðu. Job 38, 4. og 7. Hvar vorum vèr þá (lesari góður)? Ef vèr erum Guðs börn, þá vorum vèr þar? Því öll Guðs börn fögnuðu, og morgunstjörnurnar sungu gleðisöng, sem merkir þá fyrst fæddu anda, Guðs spámenn og hetjur, postula og píslarvotta, sem lifðu, dóu og stríddu fyrir Guðs vilja og verk hèr á jörðinni. En af hverju fögnuðu öll Guðs börn svo mikið? Vèr vorum ófullkomin án líkama, og gátum ekki náð upphefð í Guðs ríki, án þess að koma fram í þessum dauðlega líkama, og stríða á móti Satan og syndinni, og öllu því illa. Vèr vissum, að vèr gætum yfirunnið allt það illa, sem stríðir á móti Guðs vilja, ef vèr brúkuðum rittilega, eptir Guðs tilætlan, það ljós, þekkingu og frívilja, sem hann ætlaði oss að gefa, til að gjöra það góða, og þà yrðum vèr eilíflega sælir. Það stendur í voru valdi, með Guðs hjálp og Jesú Kristi forþènustu, að hlýða

hans orði, lagaboðum og tilskipunum, sem eg hefi áður sagt, og síðan að lifa í heilögu líferni. Verið heilagir í öllu yðar dagfari, eins og sá er heilagur, sem yður hefur kallað. 1. Pèt. 1, 15. Eigum vèr þá að vera heilagir eins og Guð? Vèr eigum að brúka það ljós og þá þekkingu, sem Guð hefur oss gefið, til alls góðs, í orði og verki. Þetta er að vera heilagur, að vèr höfnum því illa. Það var orsökin til, að öll Guðs börn fögnuðu, þegar grundvöllur jarðarinnar var lagður. Vèr vissum, að fríviljinn mundi ekki verða tekinn frá oss, svo vèr gætum gjört það góða, að svo miklu leiti, sem vèr þekktum það. Vèr vissum, að Guðs orð og sá heilagi andi, mundi verða vor leiðarvísir í reynslustandi lífsins hèr á jörðinni, og vèr mundum hafa allt, sem nauðsynlegt er, til að styðja oss við, ef vèr vildum brúka það rèttilega. En vèr þekktum ekki fullkomlega þær mörgu og óttalegu hörmungar dauðlegra manna hèr á jörðinni, ekki heldur þær tælandi og töfrandi ginningar holdsins og fýsn augnanna. En einungis með eigin reynslu gátum vèr þekkt þessa hluti, og svo gjört oss hæfilega til eilífrar gleði, eða hegningar, eptir því, sem vèr brúkuðum vorn frívilja, og það ljós og þekkingu, sem Guð hefur oss gefið. Og þar fyrir fögnuðu öll Guðs börn, þegar jörðin var sköpuð. En vissi Guð ekki fyrir fram, hvað börn hans mundu gjöra, hèr á jörðinni? Vissulega. En hann straffar eingann, fyr en hann hefur gjört sig óverðugan til þeirrar blessunar, sem hann hafði tækifæri til að

öðlast. Hann upphefur heldur eingan, eða frelsar, fyr en hann hefur gjört sig verðugan þar til. Þú vilt máske segja, að vèr verður rèttlættir af náð og án verðskuldunar, því svo er skrifað. En er það ekki af náð, að Guð sendi sinn son, til að líða kvöl og dauða, til að frelsa oss frá þeim andlega og líkamlega dauða? Ef vèr hlýðum þeim höfuðatriðum trúarinnar, sem Jesús innsetti í sína postullegu kirkju. Er nokkur náð stærri en þessi? Nei, og þar fyrir fögnuðu öll Guðs börn, þegar jörðin var sköpuð. Og þannig var það sannsýnilegt, að Guð sendi sinn hèr niður á jörðina, til að reyna þau, og gefa þeim lög og reglur, að lifa eptir, gefa þeim vísdóm og þekkingu, til að þekkja og skilja þessi lög, og frívilja til að móttaka og hafna, og síðan setja fyrir þau það illa og góða; og svo endurgjalda þeim eptir þeirra verkum. Er það þá undarlegt, að sá heilagi og rèttláti Guð endurgjaldi þeim með eilífri blessan, sem trúa hans orði og hlýða því, og gjöra hans vilja, og eru viljugir að líða allt illt, og taka krossinn uppá sig, og fylgja honum eptir, sem er, að vera hataður og fyrirlitinn af öllum mönnum, og haldinn afhrak og hreinsun veraldar. Og þetta verða allir að líða, sem vilja lifa guðlega í Kristó, segir postulinn. 2. Tím. 3, 12. Einginn skyldi hugsa, að þeir, sem eru komnir til lögaldurs, með fullu viti sèu óvitandi, þegar þeir gjöra illt. Það mun vera eins og skáldið segir, að þegar vèr göngum á glæpaveginum, þá fari sú sanna gleði á flótta. „Og þá

rennur í þanka minn, það eg skal fyrir dómstól þinn, angráður skelf af ótta.“ Eins með það góða: “Samvizkunnar þá frið eg finn, og fögnuð eilífan drottinn minn, er þú útvöldun greiðir.“ Þetta er forsmekkur himnaríkis sælu. Hitt annað er nagandi samvizka, sem mun verða það stærsta helvíti, sem nokkur maður getur haft, sem er afleiðing af misbrúkun þess frjálsa vilja, annars væri eingin samvizkukvöl, ef menn hefðu ekki getað breytt betur. Hórdómur var dauða straff á Móses dögum, með mörgu fleira. Ef að fólkið gat ekki (eða getur ekki) haldið sèr frá að drýgja þessa synd, hvar var þá Guðs rèttlæti, að straffa með dauðanum þar fyrir? Er Guð ekki rèttlàtur? Vissulega. Einn faðir með fullu viti, sem hefur fyrirboðið sínum börnum, að gjöra einn hlut, og lagt dauða straff við, hann mundi ekki þar eptir þvinga þau og leiða í frestni, til að gjöra það, sem hann hafði bannað, og síðan straffa þau með fangelsi og dauða; hann mundi heldur ekki skipa þeim það, sem hann vissi, að þau gætu ekki gjört ; langtum síður mun sá heilagi og rèttláti Guð gjöra það. En ef vèr getum yfirunnið það illa, þá er allt auðskilið, að manneskjurnar verða að líða straff fyrir að brjóta Guðs boð.

Það eru margir, sem ekki athuga stærð illsku sinnar, svo sem dyrkkjumaðurinn, er tekur þær dýrmætu Guðs gáfur, sem hann stríðir fyrir frá morgni til kvölds, opt í lífsháska, hungraður og þreyttur ; þessi lífsnæringar meðöl brúkar hann til

að gjöra sig hálf- og stundum alvitlausan. Hann tekur brauð sinna barna og konu, sem mega erfiða hart, og ganga bæði hungruð og rifin, af hans forsómun að vinna, og stundum grátandi af hans illu orðum og verkum. Hann býr til jarðneskt helvíti handa sèr og þeim. Hann blindar sín sálar augu, og hleypur út í þúsund dauðans hættur. Hann skaðar sína heilsu. Hann eyðileggur þá stærstu gleði hèr á jörðinni, sem er góð samvizka. Margir kaupa dýrt, að fá læknaða sjúkdóma og sinnisveiki, en þessir kaupa dýrt, að verða sinnisveikir og vitstola. Er ekki þetta misbrúkun þess fríja vilja? Það er allra þjóða mál, og staðfestur vitnisburður, að níu tíundu partar af öllum óttalegustu níðingsverkum og skömmum, og öllu illu, sè framið af mönnum og konum, sem hafa drukkið frá sèr þá stærstu Guðs gáfu, vitið. Getur Jesús Kristur frelsað þá, eða gjört þá sáluhólpna með sinni forþènustu, sem ekki vilja brúka sinn frívilja, til að hlýða þeim lærdómum og tiskipunum, sem hann innsetti í sína postullegu kirkju, eptir að hafa kunngjört þeim sinn vilja, og gefið þeim tækifæri til að hlýða honum? Eg segi nei, ef hann gæti, eða gjörði það, hvað yrði þá úr nýja testamentisins lögmáli? Mun Jesús ónýta sín orð, eða þann nýja og eilífa sáttmála? Nei, það mundi ekki vera samkvæmt hans vísdómi og rèttlæti. Því orð drottins varir að eilífu. 1. Pèt. 1, 25. Hegningin fyrir það illa getur ekki orðið eins hörð á þeim, sem ekki höfðu tækifæri í þessu lífi, til að heyra

þann sanna náðarboðskáp; því þó það ljós, sem þeir hafa, og samvizkunnar lögmál, sýni þeim hvað rètt og rangt er, þá þekktu þeir þó ekki Guðs boð fullkomlega, ekki heldur straffið fyrir að brjóta þau, svo þeir hafa að nokkru leiti afsökun.

Þegar einn konungur eða keisari hefur útgefið lög í sínu ríki, þá getur hann ekki umbreytt þeim að eigin vilja. Til dæmis: Ef það er dauða sök, að slá mann í hel, og konungssonurinn hefur drýgt það illvirki, þá getur ekki konungurinn frelsað sinn son frá straffinu, eða tekið sín orð til baka; náðin getur ekki svipt rèttlætið sínum rètti. Þegar Gíbeonítarnir með slægð sinni sömdu frið við Jósúa, og hann sagði, að þeir skyldu lifa, þá gat hann ekki rofið sinn eið, eða tekið sín orð aptur, þó þeir hefðu bæði logið og svikið hann. Jósúab. 9. kap. Þegar Jepta yfirvann Ammonítana, og tók 20 borgir, þá gjörði hann það heit, að það, sem fyrst gengi út af húsi hans á móti honum, skyldi verða drottins eign, eða haft til brennifórnar, en það var hans einasta dóttir, sem mætti honum, og hann gat ekki aptur tekið sín orð. Dómarab. 11. kap. Konungurinn Daríus gat ekki frelsað Daníel frá ljónagryfjunni, þó hann gjarnan vildi, því það orð stóð stöðugt, sam konungurinn hafði talað. Daníel. 6. kap. Hvernig getur Guð tekið sín orð til baka? Getur hann verið náðugur við þá, sem brjóta hans boð, og mísbrúka sinn frívilja? Getur hann náðað einn fyrir stórglæpi, og fordæmt annan fyrir það sama? Nei; Guð mun gjalda einum og

sèrhverjum eptir hans verkum. Hann fer ekki í manngreinarálit, hann er sá sami, í gær og í dag og um alla eilífð. Svo vèr sjáum, að Guðs náð og miskun getur ekki gjört hans lög og rèttlætis dóm ógildan. Hafið, dauðinn og helvíti skilaði aptur þeim dauðu, sem í þeim voru, og hver þeirra var dæmdur eptir sínum verkum. Opinb. 20, 13. Sumir munu segja: Hvar kemur Guðs stóra náð þá fram? Hans náð kemur fram í því, að hann hefur gefið oss sitt heilaga orð, vísdóm og þekkingu, og frívilja, til að hlýða því, og gjöra það góða, en hafna því illa. Hann hefur gefið oss Jesúm Krist, sem frelsara og sáluhjálpara, ef vèr hlýðum þeim lærdómum, sem hann gaf, uppá sama máta, og í sömu meiningu, sem hann hefur tilsett.

Þèr munuð, segja: Náðaði ekki Jesús ræningjann á krossinum? Eg segi jú. En hann var líflátinn og hans blóði úthellt fyrir hans syndir. Stórar syndir voru orsökin til, að svo margir voru líflátnir í Móses daga, á meðal Ísraels fólks. En það eru margir, sem halda, að ræninginn hafi farið beinlínis í himna ríki. En vèr trúum því ekki, því þegar Jesús uppreis af dauða, og hann kom til Maríu, og bað hana að snerta sig ekki, segir hann: Eg er ekki enn uppstíginn til föður míns. Jóh. 20, 17. Og trúum vèr ekki, að hann hafi sent ræningjann á undan sèr, en hans líkami mun hafa verið þar sem hann var lagður. Jesús segir: Hver sem trúir og verður skírður, skal hólpinn verða.

Ræninginn hafði þegar trúað, en hann var ekki skírður, og hafði ekki meðtekið þann heilaga anda.

Eg vil geta þess, að þeir lifandi skírðust fyrir þá dauðu í fyrri daga. Postulinn segir: En hvað gjöra þeir, er láta skírast fyrir hina dauðu, ef dauðir öldungis ekki upp rísa? Og því láta þeir skíra sig fyrir þá? 1. Kor. 15, 29. Af þessu er ljóst að skilja, að þeir lifandi skírðust fyrir þá dauðu, og það má hafa verið fyrir þá, sem ekki höfðu haft tækifæri til, að heyra þann fullkomna náðarboðskap í þessu lífi, sem ekki var fullkominn fyr en Jesús kom, og þar fyrir skyldu þeir heyra það í andavarðhaldinu. Jesús niðurstè í andanna varðhald og prèdikaði fyrir öndunum í verdhaldinu, sem þverskölluðust, þegar Guðs langlundargeð beið eptir betrun þeirra, á dögum Nóa. 1. Pèt. 3, 19—20. Jesús hefur án efa prèdikað það sama fyrir öndunum, sem hann prèdikaði hèr á jörðinni. En þeir sem dauðir voru, gátu einungis trúað, en ekki skírst, og þar fyrir urðu þeir lifandi að skírast fyrir þá. Andinn má hafa sinn frívilja, til að hlýða Guds boðum, hvort sem hann er í líkamanum, eða andanna vardhaldi. Þetta er það sem Malakías segir, að spámaðurinn Elías verði sendur, áður en sá mikli og ógnarlegi dagur drottins kemur; og hann skal snúa hjörtum feðranna til barnanna, og barnanna hjörtum til feðranna. Malakías. 4, 5. Þetta uppfyllist bókstaflega, þega þeir lifandi skírast fyrir sína foreldra og ættingja gegnum margar aldir, þegar þeir meðtaka í andanum það, sem börnin

gjörðu fyrir þeirra hönd. Þetta staðfestir postulinn Pètur, þar sem hann segir: Þess vegna er þeim, sem dauðir eru, náðarboðskapurinn kunngjörður, að þó þeir af mönnum fordæmdir verði, hvað holdið snertir, skulu þeir samt lifa Guði, hvað andann snertir. 1. Pèt. 4, 6. Þegar Páll er að tala um vitnisburð trúarinnar, sem þeir heilögu fengu í fyrri daga, til að ganga í gegnum þrengingar og dauða, segir hann, að þeir hafi þó ekki öðlast fyrirheitin, því Guð hafði sèð betur fyrir vorum hlut, að þeir ekki án vor algjörðir yrðu. Hebr. 11, 40. Af hverju voru þeir ekki algjörðir? Þeir höfðu ekki haft tækifæri til, að hlýða Jesú lærdómi í sinni fyllingu, og þó þeir hafi verið skírðir í vatni, voru þeir þó ekki fæddir af heilögum anda. En einginn getur innkomið í Guðs ríki án þess, segir Jesús. Svo er með ræningjann; það hefur einhver orðið að skírast fyrir hann. Þá skulu frelsendur uppstíga á Síonsfjall, til að dæma Esaúfjall (eða Esaú afkomendur). Óbadías. 1. 21. Þessir frelsarar eru þeir, sem hafa skírst fyrir þá dauðu, og útfært þau heilögu höfuðatriði trúarinnar. Þeir skulu dæma Esaú syni, og vitna á móti þeim, sem ekki vildu gjöra brúk af náðarboðskapnum. Páll segir: Þeir heilögu skulu heiminn dæma, og vèr englana. 1. Kor. 6, 2—3. Svo vèr sjáum, að þeir heilögu munu dæma þá, sem hafa forkastað þeim gleðilega boðskap, sem þeim hefur verið tilboðinn. Af þessu er ljóst að skilja, að náðarboðskapurinn nær til allra Guðs sona og dætra, bæði lifendra og

dauðra, frá upphafi veraldar. Og þar fyrir er það fullkomið frelsislögmál. Jakob. 1, 25. Því það frelsar alla sem hlýða því, en fordæmir hina, sem forkasta því. Jesús segir: Það orðið, sem eg talaði, mun fordæma þá á síðasta degi. Það er kraptur Guðs til sáluhjálpar öllum þeim sem trúa. Róm. 1, 16. En trúin er dauð án verkanna. Jak. 2. 26. Það eru hèr um bil 17,000 miljónir, sem hafa dáið í 1700 ár, sem ekki hafa haft þann sanna Jesú Kristi náðarboðskap. Margar þúsundir af þessum skara hafa lifað kristilega, og næstum svo vel, sem dauðlegum mönnum er unnt að lifa, án heilags anda, sem leiðir menn í allan sannleika um Guðs vilja, bæði í andlegan og líkamlegan máta. Þeir hafa lífað eptir því ljósi og þekkingu, sem þeir höfðu. Nú eru allir þessir andar í varðhaldinu, sem hafa dáið í 1700 ár, með sínar misjöfnu trúarmeiningar, hjátrú, venjur og siðvana, bæði heiðnir og svokallaðir kristnir. Nú koma Guðs heilagir menn og postular, þegar þeir deyja, iklæddir þeim heilaga prestdóm og fullmakt, i andavarðhaldið, og prèdika fyrir öndunum þann sama náðarboðskap, sem Jesús kenndi; og ef þeir þá trúa þeim (sem er þá allt, sem þeir geta gjört), þá verða þeir lifandi að skírast fyrir þá. Og svoleiðis skulu allir Guðs synir og dætur, sem eru, hafa verið, og munu koma á þessa jörð, hafa tækifæri og hentugleika til, að heyra þann sanna náðarboðskap, svo þeir geti einga afsökun haft fyrir Guði í dóminum. Það er sagt, að það sè ofseint að iðrast

eptir dauðann, en eg get ekki fundið það í Guðsorði. Ef svo er, hvar fyrir prèdikaði Jesús þá fyrir öndunum í vardhaldinu, ef þeir höfðu ekki hæfilegleika til að trúa? Þessir andar höfðu verið í vardhaldi, frá því að flóðið kom yfir jörðina, 1650 eptir sköpun veraldarinnar, og þangað til Kristur var krossfestur, sem var nálægt 33 árum eptir hans fæðingu, en Jesús hefur verið fæddur (eptir því sem þeir kristnu reikna frá veraldar upphafi) árið 3967, og þá hafa andarnir verið í vardhaldinu í 2350 ár. Er það þá ekki skynsamlegt og áreiðanlegt að trúa, að þeir, sem þverskallast á þessum dögum, á móti náðarboðskapnum, muni verða í varðhaldi, eins og þeir sem þverskölluðust á Nóa dögum. Er ekki andinn sá sami, hvort sem hann er í líkamanum, eða í andanna vardhaldi? Vissulega, hann hefur sinn frívilja, líkaminn er hús og verkfæri andans, en hann útvelur og hafnar eptir eigin vilja, hvort sem hann er í líkamanum, eða andanna varðhaldi. Þetta á við þá, sem ekki hafa haft tækifæri í þessu lífi, til að heyra Jesú Kristi náðarboðskap. Sumir munn segja: Ef vèr getum fengið hentugleika til, að trúa eptir dauðann, þá viljum vèr bíða þangað til. En þeir á Nóa dögum höfðu ekki heyrt náðarboðskapinn í sinni fyllingu, eins og áður er sagt, og þar fyrir var predikað fyrir þeim í anda vardhaldinu. Eg er hræddur um, að þeir, sem hafna náðarboðskapnum í þessu lífi, muni ekki verða reiknaðir í tölu þeirra útvöldu síðar meir. Það er hætt við, að það verði álitið að kasta perlum fyrir svín,

og helgidóminum fyrír hunda, að tilbjóða þeim aptur það, sem þeir höfðu hafnað og fyrirlitið. Þar fyrir „i dag, á meðan þèr heyrið hans raust, þá forherðið ekki yðar hjörtu“. Hebr. 3, 7. Hèr af er ljóst að skilja Guðs rèttlæti, náð og visdóm, að hann lætur tilbjóða öllum sínum börnum sáluhjálparmeðölin, svo allir skuli sakfellast sem ekki trúa sannleikanum. 2. Tess. 2, 12. Þar fyrir er það synd, að ræna andann sínum frívilja, með ungbarna skírninni. Það er eins og að gjöra sáttmála fyrir sofandi mann, og þvinga hann til að hlýða honum, þegar hann vaknar. Þetta sèst betur, þar sem eru margir trúarbragða flokkar, hvernig bæði ungir og gamlir umbreyta trú sinni, og fara frá einum til annars.

Margir eru, sem eingu trúa nú á dögum, hvorki Guðs orði, eða neinu, sem leiðir til sáluhjálpar; þeir eru náttúru-trúarmenn (Natúralistar), þeir segja, að það sè ekkert til, nema náttúran, og allt, sem sjáist á himni og jörðu, sèu hennar afleiðingar. Þeir segja, að þau ótal sólkerfi, og allt, sem hrærist í þeim endalausa himingeimi, sè sem eitt klukkuverk, sem aldrei þurfi upp að draga, og gangi af sjálfu sèr frá eilífð til eilífðar. Ef vèr spyrjum: Hefur einginn skapað þetta, og sett það í gang? Þá svara þeir nei. Hefur nokkur hlutur orðið til af sjàlfum sèr, án orsakar og tilefnis? Þeir halda það. Mennirnir geta ekki með öllum sínum lærdómi og þekkingu gjört nokkurn hlut af eingu efni. Þeir geta heldur ekki gjört nokkurn hlut að eingu, ekki

eitt hár, strá eða vatnsdropa, eða nokkurn annan hlut; það verður að ösku, reyk eða gufu, og blandast út í frumefnin. Ef það er ekki til nema nátturan, hvar fyrir stóð sólin kyr á Jósúa dögum? Jósúab. 10, 12—15. Af hverju brenndi ekki eldurinn þá þrjá hebresku? Daníel. 3, 20—27. Af hverju átu ekki ljónin Daníel, þá honum var kastað í ljónagryfjuna? Daníel. 6, 17—24. Af hverju varð myrkur, þegar Jesús dó og af hverja rifnaði fortjald musterisins? Af hverju verkaði ekki náttúran eins og hún var vön? Hvað hindraði hennar vanalega gang? Af hverju aðskildist það rauða haf? 2. Móseb. 14, 21. Hafði ekki verið hvass austanvindur heila nótt fyr, og ekki þurkað upp eða aðskilið hafið? Þetta er allt ónátturlegt, ef það væri eingiun Guð til, sem stjórnar öllu á himni og jörðu. Af hverju hrundu Jerikós múrar, þá þeir þeyttu lúðrana, og æptu herópið? Jósúab. 6, 20. Af hverju fellur ekki „manna“ nú á dögum eins og á dögum Móses? Eru þó ekki margir sem deyja úr hungri? Af hverju aðskildist áin Jórdan, þegar prestarnir báru Guðs örk útí vatnið? Jósúab. 3, 16. Mun náttúran hafa gefist upp og orðið þreytt, og þess vegna þurft að hvíla sig? Vissulega ekki. Hvaðan koma þessar getgátur, og til hvers leiða þær? Þær koma frá djöflinum, og leiða til vantrúar á Guði og hans orði, og síðan til fordæmingar. Satan vill útiloka frá mannlegum skilningi, fela og að eingu gjöra, Guðs óumræðilega visdóm, svo þeir villist frá sannleikanum, og meðkenni ekki

Guðs hönd og stjórnan í nattúrunnar ríki. Heimskinginn og sá óguðlegi segja í sínu hjarta: „Þar er einginn Guð til.“ Sálm. 10, 4. Sálm. 14, 1. Þeir afneita drottni, sem þá hefur keypt, og yfir sig leiða bráða glötun. 2. Pèt. 2, 1.

Hinir svokölluðua skynsemis-trúarmenn (Rationalistar) eru mikið líkir hinum fyrnefndu. Þeir neita öllum kraptaverkum, bæði í gamla og nýja testamentinu, að þau sèu frá Guði, eða af hans krapti. Þeir kalla það galdur og fjölkynngi. Þó meðkenna sumir af þeim, að Guð sè til, en hann getur ekki gjört kraptaverk og undur, eptir þeirra dómi. Hèr af má sjá, hvað máttugur Satan er í börnum vantrúarinnar. Og þetta kalla þeir skynsemis-trú. Þeir segja, að það sè einginn sálar óvinur, ekkert straff fyrir það illa, ekki heldur nein umbun fyrir það góða. Þeir segja, að galdur og undra-gjörningar sèu af mannlegum vísdómi, og er það þá meira en Guð getur gjört, eptir þeirra meiningu. Allt þetta miðar og bendir til þess sama, að fyrirlíta og einskis meta Guðs almættiskrapt og herradæmi. Þeir þakka allt mannlegum vísdómi. Þannig allar nytsamar uppáfundningar, mylnur, maskínur og gufuvèlar. Menn geta ferðast yfir það götulausa haf, móti straum og vindi, án þess að villast, og með fuglsfart yfir löndin, og í gegnum fjöllin. Þeir geta farið á lopt-bátum upp fyrir skýin. Þeir geta sofið og unnið undir vatninu. Þeir geta sent sína þanka og orð yfir alla jörðina, á fáum mínútum. Þeir taka til fanga skruggu- eldinn í loptinu,

svo hann gjöri eingan skaða. Þeir láta vatnið, eldinn og vindinn vinna fyrir sig. Þeir samanbinda náttúrunnar frumefni, til að gjöra undur og og kraptaverk. En allt þetta þakka þeir mannlegum vísdómi, og gefa ekki Guði dýrðina. En hvar hafa þeir fengið þetta? Er ekki þetta neistar og geislar, frá almættisins stóru vísdómssól? Er það ekki regndropar Guðs vizkuhafs? Er það ekki innnblástur heilags anda, sem er sendur frá náttúrunnar og frumefnanna drottni og meistara, niður til dauðlegra manna hér á jörðinni? Salómon hafði sinn vísdóm frá Guði. Drottinn útvaldi Besalel Úrison, og veitti honum guðlega andagipt, hagleik, kunnáttu og skilning, til að gjöra samkundutjaldbúðina og allt þar til heyrandi. 2. Mósesb. 35, 30—35. Guð hafði gefið þeim þennan vísdóm. Sömuleiðis hefur Guð á þessum dögum gefið þeim öllum vísdóm, til að uppfinna vèlar og undur, hvort sem þeir meðkenna hans hönd þar í eða ekki. Þeir segja með stóru drambi, eins og Nebúkaðnesar: „Er ekki þetta sú mikla Babelsborg, sem eg hefi byggja látið með minum veldisstyrk, minni tign til frægðar.“ Daníel 4, 30. En þeir vita ekki, að þeir eru fátækir, blindir og naktir án Guðs hjálpar og blessunar. Opinb. 3, 17. Hann er gjafarinn allra góðra hluta. Og allar þessar þarflegu uppáfundningar og náttúrunnar leyndardóma, hefur hann þekkt, frá veraldar upphafi. En hann hefur ekki opinberað það, fyr en á þessum síðustu dögum, því hann vill brúka það, til að samansafna sínu fólki,

frá fjórum áttum jarðarinnar, til að uppbyggja sína kirkju og sitt ríki, fyrir sína tilkomu. En þeir óguðlegu vilja brúka þessar vélar, til að útbreiða dauða og eyðileggingu yfir lönd og ríki, og afmá hver annan af jörðinni, og tilbúa sèr eitt helvíti, og fordæma, sig sjálfa fyrir misbrúkun síns frjálsa vilja og þess ljóss og þekkingar, sem Guð hefur þeim gefið.

Þetta ætti að uppvekja oss til, að brúka vel Guðs gáfur, bæði andlega og líkamlega, því vèr verðum kallaðir til reikningskapar fyrir það pund, sem oss er trúað fyrir eða þær gáfur, sem drottinn hefur oss gefið. Ef það illa hefði ekki komið á jörðina, þá hefði Guð ekki getað reynt sin börn. Einginn hefði þá getað gjört annað en það góða. Manneskjurnar hefðu þá ekki getað brúkað sinn frívilja, því ekkert hefði verið til að útvelja eða hafna. Gleðina hefði einginn þekkt, vegna þess að eingin sorg hefði verið til. Guðs vísdómur hefði verið hulinn að miklu leiti. Einginn frelsismeðöl hefði þá þurft, og eingan sáluhjálpara; allir hefðu þá lifað um alla eilífð. Og veröldin hefði ekki getað rúmað þann óttalega fjölda, ef einginn hefdi dáið frá veraldar upphafi, ef að manneskjurnar hefðu aukist og margfaldast, uppá sama máta, sem þær hafa gjört. Hèr í sjáum vèr Guðs mikla vísdóm, að það illa og góða er hèr á jörðinni, og að hann hefur gefið oss allan þann styrk og hjálp, sem er fullkomin, til að leiða oss til baka til hans. Vèr höfum Guðs orð og anda, hans engla, Jesú Kristi forþènustu og fyrirbænir; vèr höfum vísdóm og þekkingu, til að

þekkja gott og illt, og frívilja, til að hlýða þeim sáluhjálparmeðölum, sem drottinn hefur innsett og opinberað, til að frelsa sín börn. Sumir munu segja: Eg held eg yrði lítið betri, þó eg lèti skíra mig uppá þann máta, sem þú hefur umtalað. Namaan sá syrlenzki hèlt líka, að hann yrði ekki betri, þó hann hlýddi Guðs orði, sem spámaðurinn Elías sagði honum, að dýfa sèr sjö sinnum niður í ána Jórdan. 2. Kongb. 5, 14. Sèrhvert Guðs boð hefur þær með fylgjandi blessanir, bæði andlega og líkamlega, ef þeim er hlýtt uppá þann rètta máta.

Sumir munu kannske segja: Eg hef ekki drýgt neinar stórsyndir, og þarf ekki að umvenda mèr, eða láta mig skíra, og kann það satt að vera, að þèr álítið það svoleiðis, vegna þess þèr hvorki trúið Guðs orði, eða viljið hlýða þeim lögum og reglum, sem hann hefur tilsett. En þèr eruð víst ekki betri en Kornelíus; en þó hans bænir og ölmusugjörðir væru uppstignar fyrir Guð, var það þó ekki nóg, til að frelsa hans sálu. Honum var sagt, að senda eptir Guðs þènara, sem hafði þann heilaga prestdóm, og hann varð að hlýða Jesú Kristi lærdómi, og láta sig skíra uppá þann rètta máta, því Jesús hafði sagt: Utan maðurinn fæðist af vatni og anda, getur hann ekki fengið inngöngu í Guðs ríki. Jóh. 3, 5. Sumir munu segja, að Kornelíus hafi verið heiðinn, og þess vegna þurft að láta skíra sig, og er það satt. En Gyðingar, sem voru Guðs fólk, urðu að gjöra það sama. Jesús sjálfur staðfesti þessa hátiðlegu og guðdóm-

legu athöfn, með því að ganga niður í ána Jórdan, og láta sig skíra, til að sýna skírnarinnar aðferð og máta. Allir þeir, sem vilja komast í Guðs ríki, verða að hlýða þessu, því þau orð standa stöðug, sem Jesús hefur talað.

Það er einginn stærri fávizka til, en að hugsa, að vèr getum hólpnir orðið, með því að hlýða mannaboðum, sem eru ósamkvæm Jesú lærdómi, og höfuðatriðum þeirrar postullegu trúar. Menn gætu eins vel sáð og plantað í hafsins öldum og vænt góðrar uppskeru. Menn gætu eins vel fullvissað sig um, að sigla mætti yfir það atlantiska haf, til vissrar hafnar, án kompáss og stýris. Það væri eins skynsamlegt, að koma fram fyrir konunginn með falska mynt eða tintöflur, til að borga sinn skatt, í staðinn fyrir þá mynt, sem konungurinn hefur útgefið, eptir að konungurinn hefur látið aðvara sína lögregluþjóna og þegna um, að það sè ekki sú gjaldgenga mynt, sem skal vera gildandi í hans ríki; getur hann þá fyrir gefið þeim, og látið þá sleppa óstraffaða, sem þannig fyrirlíta og fótum troða hans lög? Mundi það ekki skerða hans herradæmi og rèttlæti, og vera ósamkvæmt þeim lögum, sem hann hafði staðfest í ríki sínu? Þar fyrir lætur Guð þann eilífa náðarboðskap bjóðast öllum þjóðum, tungumálum og fólki, svo þeir einga afsökun geti haft, þá þeir eru kallaðir fram, til að gjöra reikningskap fyrir sína ráðsmennsku, eða brúkun þess frívilja, sem Guð hefur þeim gefið.

Kæri lesari, lát mig áminna þig um, að umvenda þèr frá öllum þínum syndum, sem þú hefur drýgt. Já, umvend þèr af öllu þínu hjarta. Hugsaðu um hversu mikið þar er í veði, það er frelsi þinnar sálar og það eilífa líf, sú endalausa vegsemd og upphefð í Guðs ríki, um alla eilífð. Þèr getur orðið skyndilega burt kippt, og þegar þig varir minnst, án þess þú hugsir það. Ó, gef þá gætur að þessari aðvarandi röddu; lát þitt hjarta vera auðmjúkt, og þinn anda sundurknosaðan fyrir Guði. Meðkenn þínar syndir fyrir honum, og kappkosta að afleggja þær; og tilreið þig í öllum hlutum, til að geta orðið hæfilegur til, að öðlast fyrirgefning þinna synda við skírnarinnar athöfn.

Það er ekki skynsamlegt, kristilegt eða í nokkurn máta rèttlátt, að lasta og svívirða eina manneskju, þó hún hafi drýgt synd, eða eitthvað, sem ekki hefði átt að vera, ef hann (eða hún) lætur af illu, og iðrast synda sinna, og gjörir það ekki framar. Vèr sjáum, að þeim stærstu Guðs þénurum hefur yfirsèst. Adam fèll frá heilagleikanum í Paradís. Nói og Lot drukku eitt sinn ofmikið af víni. 1. Mósb. 9. kap. og 19. kap. Móses sló i hel egyptskan mann og huldi hann í sandi. 2. Mósb. 2. kap. Hann sló tvisvar á helluna, og mátti þar fyrir ekki koma i það fyrirheitna land. 4. Mósb. 20. kap. Aron steypti gullkálfinn. 2. Mósb. 32. kap. Davíð var maður eptir Guðs hjarta, þó drýgði hann syndir. 2. Samúelsb. 11. kap. Salómon var sá vísasti maður, þó fèll hann frá sannleikans vegi.

1. Kongb. 11. kap. Pètur hafði makt til að leysa og binda á jörðinni, sem skyldi verða staðfest í himninum, þó afneitaði hann frelsaranum. Matt. 26. kap. Páll setti í fangelsi bæði menn og konur, þó varð hann drottins útvalið verkfæri til að útbreiða náðarboðskapinn, og var uppnuminn í þann þriðja himin. Postulag. 8. og 9. kap. 2. Kor. 12. kap. Allir þessir menn drýgðu syndir, en þeir iðruðust og umventu sèr, og þar fyrir blessaði Guð þá, og gaf þeim hið eilífa líf. Þó sýnist, að Páll hafi gjört það minnst, því þá hann ofsókti Guðs söfnuð, þekkti hann ekki Guðs vilja, nè hafði hinn heilaga prestdóm. Hann staðfestir þetta sjálfur, þar sem hann segir: Mig, sem forðum var lastari, ofsóknari og smánari; en mèr var miskunað, sökum þess eg gjörði það óvitandi og í vantrú. 1. Tím. 1, 13. Að öllum mönnum geti yfirsèst, staðfestir eptirfylgjandi frásaga. Þegar einn nafnkenndur maður í fyrri daga, sem átti að dæmast til dauða fyrir sín illverk, var leiddur fyrir dómarann, sagðist hann hafa nokkuð markvert og heimulegt að segja konunginum. Hann var síðan færður fyrir hann. Konungurinn veik honum afsíðis ásamt með höfðingjum sínum, bæði andlegrar og veraldlegrar stèttar. Hann sagði konunginum, að hann hefði sæði til ávaxtartrès, sem alltíð bæri óþrjótandi ávexti, en það verður að plantast með hendi, sem aldrei hefur gjört rangt, og þar fyrir hugsaði eg, að yðar hátign mundi geta gjört það. Eg get ekki gjört það, svaraði konungurinn. Það hvílir meiri vandi á mèr,

en nokkrum öðrum manni. Eg gef lög, og má undirskrifa tilskipanir og fororðningar, og dæma í vöndustu málum; eg þori ekki að segja, að eg hafi alltíð gjört fullkomlega rètt; eg vil gefa landsdómaranum sæðið. Dómarinn svaraði: Þú veizt, herra konungur, að eg útbýti launum til soldáta og hershöfðingja, og má dæma í mörgum málum, og sumir bera fè í dómana og vilja múta mjer; eg veit ekki hvort eg hef alltíð gjört rètt, eg vil gefa það biskupnum. Hann svarar: Þú veizt, herra landsdómari, að eg hef vígt klerka og kennendur, að öllu óhæfilega til Guðs þjónustu, stundum fyrir vináttu og frændsemis sakir eða vegna ríkdóms og álits; eg hefi sett munka með páfans samþykki, til að eyðileggja suma af þeim kristnu; eg hef og svo stundum verið ógáður vegna ofdrykkju, og veit valla hvað eg hefi gjört, eg vil gefa prestunum þetta sæði. Þeir svöruðu í einu hljóði: Vèr höfum aldrei auglýst vor embættislaun fyrir alþýðunni, og flestir hafa borgað oss meira, en vèr höfum átt, og sumir margfalt. Ef einhver hefur spurt oss að því, þá höfum vèr sagt, að það væri vanalagt að borga svo og svo mikið, sem hefur verið mikið meira, en vèr höfum átt. Og þannig stöndum vèr í óbættum sökum við Guð og menn, og vorir embættisbræður eru dauðir þúsundum saman í sama ástandi; vèr getum ekki sáð þessu sæði. Þegar illvirkinn heyrði þetta, hló hann og sagði við konunginn: Eg held það sè bezt fyrir almúgann, að vèr sèum allir hengdir, fyrst það er einginn ærlegur maður á meðal

vor, og eg fyrirbýð yður að undirskrifa minn dauðadóm. Konungurinn brosti, og sá nú slægð og klókindi mannsins, og einginn vogaði að staðfesta hans dauðadóm.

Það stendur skrifað: Allir hafa syndgað, og hafa skort á þeirri hrósun, sem fyrir Guði gildir. Ef vèr segjum, að vèr höfum ekki synd, þá svíkjum vèr sjálfa oss, og sannleikurinn er ekki í oss. Jóh. 1, 8. Þar fyrir hljóðar Guðs orð nú, sem í fyrri daga: Takið sinnaskipti, og hver yðar láti skíra sig til nafns Jesú Krists, til fyrirgefningar syndanna. Postulag. 2, 38. Hlýðið þeim sanna náðarboðskap, sem nú er aptur gefinn til jarðarinnar í sinni fyllingu, því vèr getum ekki hagnýtt oss Jesú Kristi forþènustu til sáluhjálpar, nema vèr hlýðum nýja testamentisins lögmáli, uppá sama máta, og í sömu meiningu, sem Jesús og hans postular kenndu það.

Drottinn hefur búið veginn fyrir sitt orð, á þessum síðustu dögum, með því að innblása með sínum anda konunga, stjórnvitringa og lögsögumenn, til að gefa þjóðunum trúarbragðafrelsi, svo það skuli eingin afsökun verða fyrir fólkið, að það hafi ekki getað hlýtt þeim sanna náðarboðskap. Þetta er orsökin til, að Guð hefur gefið trúarbragðafrelsið á þessari öld, sem undirbúningstíma fyrir þúsund ára ríkið. En mennirnir eru bundnir með venjunnar og siðvanans hlekkjum, í trúarlegu tilliti, svo að þeir þora hvorki að líta til hægri eða vinstri, heldur treysta uppá venju og siðvana, og mannlegan vísdóm, sèr til sáluhjálpar.

Lát míg alvarlega áminna þig um, kæri lesari, að biðja Guð um vísdóm, ljós og þekkingu, og sinn anda, til að skilja og þekkja, hvort að þessir hlutir, sem þú hefur lesið, eru samhljóðandi hans orði og sannleikanum, og sá einasti vegur til sáluhjálpar. Jesús hefur sagt: Biðjið, og mun yður gefast; leitið, og munuð þèr finna; knýið á, og mun fyrir yður upplokið verða. Matt. 7, 7. Eg efast ekki um, að lesarinn trúi, að þetta sè sannleikur. Jesús var opt á bæn til síns himneska föður; ef að hann, sem var Guðs sonur, þurfti að biðja sinn föður um styrk og aðstoð, til að mótstanda freistingum, og til að gjöra hans vilja, hversu miklu fremur þurfum þá ekki vèr þess, sem erum veikir og ófullkomnir. Og ef vèr ekki biðjum til drottins, þá höfum vèr einga hlutdeild í hans fyrirheiti, að hann vilji gefa oss sinn heilaga anda, til að leiða oss í allan sannleika. Þar fyrir gef gætur að þessum hlutum, og vit fyrir víst, að sannleikurinn er máttugur, og mun sigra.

Þegar Adam fèll frá heilagleikanum, og bölvanin kom yfir allt, þá fekk Satan herradæmi yfir jörðinni. Oss er sagt, að það var stríð á himnum; Mikael og hans englar stríddu á drekann og hans engla, og hann hèlst ekki lengur við á himni; honum var kastað niður á jörðina, þeim gamla dreka, sem kallast djöfull og Satan, sem afvega leiðir alla menn. Opinb. 12, 7—10. Vei sè jörðinni og sjónum, því djöfullinn er ofan til yðar farinn í miklum móð, því hann veit, að hann hefur

stuttan tíma. 12. v. þá reiddist drekinn við konuna, og fór burt til að herja á hennar afkomendur, sem varðveittu Guðs boðorð og höfðu Jesú vitnisburð. 17. v. þar fyrir er það ekki undarlegt, þó þeir síðustu daga heilögu sèu svívirtir, hataðir, ofsóktir og deyddir, því djöfullinn er hèr á jörðinni, og hann herjar (gegnum sína þènara og verkfæri) á afkomendur konunnar, hennar ætt, það er, þá sönnu kirkju, sem varðveitir Guðs orð. þetta himneska stríð þykir undarlegt, en eg sè ekkert undarlegt í þvi, meira en hèr á jörðinni. það eru andarnir, sem stríða í likömunum með byssur og sverð, þvi líkaminn er dauður án andans. Jak. 2, 26. Menn stríða hèr og svo án verkfæra, í þrætum og máladeilum, sem eru einskonar andleg stríð, og ýmsir vinna sigur. Drekinn dró þriðjung himinsins stjarna og kastaði þeim á jörðina. Opinb. 12, 4. þ. e. s. þriðjung andanna, sem fylgdu honum, sem kallast hans englar. Af þessu sjáum vèr, að andarnir, í sínu fyrsta reynslu ástandi, hafa haft sinn frívilja, svo vel sem í líkömunum og í andanna vardhaldi. En þeir voru straffaðir fyrir misbrúkun sins frívilja, og útskúfaðir frá Guðs augliti. Vèr lesum í Jobsbók, að Satan hafði farið og litið eptir öllu á jörðinni. Jobsb. 1, 7. Pètur segir: Yðar mótstandari, djöfullinn, gengur umkring sem öskrandi ljón, leitandi að þeim, sem hann geti gleypt. 1. Pèt. 5, 8. Páll kallar hann Guð þessarar aldar, og segir að hann hafi blindað svo þeirra hugskot, að þeir ekki sjái birtu hins dýrlega náð-

arlærdóms Krists. 2. Kor. 4, 4. Þannig hefur Guð þessarar aldar blindað allra þeirra hugskot, sem ekki hafa Jesú lærdóm á þessum dögum og sem ekki vilja trúa honum, þá þeir hafa haft tækifæri til að þekkja hann. Þegar djöfullinn tók Jesúm uppá hátt fjall, og sýndi honum öll ríki veraldarinnar, sagði hann: Allt þetta mun eg gefa þèr, því allt er mèr það í vald gefið, svo eg get gefið það hverjum sem eg vil. Lúkas 4, 5—6. Jesús rengdi hann ekki um, að hann hefði vald yfir því, því hann hafði sagt, að hann væri þessa heims höfðingi. Jóh. 16, 11. En aptur segir hann: Mitt ríki er ekki af þessum heimi. Jóh. 18, 36. Jesús útrak legio af djöflum, frá þeim djöfulóða, sem hafði sitt aðsetur í dauðra manna gröfum. Mark. 5. kap. Hallgrímur Pètursson segir, að þeir hyggnu hafi útreiknað, að þeir hafi verið 6,666 að tölu. Allt þetta sýnir með mörgu öðru fleira, að Satan er hèr á jörðinni, og hans englar, og hann hefur herradæmið yfir jörðinni.

Látum oss nú stuttlega aðgæta, hvar það illa er, hvort það er í þessum heimi, sem Jesús segir að Satan sè höfðingi yfir. Hvar er manndráp, hórdómur, þjófnaður, öfund, lýgi, baktal, svik, hofmóður? Allt hèr á jörðinni. Hvar er galdur, svívirðileg níðingsverk, ofdrykkja, guðlöstun afguðadýrkan, blót, eiðar, synd, sorg, nagandi og píandi samvizka? Þetta er allt hèr á jörðinni, og er misbrúkun þess frjálsa vilja, hvar fyrir allir verða kallaðir til reikningsskapar, og dæmdir, hver

eptir sínum orðum og verkum. Hvar eru höggormar, nöðrur, ljón, birnir, eitruð grös, þyrnar og þistlar, jarðeldar og jarðskjálftar, stormar, hagl, skruggur, sjáfargangur, brennandi hiti og dauðlegur kuldi? Er ekki nóg af eldi og brennisteini í jörðinni? Er það ekki nóg í loptinu? Þetta stjórnast ekki af mannlegum krapti, og er þar fyrir ekki misbrúkun þess fríja vilja. Hvað er það illt, sem vèr ekki getum fundið á þessari jörðu? Hvað er það?

Eg hefi í öðrum kapitula talað um kristninnar óttalegu stríð og eyðileggingar, og afleiðingarnar þar af, sem allt í sameiningu sýnir, að það illa er hèr, og Satan hefur mikla makt á jörðinni, sjónum, og í loptinu. Eða sem Páll segir: Þess höfðingja sem í loptinu drottnar, þess anda, er sýnir sig verkandi í vantrúarinnar sonum. Efes. 2, 2. Hugsaðu ekki þar fyrir, kæri lesari, að það sè ómögulegt, að komast í Guðs ríki. Því það er í gegnum hörmungar, að oss byrjar inn að ganga til lífsins. Vegurinn er þröngur, og fáir sem finna hann. En allir geta fundið hann og gengið á honum, sem vilja brúka sinn frívilja, til að hlýða Jesú Kristi lærdómi. Sannlega segi eg yður, að þau orð sem Jesús talaði, munu fordæma þá á síðasta degi, sem ekki vilja trúa og hlýða hans lærdómi, eða nýja testamentisins, lögmáli. Eg vonast eptir, að allir þeir, sem trúa (eða þykjast trúa) ritningunni, vilji meðkenna, að það sèu gefnar nógar sannanir, til að staðfesta það, sem um er

talað. Ef þeir ekki trúa Guðs orði, þá eru þeir ekki kristnir, og hafa eingan rètt til að kalla sig það. Eg tala alleina til þeirra, sem trúa Guðs orði, og reiða sig á Jesú Kristi lærdóm og fyrirheit. Náðin drottins Jesú Krists, Guðs kærleiki, og sameining heilags anda sè með yður öllum. Amen.



## Efni:



